138. 16. Mai 1457. í Kaupmannahöfn.

Aðalskaparbréf Bjarnar ríka Þorleifssonar, er hann fékk af Kristjáni Danakonungi hinum fyrsta.

AM. Fasc. XXIX, 21, transskript þriggja manna á skinni gert í Flatey 6. Júlí 1490. Transskriptið fékk Árni að láni frá Hlíðarenda í Fljótshlíð, en hefir gleymt að skila því aptr. Það er auðséð að transskriptið er ekki nákvæmt eptir frumritinu, heldr hafa transscriptores þýtt bréfið um leið á íslenzku, enda farast Árna svo orð um transskriptið: »Id præterea heic notandum: transscriptores istos legitimam et verbo tenus factam diplomatis descriptionem præ se ferre, cum nihil minus fecerint. Et enim Transscriptum istud ineptæ translationis nomen magis meretur, in qvâ Danicæ voces per totum diploma â genuinis suis terminationibus in Islandicas detorqventur, atqve in fine passim eo modo mutantur, ut magis Islandicæ videri possent, licet non raro ita exeant, ut nec verè Danicæ nec Islandicæ dici mereantur. Scriptio etiam vocum per totum diploma nihil Danicum sapit, sed literatura illa (Bogstaveringen) magis longè ad Islandicam accedit, in iis præcipuè vocibus, qvæ in idiomate Islandico similes sunt Danicis. Uno etiam loco pro Lensmænd ponnnt hirdstiora, qvod verbalis transscriptionis assertioni è diametro adversatur« (afskript með hendi Grunnavíkr-Jóns í ÍBfél. 55. 4to). Sbr. Lagasafn M. Ketilss. I, 38—39.

Riddara Brieff Biörns Þorleifssonar.

Víj cristiern med guds nađ danmarks norigs uendis ok gota konung. Greifi j oldinborg ok delminhorst. giorum aullum monnum uiturligt at fyrir truskap ok uillelege þenesta sem þenne brefuisar biorn þorleifsson oss ok vorum[1]) rike hier til giort hafur ok hann ok hans ecktaborn ok[1]) afkuæme oss ok[1]) uorđ Rike erfinga ok epterkomner konunger j norige hier epter trvliga giora ok beuisa skulu suo leinge þeir lifa þđ hofum víj unnt ok gefit ok unne gefa med þessu uoru opnu brefe fornefnde biorn þorleifsson og[1]) hans rette ecktabarni og[1]) afkuæme fríjheith ok frelse sem andrđ riddara ok sueina hafa j uorth Rike norige med skiolld og[1]) hialm til æuennlig tíjd sem er einn huit biorn j eitt blatt felld j skiolldinn ok einn huit biorn upp ađ hialminn epter þui sem hier for nedan malath star uor ok krununar rettug heit oforkreinkith j allann matđ. Þui forbiodum uíj alle hue hellzt þeir eru ok einkannliga uora hirdstiora ok umbodsmenn fýrnefndan biorn þorleifsson ok hans ecktabarne ok afkuæme hier ut j ath hindra edur hindra

[1]) Svo.

lata mæda kuelia ellur oforretta j nockurn matta under uora konungligꝍ hefnd ok reide.

Datum jn castro nostro hafniensi[1]) feria secunda proxima post dominica qua cantatur cantate nostro sub cecreto. anno domini mil(l)esimo quadringentesimo quinquagesimo septimo[2]).

---

139. 18. Juni 1457. í Klofa.

Prófentubréf Böðvars Eiríkssonar við Jón Ólafsson (mág sinn?), þar sem hann gefr Þrándarholt í Núpshrepp sér til framfæris.

Biskupsskjalasafn, Skalh. Fasc. V, 5, frumrit á skinni; AM. Apogr. 2563, eptir frumritinu »accuratè«.

Þat giorum vier gunnar prestur andresson. þorgeir þosteins-

---

[1]) hafnencis, transskr.; [2]) Bréf þetta þekkist nú ekki frumritað á öðruvísi máli en hér, nema hvað Magnús Ketilsson hefir látið prenta það á dönsku í Lagasafni sínu I, 38—39, en hvort sú danska er annað en þýðing hans með hliðsjón af samtíða bréfum, er vafasamt. Hjá Magnúsi er bréfið svona: »Vi Christiern medt Gudz Naade Danmarchis, Norgis, Vendis och Gottis Konningh, Greffue udi Oldenborg och Delmenhorst, Giøre alle Mannd vidterligt, at for Troeschab och villige Thienniste, som denne Breffuissere Biørnn Thollessenn Oss och voris Riger her til giort haffuer, och hannd och hannds Egtebørnn och Affkomme Oss och vore rette Arfuinge och Efterkommere, Konge i Norge her efter trolligenn giore och bevisse schulde, saa lenge de leffue. Tha haffue Vi undtt och giffuit och unde och giffue medt dette vort obne Breff fornemte Biørnn Thollessenn och hanns rette Egtebørnn och Afkomme, Frihed och Frelse, som andre Riddere och Svenne haffue i vort Rige Norge, en Schiolde och Hielm thil Ævigtiid; som er en Hvid Biørn i it blaat Felt i Schioldenn, och en hvid Biørnn paa Hielmenn eftersom her for neden malet staar Vor och Kronens Rettighed vforkrenncket i alle Maade. Thi forbiude Vii alle ihuor de helst ehre, och besynderlige Voris Lehns-Mend och Ombedis-Mend fornemte Biørnn Thollesonn och hanns rette Egtebørnn och Afkomme herudi at hindre eller hindre lade, møde eller vforrette i nogen Maade, vnder Kongel. Heffn och Vrede.

Datum in castro nostro Haffniensi, feria secunda proxima post Dominicam qva cantatur Cantate. Nostro sub secreto. Anno Domini Millesimo, qvadringentesimo, qvinqvagesimo septimo«.

son. arnbiorn gudmunzson godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefe at þar vorum vier i hia saum ok heÿrdum æ ord ok hanndabannd ions olafssonar ok bauduars eirexsonar at suo fyrir skildu at fÿrr nefndr bauduar hannlagdi ione olafsÿne halfa iordina þrandarhollt sem liggur i arnes(þingi) i nupshrepp med aullum þeim gaugnum ok gædum sem greindre iordu fÿlger ok fÿlkt hefer at fornu ok nÿu ok hann uard fremzt eigandi at til æuenlegrar eignar. en hier i mote skildi adr nefndur bauduar sier æfuenlegt framfære ok bordhalld sæmelegt heima j klofa ok þionuztv sem dandi manne ber at hafa j sinne profvenntv ok þar til uadmal honum til uosklæda ok þar til skiædi sem honum þarfazt ok skÿrtulerept upp æ huert ar. skildi bavduar af sier alla þionvstu. skylldi fÿrnefndr bauduar fa sier sialfur sæng ok kistu en ion olafson skÿlldi hallda sænginne vp til uadmala en fallen sængin ok kistan ione til erfdar epter bauduar latin.

uar þesse giorningr giordr med upplagi ok samþÿkki ingebiargar eirexdottur kvinnu ions olafsonar en ef ions olafssonar misser vid ok æ hann ecki skilgetet barn epter med ingebiorgu kuinnu sinne þa skÿldi hun eiga adrgreinda iord til æfuenlegrar eignar ok bauduar eirexson hia henne til framfæress epter aullum þeim skildaga sem þetta brefit utuisar.

ok til meire sannenda hier um þa sette ion olafson sitt insiglle med uorvm insigllum fÿrir þetta kaupbref sem skrifat uar j klofa a landi i lannmannahrepp laugardagin næsta epter dÿradag anno domini m° cd° l° septimo.

---

140. 24. Júlí 1457. á Valþjófsstöðum.

Sæmundr Erlendsson handabandar Magnúsi bróður sínum tuttugu hundruð í Bustarfelli í Vopnafirði, ef hann feingi það í hlutskipti sitt (eptir foreldra þeirra), annars hverja þá jörð, er hann hlyti.

AM. Apogr. 4468 »Ex originali Biörne Petursonar ä Bustarfelle« (AM.). Afskriptin er með hendi Árna. Árni gaf Birni frumritið aptr.

Þath gerum vit Finnbiorn Jonsson ok Sêbiorn Semundzson godum monnum kunnikt med þessu ockru brefi at þar vorum

vit i hia ok heyrdum æ i Mula i Skriddal crossmessu um vorit at Sêmundr Erlendzson handabandadi Magnusi brodr sinum til fullrar eignar tuttugu hundrut i Bustarfelli svo framallega sem hann mêtti fremzst med lôgum ok þeirra kaup utviisar ad[r. E]n ef eigi ÿrdi eign Sêmundar i sitt hlutskipti þessi tuttugu hundrut þa skÿlldi Magnus Erlendzson eignazt hveria þa iörd sem Sêmundi brodr hans hlotnadizt til erfdar epter fôdr sin ok modr.

Ok til sannenda her um settum uer fyrskrifadir menn ockur inzsigli fyrir þetta bref skrifat æ Valþiofsstôdum i Fliozdal sunudagin nêstan fyrir Jacobsmessu þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jhesu christi þushundrut fiôgur hundrut fimtiger ok siau ær.

---

## 141. 20. August 1457. i Vattarnesi.

Jón prestr Pálsson selr Guðmundi Magnússyni jörðina á Höskuldsstöðum í Breiðdal með tilgreindum landamerkjum og ítökum, fyrir jörðina Tungu í Faskrúðsfirði og lausafé að auk.

Afskript gerð 25. Apr. 1703 í Bernfirði og staðfest af Hallgrími Jónssyni Thorlacius og Guðmundi Árnasyni eptir vidisse Páls Björnssonar, Gísla Finnssonar og Einars Eiríkssonar 1633, en það var gert eptir frumritinu á kálfskinni.

Ollum mønnum sem þetta Brief sia edur heira sender Guttormur prestur Arnorsson. Oddur Jsleifsson. Þorsteirn Jonsson og Arnor Andresson kuediu Guds og sijna kunnugt giörande ad þa er lided var fra hijngadburd vors Herra Jesu Christi þushundrud fiogur Hundrud fim̃tyger og Siau ar laugardagenn næstañ epter Assumtio Sancte Marie ã Vattarnese i Reidarfirde vorum vier i hiã sãum og heirdum ã Ord og Handaband greindra[1]) manna i millum Jons prestz Palssonar og Gudmundar Magnussonar. ad so firer skilldu. ad Jon prestur Palsson sellde Gudmunde Magnussine Jordena Hoskulldzstade i Breiddal er liggur i Heidalaþijngum̃ med ôllum þeim gôgnum og giædum er greindre Jordu filger og Jtôkum er filgt hefur

---

[1]) Svo.

ad fornu og nyu og firr nefndur Jon sagde Hoskulldstader ætte Skogarteig firer suñañ Vatnzfotiñ. og þrætutungur firer suñañ āna i breiddal. eñ Half(!) firer nordañ Tungurnar og land allt i Raudatinds gyl. er hann vard eigande ad. Hier i mot gaf Gudmundur Magnusson Jordena Tungu i faskrudsfirde er liggur i Kolfrejustadar þijngum firer xij. hundrud med ollum þeim gögnum og giædum sem greindre Jordu filger og filgt hefur ad fornu og nyu og Gudmundur vard fremst eigande ad og þar til x. mālnitu kugillde. og eiga ad lukast ā næstu fardögum og v. hundrud frijdvirdt. og eiga ad lukast þa tom være til. Var þad skildage. ad huor skillde suara lagsiptingum ā nefndum Jördum er sellde og [sa[1]) hallda til laga [er kéypte[1]). Og til sanninda hier um setium vier firrskrifader menn vor Jnsigle firer þetta bref. skrifad ā Kolfrejustad i faskrudsfirde jn festo Thimothei Martyris ā sama aare[2]). tueimur dögum sijdar enn firr seiger.

---

## 142. 29. August 1457. i Reykjahlíð.

Jón Ólafsson kvittar Ólaf Loptsson föður sinn og Guðrúnu Rafnsdóttur móður sína fyrir föður- og móðurarfi sínum.

AM. Fasc. XIV, 8, frumritið á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu; en þrjú af þeim eru frá dottin.

Qvittantia Jon Olafssonar vm arffven effter forelldra sijna[3]).

Þat gervm vær Sigurdur prestur jonson. andres prestur steinþorsson. ꝳagnus jonsson. petur petursson. stefan hallzson. sigurdur ellingsson. leikmenn. godum monnum uitvrligt med þessv uorv brefi. þa er lidit uar fra hingatburd vors herra ihesv christi þvsvnd. cccc. fimtiger og sio ar. a uidimyre i skagafirdi fimmtodaginn næsta epter jonsmessodag ante portam latinam[4]) nærverandi þordi prest hrodbiarttsyne er þa uar profastur og forsagnaruottur. uorum uær j hia og h(e)yrdum æ. ath ion olafsson gaf olaf loptson favdur sinn og gudrunu rafnsdottur

---

[1]) [b. v.; vantar í afskr.; [2]) þ. e. 22. Aug.; [3]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17 öld; [4]) þ. e. 12. Maí.

modur sina med handabandi kvitt og akærulavs vm þann favdur arf og mordurarf sem adur nefndvr ion olafsson til stod epter fyrgreinda menn olaf og gvdrvnv fyrir sier og avllum sinum erfingium og epter komendvm. heyrdum vær optnefnda menn olaf og gvdrvnv lysa þvi þar fyrir oss og morgum dandi monnum avdrum at þau mætti ecke[1]) med logvm gefa so mickl(a) peninga jone syne sinvm nema hann villdi leggia aptur til jafnadar seirna meir og gera sinum syskinvm heidur þa at þeira gipting lægi vid. og þui lofadi jon olafsson þa upp æ stadin og hier vilivm vær sveria epter ef þvrfa þikir.

Og til sannennda hier vm settum uær fyr nefndir prestar og leikmenn vor innsigli fyrir þetta vittnesburdar bref er skrifat var i reikiahlid vid myuattnn hia verannde jone olafssyne. manvdagin næsta fyrir festvm translacio(nis) sancti cutberti episcopi æ sama ari sem fyr seigir.

---

143. 8. September 1457. í Skálholti.

Bróðir Steinmóðr ábóti í Viðey vottar, að hann hafi verið við á Núpi undir Eyjafjöllum, þegar Sæmundr Hallsson og Ingibjörg Ólafsdóttir, móðir hans, seldu Gottskálki biskupi »góðrar minningar« tuttugu hundruð í Núpi og kot, er þau áttu þar nærri, upp í próventu Ingibiargar ofl.

AM. Fasc. XIV, 7, frumritið á skinni. Innsigli ábóta er fyrir bréfinu.

bref vm nupen firir austan vnder eyiafioldum[2]).

Þadh giorum vær brodhir steinmodr med guds miskunn aboti j vidheý ok almenniligur vicarius ýfer allt skálholltzbiskupsdæmi godum monnum viturligth med þessu voru brefi. adh vær vorum þar j hiã ã nupe vndir eýiafiollum j holltzkirkiusokn ath sæmundr halltzson. ok ingibiörg olafsdotter modher hans selldu virduleghum herra godrar minningar biskup Gothskalk þau tuttughu hundruth sem þau ættu j fyrgreindre jördhu nupe ok þui koti sem þau ãttu þar nærri. j svodan mata ath nefnd ingibiörgh skylldi hafa ævenlega prouentu.

---

[1]) Svo, yfir línu; [2]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

Jtem gaf fyrgreindr herra Gothskalk quittar þær fimtan merkr sem sýner hennar voru skyllduger fyrir þat ath þeir sloguzt þar j kirkiunne. enn greindr sæmundr skýlldi hafa fulla penninga fyrir sinn part. for þessi giörningr fram med fullu handabandi. ok konu sæmundar ok öllum sonum fyrgreindrar ingibiargar samþýckiundum.

Ok til sanninda hier vmm settum vær vort inzsigle fyrir þetta bref skrifath j skálhollti jnatiuitate[1]) beate marie virginis anno domini ᴍ⁰. cd⁰. l. septimo.

---

144. 16. Nóvember 1457. í Stokkhólmi.

Kristján konungr hinn fyrsti ritar kardinálanum við sancti Georgs kirkju (de Columpna) og minnir þar meðal annars á »causæ reverendi patris domini Marcelli episcopi Scalholtensis et Nidrosiensis ecclesie«, en ekki kemr það bréf Íslandi við að öðru leyti.

[Scriptores rerum Danicarum VIII, 385—386 eptir handritasafni Bartholins B. Fol.].

---

145. 25. Nóvember 1457. i Stokkhólmi.

»Marcellus dei gratia episcopus Schaloltensis etiam insularum dominus et Islandie locum tenens« ritar bréf »pro torqve regia data Edvardo Justiniano Januensi«, en það bréf kemr Íslandi ekki við að öðru leyti.

[Scriptores rerum Danicarum VIII, 387—388 eptir Bartholins safni B. Fol.].

---

146. 29. Nóvember 1457. i Stokkhólmi.

»Epistola ad dominum Eneam cardinalem Senensem, iam Papam Pium secundum, Marcelli Scalholtensis« kemr ekki Íslandi við að efni..

[Scriptores rerum Danicarum VIII, 388—389 eptir Batholins safni B. Fol.].

---

[1]) þannig.

147. 21. Janúar 1458. í Skörum.

Réttarbót Kristjáns Danakonungs hins fyrsta um sættargerðina í Túnsbergi 1277 milli Magnúsar konungs lagabætis og Jóns erkibiskups hins rauða um takmörk hins andlega og veraldlega valds (Dipl. Isl. II, Nr. 65).

Gl. kgl. saml. 1154. Fol. bl. 61a, skinnbók, og er þetta ritað nálægt 1470 á að gizka; er hér prentað eptir því handriti einu, því það virðist eitt bezt og fylst allra; er og langelzt þeirra, er nú hafa þessa réttarbót, og er hún þó til í mörgum handritum norskum frá 16. öld (t. a. m, Gl. kgl. s. 1155B. Fol.; 1156. Fol.; 3262. 4to; Ny kgl. s. 1082. Fol.; 1644. 4to bl. 249—50; Uldall. 34. Fol. bl. 116b—117a; AM. 80. 4to bl. 205b—206b; AM. 86. 4to bl. 206b—207b), og á ennþá bjagaðra máli en hér. En til íslenzkra handrita af henni vita menn lítt eða ekki, en Magnús Ketilsson hefir prentað hana í Lagasafni sínu I, 45—46[1]), árfærða en ódagsetta, eptir einu af hinum venjulegu lakari handritum. Réttarbót þessi kemr Íslandi við á sama hátt sem Túnsbergssættargerðin frá 1277 og samningrinn frá 1337 (Dipl. Isl. II, Nr. 458).

Wy Cristiern Met Gudz Nadh Danmarks Swerigis Norigis Wendis ok Gotis koning Greffue j oldenborgh oc Delmenhorst kungøra met thetta wort opna bref. at fore oss j skara vndher wars herra aar Thusanda firahwndradha halftridiesindz tiwghu oppa thet aattwnda Sanctorum ffabiani et Sebastiani dagh komo wørdelike fædher met güdh. biscopa af hamar. Oslo oc Stafwonger. kyrkioña forstandara. Electus i trondeem. oc flere andre prelati oc klærka af Norige. affwer varande werdelikaste fadher herr Erchebiscop i vpsala oc mange flere af wort ærleka raadh. lærdh oc leeke af allom try riken. ok frambaaro Setthergerdha bref som kallas composicio mellom kyrkioña oc kronona. ok kærdho sik i mangho maatho vara mishalna ther vthi. at vore embetzmen i Norye gøra a mot thet bref som wore forfædher hafwa erlika vtgifwit. oc biscopa prelata oc kyrkiorna i Norye hafwa rolika for wor tidh nwtith oc fwlgt. oc som the klagha at them nw giørs hinder oppa the saker. som biscopa oc helgha kyrkios domara bôr ofwer at dôma. oc theras eghen sakôre erw. oc koningzdomin enghen ræt wthi faller som ær om hordôme. frendsæmiospield. Mensværare. frillolifwerne.

---

[1]) Sbr. Safn Paus's bls. 271.

fadderscap. dôma ofwer kyrkio. edher klærka. theras oc kyrkiona eghnor oc i manghom flerom articulis som standa j for[da] composicione. oc annor widherliken. som hwar domkyrkia i Norye hafwer eith edher thü somwledhis lüdhande oc klærkom gøres ther hinder vti huilkit wy enghaledhis lidha moghom. oc med enghe matho lidha viliom hædhan af medhan wí hafwom stadfest biscopom. prelatom. helghom kyrkiom oc klerkom alla the priuilegia oc frihether. som wore føfædher them fore oss vnt oc gifwit hafdhe. Samüledis stadfesom vy en a ny med thesso voro opna hrefwe then dæktinghan oc saatmaal fordhom war giordh mellan the helgha kirkio oc koningzdomenom i norye. som kallast sættagerdh. som foresigher. hwilkin haldas scal whrytelika oc iamfran hædhan af badhe om aller oc ærfwe. ofwer alt wort rike norye som hwn ær menligha wtgifwin. Thy förhiwdhom vi höghelica worom æmbitzmannom. hwat the hafwa heller wor slot. land. edher læn at the einkte befware sik met swa dana sakir som før ærw rørdha. ok the helgha kirkio tilhøra oc biscopom bør ofwer at rætta. Haar thet gør hædhan af. skal hafwa wort ohyllist oc konwngzlica hembd øfwer sigh fangha. oc mista thet han af oss hafwer j vproblem. ok huilke laghmen ther ofwer døma. falla i kyrkiona dom som then helgha kyrkio beskrewin lagh wtwisa. ok skulo laghmen thetta i laghbøker scrifwa at the vitha at rætta sik her efter oc befwarer sigh enkte med the helgha kyrkio malempnom.

Datum in ciuitate nostra scarensi die beate agnetis virginis nostro sub regali secreto presentibus appenso anno vt supra et cetera.

---

148. 21. Febrúar 1458. í Haga.

Þórðr Sigurðsson og Ingibjörg Haldórsdóttir kona hans gefa Haldóri Hákonarsyni alla þá tiltölu og eign, hvort það er meira eða minna, er þau þóttust eiga í Kirkjubóli í Valþjófsdal, til æfinlegrar eignar.

AM. Fasc. XIV, 10, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda filipus sigurdzson. ion narfason. þosteinn sueinsson. þordr gud-

mundsson kuediv guds ok sina kvnnickt giorandi þa er lidit var fra hingat burd vors herra ihesu cristi. ꝏ°. cccc°. l. ok viij. ár. þridiudagin næsta[1]) firir petursmessu ꝍ langa faustu uoru uær i hia i haga ꝍ bardastraund saum ok heyrdum ꝍ ord ok handaband þessara manna af einni alfu þordar sigurdzsonar ok ingibiargar halldorsdottur eiginkonv hans enn af annari alfu halldors hakunarsonar (ad) suo firir skildu ad fyr nefnd hion þordr ok ingibiorg gafu adr nefndum haldori slika tiltavlu ok eign sem þau attu. huort þat er minna edr meira er þau þottuzt eiga j iordunni kirkiuboli i valþiofsdal til æfinligrar eignar ok þau urdu fremzt eigandi ad. suo ok saugduzt títtnefnd hion þordr ok ingibiorg uilldu samþyckia þott oddfrídr aradotter moder títt nefndrar ingibiargar uilldi gefa halldori syni sinum fyr greinda iord kirkivbol. kann ok suo verda ad títt nefndz halldors missi vid suo ad hann eigi ecki barn skilgetid epter sig. þa skildu optt nefnd hion þordr ok ingibiorg þessa giof ok samþyckt sem fyr skrifat stendr aptur vnder sig ok sina erfingia.

Ok til sanninda hier vm settum uær fyrnefnder menn uor insigli firir þetta bref skrifat i sama stad degi ok are sem fyr seger.

---

149. [3. Mai 1458. i Vatnsfirði].

Skrá um jarðir Kristínar Björnsdóttur í umboði Markúss, um porcio kirkjunnar í Aðalvík meðan Markús tók og um skipti á jörðum eptir Kristínu Björnsdóttur.

AM. Apogr. Nr. 732, »Ex membrana« með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »þetta er effter gamallre kalfskinnsleingiu sem synest ad hafa vered einasta minnisblad enn ecki lagaskial, er so oskirt, ad sumstadar verdur varla lesed«. Vatnsfjarðar-Kristín mun hafa dáið um 1458, og af bréfi frá 4. Maí 1458 (Nr. 150) er svo að sjá sem skipti eptir Kristínu hafi farið fram 3. Maí 1458 í Vatnsfirði.

Svo dyrar eru jarder kristinar biornsdottur j umbodi markvs sem hier seiger.

arngerdareyr xx hundrv(dv)m oc med iiij kugilldi.

Backi atta c oc lukt v aurar fyrir fram i landskylld oc iij kugilldi med.

[1]) Tvískrifað.

lagadalur xij c oc iiij kugilldi.
raudamyr x (c) oc iiij kugilldi.
na(u)teyr xvj hundrud oc iiij kyr[1]).
hafnardalr xij hundrud oc ij kyr[1]).
hamar xvj c oc v kvgilldi.
amuli xij c.

lonseyr xvj c oc iiij kvgilldi. oc þar til kalldalon vij c eydijord.

bær iiij hundrad oc xx oc markardalur iiij c oc xx.
myr vj c oc j kugilldi.

ædey lx c xiiij kyr oc lxxxx asavdar oc siavtigi vidvreldis. halbor vti[2]) togr gelldra savda. iiij c oc xx oc j kugilldi oc luktust xıı avrar fyrir fram i landzskylld.

dy(n)iandi xvj c oc ij kvgilldi.
firufiordr[3]) xv hvndrud oc v kvgilldi.
steinolfstader vj c oc iij kugilldi.
mardareyr vj hvndrud oc eig[3]) vj c.
kallzstadir eydekot vj hundrud.
hesteyr iiij c oc xx og vj kugilldi.
Sæbol oc[3]) vj h(undrud) oc ij kugilldi.
gardar viij (hundrud) eydikot.
þuerdalr xvj (hundrud) oc ij kugilldi.
miduik atian c oc iiij kugilldi.

nedri midvik viij hundrud oc ij kugilldi oc luktar fiorartigi alner fyrir fram j landskylld.

stackadalur atta hvndrud oc ij kugilldi lukt mork fyrir fram i landskylld.

rekavik vj hundrud oc lukt fiorartigi alnar fyrir fram i landskylld oc[4]) halft kuildi med jordunni.

atlastadir viij hundru(du)m oc ij kugilldi.
tvnga viij hvndrudvm oc ecki kugilldi med.
glvmstadir iiij hundrudum oc ecki kugilldi med.
kinnastadir[5]).

stadr i adalvik viij hundrud oc halfur fimti tvgur asaudar oc vij kyrr.

skaladalr xij hundrud oc ij kugilldi.

---

[1]) kr, afskr.; [2]) = fimti; [3]) þannig; [4]) z z, afskr.; [5]) hvorki getið dýrleika né landskuldar.

svansvik sextan hundrud oc iij kugilldi.
ʀeikiarfiordr xxx (hundrada) oc v. kugilldi.
vogar viij. hundrud oc ij kugilldi oc lukt fyrir fram oll landzskulld.
kellda vj hundrud.
fotr iiij hundrud oc xx. oc iiij kugilldi.
hattardalr hinn minni xij hvndrud oc ij kugilldi.
selialand xij. hundrud oc iij kvgilldi.
svarfholl iiij. hundrud oc xx oc . . . kugilldi.
svarthamar xij. hundrud oc vij kugilldi.
dvergasteiɴ xvj hundrud oc iij kvgilldi.
Eyrardalr xij hundrud oc iiij kugilldi.
Sudavik xxx hundrada oc med vj kvgilldi.

Suo mikit fell j porcionem kirkiunni j adalvik medan markkus tok xiij alnar oc vij hundrud. oc er ecki af lukt.

Þetta er(u) uor skipti millum þeirra dandemanna sem oss nefndi[1]) til at skipta jordum oc peningum epter cristinu biornsdottur.

J fyrstu grein jordin flatatunga fyrir niutigi hundrada oc hamrar fyrir þriatigi hundrada. þui reiknazt þessi hlutr. c. hundrada.

Burfell æ asum fyrir fioritigi hundrada oc æs xx. hundrudum. tungunes tuttugu hundrudum. Gilhagi fyrir þriatigi hundrada. mosfell xij hundrudum. ʀeiknazt þessi hlutur. c. hundrada oc t(u)au hundrud bettur.

J hinn þridia hlut. Slettardalr fyrir fioritigi hundrada. langamyr fyrir fimtan hundrud. lækiamot fyrir fimtigi hundrada. Geitafell oc rekin fra crossanesi fyrir tolf hundrud. ʀeiknaz sia hlutr þrimur hundrudum fatt j .c. hundrada.

Jardernar i svinadal j hiɴ fiorda hlut fyrir. j. (c) hundrada. auduna(r)stadir fyrir. vj. tigi hundrada. melrackadalr fyrir þriatigi hundrad(a). Braɴgil fyrir fimtan hundrud. þorisstadir fyrir xv hundrud. þui reiknaz þessi hlutr. c. hundrada.

Jtem Sudavik þriatigi hundrada. Eyrardalr. xij. hundrudum. duergasteiɴ. xviij hundrudum. Suarthamar. xij. hundrudum. suartbol. iiij. hundrum oc xx. selialand. xij. hundrudum.

[1]) Svo.

hattardalur. xij. hundrudum. fotr fiorum hundrudum oc. xx. reiknaz sia hlutr. xx. hundrud. oc. c. hundrada.

Jtem j aꝉꝉan hlut. reẏkiarfiordr i uatzfiardarþingum þrir tigir hundrada. vogur. viij. hundrudum. skalavik. iiij. hundrudum oc xx. jokulskellda. vj. hundrudum. heydalr. iiij. hundrudum oc xx. hlid. iiij. hundrudum oc xx. Botn j sugandafirdi fiorum hundrudum oc tuttugu. reiknazt sia hlutr. xx. hundrud oc hundrad hundrada.

Jtem j þridia hlut arngerdareyr. xx. hundrudum. backi viij hundrudum. lagadalr tolf hundr(ud)um. Raudamyr. x. hundrudum. nauteyr. xvj. hundrudum. hafnardalr. xij. hundrudum. hamar xvj. hundrudum. Gilsfiardarmuli. iiij. hundrud oc .xx. saurbæiarfiara. xx. hundrud. sigluuik. v. hundrudum. Reiknazt sia hlutr iij hundrud oc xx. aꝉꝉars hundrad(s) hundrada.

Jtem j fiorda hlut. ædeẏ fyrir. vj. tigi hundrada. sandeyr. iiij hundrudum oc. xx. dalr. iiij. hundrudum oc. xx. lonseyr. xvj hundrud. lon. viij. hundrud. myr. vj. hundrud. hauardzstadir. iij. hundrud. reiknazt sia hlutr .c. oc tuttugu aꝉꝉars hundrad(s) hundrada.

Jtem. v. hlutr. bær iiij hundrud oc xx. æmuli. xij. hundrud. dyniandi. xvj. hundrud. fwrufiordr. xl. hundrada. veidilaus. iiij hundrud oc xx. hesteyr. fiorum hundrudum oc .xx. Reiknaz sia hlutr. xx. hundrud aꝉꝉars hundrad(s) hundrada.

Jtem j. vj. hlut. stadr j adalvik .iiij. hundrud oc .xx. þuerdalr. xvj. hundrud. sæbol. iiij. hundrud oc xx. skaladalr. xij. hundrud. efri midvik. xviij. hundrud. auꝉꝉr miduik ætta hundrudum. stackadalr. viij. hundrud. rekavik. vj. hundrud. fliot. xx. hundrud. Reiknaz sia hlutr. xx. hundrud aꝉꝉars hundrads hundrada med. iiij. hundrudum j fæte.

J þridiu grein breidavik. vj. hundrud oc. xx. geitagil xx. hundrud. fiogur hundrud j selætrum. j tuo hlutina. hualætr. xxx. (hundrada). hniotr. xx. hundrada j adra tuo hlutina. saudlogsdalr xvj hundrud oc xx. kelfla[uik] xij. hundrudvm. oc ij hluter j selætrum j þridiu tuo hluti.

Suo morg k(ugilldi) hofum uær skipt hueriu þeirra sem hier seger.

iiij. k(ugilldi) oc xl. huerr þeirra j sinn hlut. æ þorleifur biornsson at taka halft xvj. kugilldi hia biarna juarssyne af

jnstædu kum. oc eit(t) hia jone stranda oc anat hiæ jone gudmunzsyne. eit(t) k(ugilldi) lopti j reykiarfirdi af gelldum saudum Skulla. vij. k(ugilldi) hiæ eireki af jnstædu kvm. En biarna bonda iij hvndrut jardar part at hann brast j lækiamotz part.

---

## 150. 4. Mai 1458. i Vatnsfirði.

Vottorð fjögurra manna, að Jón Nikulásson hafi lýst eign sinni á nokkrum ánefndum jörðum í Ísafjarðarsýslu og fyrirboðið hverjum manni hald á þeim »eða nökkur skipti á þær láta ganga, þá féskipti var gert eptir Kristínu Björnsdóttur«.

AM. Fasc. XIV, 13, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá.

Lysingarbref jons nikulasarsonar[1]).

Þat giorum uær einar geirmundsson. einar þordarson. magnus halldorsson. þosteinn jonson godum monnum kunnegt med þessu woro brefi ath uær worum hia ok heyrdum æ j breidastofvnne j uazfirde krossmesso um uaret þa lidet uar fra hingatburd wors hera jhesu christi. m. cccc. fimtiger ok atta ar ath jon nichulasson lyste sine eign yfer þessum jordum heydal. botn. haurslid. kellda. biarnarstader. suansuik. er liggur j uazfiardar kirkiusokn. ok myr er liggur j snæfialla kirkiusokn ok firirbaud huerium mane halld ok medferd æ greindum jordum eda nauckur skipti æ þær lata ganga þa feskipte uar giortt eppter kristinu biornsdottur.

Ok til sanninda hier um settu uær fyr nefnder menn uor jnsigle firir þetta bref skrifat j sama stad ok ari nat sidar en fyr seger.

---

## 151. fyrir 1458.

Reikningr milli Odds Bjarnarsonar og Bjarnar Jónssonar.

AM. Fasc. LXXIII, 8 »þetta eru innsigla þveinger fra einu original brefe. sem liggr hia mier. og er dat. 1458[2]). Er um lysing Jons Nikulassonar, ad hann ætti Heydal, Botn, Haurslid, Kelldu,

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [2]) þ. e. Fasc. XIV, 13, frá 4. Maí 1458, Nr. 150.

Biarnarstade, Suansvik og Myr. þetta document, sem þueingerner eru ur skorner, hefur vered elldra enn brefed 1458«. AM.

Suo ordnir peningar woro giordir j mille oddz·biarnarsonar ok biarnar jonsonar.

iiij hundrvd inan manadar. eitt i bost;[1]) en þriu i vadmalum eda audrum peningum ok þriv ath havste af skildum varninge atta kugillde ath wore a . . . . . . . . .

---

152. 30. Mai 1458. á Grenjaðarstöðum.

Vitnisburðr þriggja manna um selstöðu frá Grenjaðarstöðum á Þegjandadal.

AM. Apogr. 120 »Ex orig. Greniadarstad. accuratè. 6 innsigle hafa vered under brefinu, sem nu eru öll burtu« (AM.).

Þat giorvm vier broder einar med gvds nad abote a munckaþveræ. berþor halldorsson. olafur þorgeirsson. svarthavfdi olafsson. prestar. þorgils gvnlav(g)sson ok jon jonsson leikmenn godvm monnum viturligt med þessv vorv opnv brefe. ad sub anno gracie ꝏ°. cd°. l°. viij°. a manadagen næsta epter jonsmesso holabyskvps um vored[2]) a selinv framm uid læken a þeigiandadal. uorv vier i hia. savm ok heyrdvm a ad sira jon palsson er þa hiellt greniadarstad beidde ok krafdi sira sveinbiorn þordarson er þa var profastur æ milli mýrarkvislar ok uargiar ad taka þa votta ok vittnesbvrd(i) er hann þar framleide vegna kirkiu sinnar a greniadarstavdvm. Uar þar í fystu avdvn bergsson til krafdvr af sira sveinbirne. annar magnus arnason ok en þridi bergvr þorsteinsson. ad bera sira jone palssyne ok kirkivnne a greniadarstavdvm riett vitne ok satt vm þat er sira jon vændezt þessvm avllvm monnum ad vottvm ad þeir vissv ad i þessvm savmvm takmavrkvm sem nv standa selhusen uar havfd selfavr fra greniadarstavdvm ok hallden stadarens eign.

Sor audvn bergsson j þessvm sama stad fullan bokareid firir adur greindvm sira sueinbirni ad hann vissi firir full sannende ad hrafn gvdmvnzson lavgmadur þa hann hielltt

---

[1]) = kosti? [2]) þ. e. 24. April.

greniadarstad epter manplagvna env mẏklv[1]) hafdi hann selfavr fra greniadarstavdum i þeim savmvm takmavrkvm sem þa stod hann ok nv standa selhvsen ok þat var þa reiknud eign greniadarstadar ok alldre heyrdi hann avdrvm eignada þessa sellstavdv en greniadarstad meir en vpp a þriatigi uetra þar til hann heyrdi sagt ad sira þorkell eignadi sier.

Item sor magnus arnason fvllan bokareid i sama stad ok vettfange ad hann vissi firir fvll sanende ad advr greindur hrafn gudmvnzson laugmadur hafdi selfaur fra greniadarstavdvm i þeim saumum takmavrkvm sem þa stod hann ok nu standa selhusen vm þriv sumur so ed hann vissi ok þat uar þa reiknvd eign greniadarstadar ok aungvan heyrdi hann akæra ok alldre[2]) avdrvm eignad en greniadarstad þessa selstavdu meir en upp a þria tigi vetra þar til hann heyrdi sagt ad sira þorkell eignadi sier.

I þridiu grein sama stad ok uettfange sem fyr seiger sor bergur þosteinsson fullan bokareid at hann uissi firir full sannende ad þa er fyrsagdvr hrafn logmadur þa hann hiellt greniadarstad epter manplaagvna env myklu hafdi hann selfavr fra greniadarstaudvm j þeim savmvm takmavrkvm sem þa stod hann ok nv standa selhusen ok alldre heyrdi hann þessa selstavdu audrvm eignada en greniadarstad meir en vpp a þriatigi vetra þar til hann heyrdi sagt ad siera þorkell eignadi sier ok hann heyrdi þostein asbiarnarson kalla þat stadarsel so sem adra menn þa hann bio a halldorsstaudum j laxardal.

Ok til sannenda hier vm settu vier vor incigli firir þetta bref er giort var æ greniadarstaudvm j reykiadal þridiudagen næstan firir festvm petronille virginis. anno domini. ₥°. cd°. l°. viij°.

---

**153.** **12. Juni 1458.** **á Víðivöllum.**

Klerkar fyrir norðan land kjósa Ólaf prest Rögnvaldsson til biskups á Hólum.

---

[1]) þ. e. Svartadauða 1402—1404. Rafn tók við staðnum 19. Maí 1406 (Dipl. Isl. III, Nr. 587); [2]) Hér var skafið út orð. Árni heldr að alldre hafi verið tvískrifað og svo skafið út á síðara staðnum.

AM. Fasc. XIV, 9, frumritið á skinni. Þrjátín innsigli hafa verið fyrir bréfinn. Nú eru þrettán af þeim dottin frá, en 17 ern enn fyrir því.

kiorsbref biskups olafs[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sea edr heyra Senda þorstein jonsson. semingr magnusson officiales heilagrar holakirkiu. jon paalsson. sweinbiorn þordarson. sigmundr steinþorsson. sigurdr þorlaksson. sigurdr jonsson. hallur finsson. jon broddason. þorgrimer jonsson. hallur arnason. gamle biornsson. olafuer þorgeirsson. stigr jngemundarson. magnus einarsson. þorleifuer magnusson. jon gudmundsson. jon haldorsson. arnoddr einarsson. andres jonsson. symon jngimundarson. magnus illugason. ragwalldr asgrimsson. einar haldorsson. haldor olafsson. halkel gudmundzsson. þorstein gudmundzsson. swarthofde olafsson. þorwalldr magnusson ok þorkell þordarson prestar sama biskupsdømis kwediu gudz ok sina kwnikt giorande ad sub anno domini ꝳ° cd° l° octauo manadaghin nesta efter barnabe apostoli a almennilegri prestastefnu a wideuollom j skagafirde kwomw wer saman med morgum odrum monnum lerdom ok leikom jnwyrdiliga skodande ok wmhugsande naudsyn worar andeligrar modr heilagrar hola kirkiu huat oss leizt farliga standa a eefter frafal wors andaligx faders biskup gotskalkx godrar minningar. þui hafuom wer omhugsat ok efterleitat heilagx anda tilwisan postulerat ok samptykt heidarligan man sira olaf ragwaldssonar prest sama biskupsdømis til worn forman ok forswarara heilagrar holakirkiu til andligra lvta ok weraligra luta ok werda war biskup ef gud wil swa skipa at wernda ok forswara kirkiona for ollum þeim lutum sem olagliga kwnna til koma wppa heilaga kirkio saker þes at heilog kirkia hefuer oft komit j storan skada ok mykin kwant af þeirra biskupum sem til kirkionar hafua warit skipader swmer med eing en swmer med wmbode. wilium wer ecke þan skada hafua leingur for heilaga kirkiu ef wer megum mote standa. hefuer þat ok werit gamal wani landzins at samþykkia forman wt af landet fore kirkiona ok biskupsdæmit. finzt þat ok j allom greinom at þeir hafua nytteligaster werit heilagra[2])

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [2]) þannig.

kirkio sem af waro lande hafua samþykter werit. wiliom wer þessi warre samþykt til standa ok adr greindan sira olaf til styrkia ok heilaga holakirkiu til allra rettra mala þui oss lizt han nytteligastur firir heilaga kirkiu efter warre samwizskw. swo bidium wer ok alla dandemenn bade lærda ok leika at þeir styrke þessa wara samþykt ok giorning med sinom brefuom ok godom tillawgum j heidr med gud sancti johannis goda gudmund ok heilaga kirkiu.

Ok til sanninde her om hengiom wy wor jnsigle for þetta bref er giort war j sama stad dag ok aar sem for seger.

---

## 154. 2. August 1458. í Kaupmannahöfn.

Kristján Danakonungr hinn fyrsti ritar Calixtusi páfa hinum þriðja um biskupskosning á Hólum, því að stóllinn væri auðr, og biðr hann páfa að trúa ekki í fyrsta bragði Páli Björgynjarbiskupi um Pál förumunk, er ná vill í embættið, eða öðrum um það eða svipuð efni, nema sín bréf komi til.

Bartholinssafn B. Fol. bls. 193—194, skr. c. 1690. Prentað í Scriptores rerum Danicarum VIII, 404—405.

Ad Papam Calistum in causa Holensis Ecclesie, anno 1458, 2. Augusti.

Sanctissimo in Christo patri et cetera. Christiernus dei gratia et cetera.

Priore tempore cum se Reverendus Paulus Episcopus Bergensis regali apostolicis fultus apicibus presentasset conspectui,' audiente et intelligente universo regnorum meorum consilio, pro parte et nomine sanctitatis vestre inter alia firmissima pollicitatione promisit, qvod de cetero in regnis meis et dominiis de nullo intenderet beneficio providere, nisi regiis desideriis post electiones canonicas literaliter expectatis. Verum posteaqvam cum gratiarum actione mens mea qviete leta decumberet, in eo qvod videre videbar excuberantem ad ecclesiarum profectum V. B. vigilantiam, rumoribus novissime ex Roma delatis innotuit sinistra subreptione qvorundam S. V. preventam, ad Hollensem Ecclesiam Jslandie in regno meo Norvegie, cuidam fratri Paulo ordinis Predicatorum providisse, rem qvi-

dem P. B. formidabilem et pericula gravissima parituram, tum qvia patria Islandia amplissima et referta populis tellus ab initio mero et mixto imperio pacifice subdita fuit semper et est regno meo Norwegie, privilegiisqve et libertatibus Ecclesiarum dicti regni innititur, qvod ibi nisi liberis electionibus et consensu regio salvis Ecclesiarum cathedralibus provideatur ecclesiis. Neqve hic, ut cum supportacione dicatur, incumbebat rationabilis reservacionis causa qvoad personam provisam, cum ad Episcopalem arcem ex eo minime munitus sit, qvod extra obedienciam suorum prelatorum annis plurimis evagaverit, prophanis et ludibriosis se ingesserit exercitiis, qvod de ipsius irregularitate verisimiliter timeatur, aut qvod sacris adeo sit litteris eruditus, qvod non solum pontifici qvinymmo persimplici clerico sufficere qveat, nec tantum religionis apparenter saltem ornatum pretendat, qvod dignus pontificio valeat indicari. Neqve Bergensis Episcopus ipsum apostolico auditorio meo nomine presentandi fuerat commissione vel autoritate suffultus, licet ipsum ,bona intentione egisse non dubitemus, qvi nihil in Corone et Ecclesiarum Norvegie preiudicium generale vel speciale in commissis acceperat. Ideo potuit et debuit ante omnia re integra examinari eius procurationis mandatum, an ad ea erat presentandi sufficiens. Qvamobrem qvia talis provisio contra honorem apostolice sedis gesta est, qve solet in rebus similibus gravissima eqvitate in accuritate procedere, et libertatibus et privilegiis corone mee Norvegie expresse preiudicat, et in malum exemplum vertitur omnium, qvi hominem imparilia ad talem dignitatem habentem merita norunt; et qvod gravius est, qvia in solo hostibus circumsepto decet habere antistites omni suspicione carentes, filialibus precibus V. S. duxi obnixius exorandam, qvatenus non egre ferat, sed paterne moderationis eqvitate sustineat, qvod nulla possibili via ipsum fratrem Paulum sperandum sit ad Holensem Ecclesiam ad qvam dicitur esse provisus, posse admitti: in eo et super precipue, qvod ipsius ecclesie vacantie nulla certitudo efficax habeatur. Eandem P. V. suppliciter obsecrando, qvatenus dicto Episcopo Paulo seu cuiqve alteri in similibus de cetero, precipue in beneficialibus, nisi litterarum mearum cum asscriptionibus, non statim fidem seu credenciam adhibere velitis. Valeat V. S. P.

ad salutare regimen Ecclesie sancte Dei feliciter et longeve, cui me et regna mea filialiter commendo.

Datum Hafnis et cetera.

---

155. 23. August 1458. í Kaupmannahöfn.

Kristján konungr hinn fyrsti ritar kardinálanum de Columpna um Pál förumunk, er vilji komast að biskupsdómi á Hólum. telr hann þar til óhæfan, og biðr hann að koma í veg fyrir það.

Bartholins safn B. Fol. bls. 194—195, skr. c. 1690. Prentað í Scriptores rerum Danicarum VIII, 405.

Ad Cardinalem de Columpna in causa Holensis Ecclesie anno (ↀ cd) lviii. 2(3). Aug.

Christiernus et cetera Reverendissimo in Christo patri et cetera.

Clausis pridem nostris apicibus capellauum nostrum Joachim Trolle P(aternitati) V(estre) obnixius commendavimus. Postea presbiter qvidam attulit Rome die xvii. junii datas P. V. qvas gratanter perlegimus, cum nobis incolumitatis vestre nuncie extiterint. Meminimus P(ater) R(everendissime) alias vobis scripsisse, qvod Reverendo patri Paulo Episcopo Bergensi, qvanqvam varia diversa et contraria Parliamentum regni nostri Norvegie consultaret, tamen pro illis, qvibus ad R. v. p. sinceris necessitudinis nexibus astringimur, precibus vestris duntaxat devicti, favorabiles gratiam et favores impendimus cum effectu; et V. R. P. intuitu ad maiora erimus semper parati. Verum qvod in eo non modicam recepimus displicentiam et res illa animum nostrum acerrime perurgebat, qvod intelleximus prefatum Episcopum qvendam fratrem Predicatorem nostro nomine ad Holensem Ecclesiam in terra nostra Islandie presentasse, et propterea qvod res iniusta gesta sit et periculum gravissimum paritura, tum qvod idem frater qvasi publicanus ab indigenis Regnorum nostrorum ex eo notorie habeatur, qvod per multos annos extra prelatorum et ordinis obedientiam evagando, prophanis et turpibus se piratarum commerciis et exercitiis ingesserit, tum qvia nobis inde apud satrapas nostros et cunctum vulgum reatus infamie et suspicionis accescit, tum qvod

regio nostra illa Islandia cum vadis circumferatur maritimis ex opposito Britannie maioris scilicet Anglie situetur, unde aggressus et impetus ac invasiones sustinet diuturnos, qvare expediat ibidem religiose vite et morum ac exemplarem preesse antistitem, qvi propter continuam regis absentiam insuper patriam ordinet et disponat, ad qvod munus ipse frater neqvit sufficere. Non dubitamus tamen ipsum Episcopum Bergensem licet incaute, bona tamen intentione fecisse, sed egisset consultius contra Anglicum, qvi illam Ecclesiam ambiebat, excepisse, qvia terra illa nostra est mero imperio, nec non a regno Norwegie unqvam secessit. Et qvia nichil nobis est commune cum anglicis, aut qvod Anglico ad Islandicas ecclesias aditus sperari qveat; et summo Pontifici svasisse, qvod superinde litteras et desiderium nostrum et Ecclesie expectasset, sicut idem summus Pontifex nobis per ipsius Episcopi organum publica pollicitatione promisit. Qvamobrem V. R. P. obnixius obsecramus qvatenus per vestram debitam suggestionem avocati illorum religiosorum ambitione, qvi omnes pro libertate angulos qverunt, liberi efficiamus; qvodqve ipse Episcopo Bergensi iniungere velitis, ut de cetero caveat absqve speciali nostro mandato huiusmodi et similia attentare, ac qvod, sicut domino summo Pontifici scribimus, dictum fratrem Paulum a tali promotione retardet et toleret patienter, qvod talem hominem nullatenus aliqvam regni nostri ecclesiam admittere velimus.

Datum in Hafnensi castro die xxiii. mensis Augusti anno et cetera qvinqvagesimo octavo.

---

## 156. 10. Nóvember 1458. i Gufudal.

Kaupmálabréf Eindriða Jónssonar og Ingibjargar Pálsdóttur.

AM. Fasc. XIV, 12, frumritið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú eru þau öll dottin frá nema tvö, og eru bæði brákuð.

Jn nomine domini amen

Var suo felldur kaupmale gior ok stadfestur millum eindrida jonssonar ok ingibiargar palsdottur sem hier segir.

hafde adur nefndur eindride til kaups ok kuonarmundar vid fyr nefnda ingibiorgu palsdottur fioretigi hundruth suo greind ok til skilin sem hier segir ath sira olafur isleiksson gaf opt nefndum eindrida brodursýne sinum tuttugu kugillde frid. lyste ok adur nefndr sira olafur ath hann mætte þessa peninga med rett gefa. hier til gaf sira jon snorrason eindrida brodur sinum tuttugu hundruth j friduirdwm peningum med samþycke faudur sins ok modur. Hier j mot gaf sira helge þorkelsson ingibiorgu palsdottur brodur dottur sinne tuttugu hundruth j jordunne j botne j talknafirde er liggur j laugardals kirkiusokn. gaf þrattnefndur eindride ingibiorgu konu sinne fiordungsgiof ur þeim peningum sem adur greinduzth. hafdi adur greind ingibiorg ath auk þeirra peninga þing sin er uird uoru fyrir xij hundruth. gaf adr greindur eindride j beckiargiof ok morgungiof þau þing sem uirt uoru fyrir atta hundrath. kiore greindur sira helgi ingibiorgu frændkonu (sina) malakonu j garde opt nefndz eindrida. reiknadizth malenn allur med þessum giofunum fimtiger hundrada. ath þessum hiauerundum brullaupsvottum. sira helga þorkelssyne. sira olafe isleikssýne. sira jone snorrasýne. jone bonda asgeirssýne. ellinge þordarsyne. einare geirmundzsyne.

Ok til sannenda hier vm settum uær fyrr nefndir menn vor insigle fyrir þetta kaupmalabref skrifath j gufudal fostudagen næsta fyrir marteinsmesso anno domini ꝏ° cd° quinquagessimo viij.

---

## 157. 16. Nóvember 1458. í Ási í Hegranesi.

GJÖRNINGR þeirra Bjarnar bónda Þorleifssonar og séra Jóns Pálssonar um biskupsdæmi Mattheusar, er kallaði sig biskup á Hólum og krafðist stólsins.

AM. 235. 4to bls. 19. Bréfabók Jóns biskups Vilhjálmssonar í frumriti. Virðist þetta skjal vera með hendi Björns Þorleifssonar sjálfs. AM. Apogr. 3620. Prentaðr í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 610—611.

anno domini. ꝏ°. cd°. l°. uiii.

Suo felldr giorningur for fram j asi j hegranesi fimtudagin næsta fyrir sesceliu messu ath mattheus er sig kallade biscup a holum lofadi med handabande birni bonda lorleifs-

syni[1]) ath hallda allan þan giorning stodugan sem adrgreindr biorn giorde hans uegna vtt af med sira jon palsson officialem heilagrar holakirkiu vm stadin a holum og alt biscupsdæmit. upp a þena sama giorning toku þeir hondum saman fyrnefnder menn biorn og sira jon a(t) so fyrir skildu ath heilug holakirkia og allt holabiscups dæmi þat sem heilaga kirkiu ahrærir skyllde med fri og feligheitum fyrir sier og ollum sinum radum. hier j mot lofade sira jon palsson med samþyki allra dandemanna þeirra er þar voru med honum bade lærdra manna og leikmanna ath ef þat kynni til ath koma at sira olafur ʀognualzson kæmi aptur til jslandz og uæri uigdr biscup til adr greindrar holakirkiu ed(a) hitt ath anar biscup kynni vtt ath koma og kallade sig enn biscup holakirkiu þa lofadi fyr nefndr sira jon suo framt sem hann hefde þar fulla uissu af ath nokur biscup kallade til stadarins a holum ath hann skyllde giora bod birni bonda og settia þar feligan dag i skagafirde med þessu(m) ollum adrgreindum dandimonnum suo ath þeir mætti þa skoda begia biscupana bref og sk(ilr)iki huor þeirra þeim synizt þa betra skial hafa. kynni þat og til ath bera j þessv(m) sama degi ath þeim biscupunum komi eigi saman og uill biscup matteus eigi yfirgefa sin bref og uill þa boda eda stefna biscup olafi eda þeim odrum biscupi sem til kynni ath koma burt af landit og uill sa biscup eigi fara enn biscup matteus vill þa en þa eigi[2]) brutt fara af landinu þa skyllde biscup olafr sitia ad stadnum a holum sem ʀettum biscup bæri og uisitera biscupsdęmit. Єn ef biscup olafr hefdi omogulegra kosnad a stadnum og framar en til ber þa lofade eirek bonde loptzson ath bitala þath stadnum vpp a sina peninga vm næstu tolfmanude vpp fra þessari dagþingan. suo framt sem biscup matteus kynni til ath koma og yrde hans biscupsstollin med rettum logum. kann og suo uerda ath sira olafur fai onguan framgang um kirkiuna en biscup matteus fai enn ny bref upp a hola biscups dęmi af uorum helga fodr pafanum erkibiscupin(um) j nidarosi og samþyki uors naduga herra kongsins þa lofade sira jon palsson med samþycki allra dandemanna þeirra

---

[1]) Svo(!); r.: torleifssyni = Þorleifssyni; [2]) en, hdr.

er þar uoru saman komner ath ueita biscup matteus onga mottstodu suo hann megi eigi na sinum biscups stoli fyrir þeim.

---

158. 24. Nóvember 1458. í Kaupmannahöfn.

»Marcellus episcopus Schalotensis« ritar Píusi páfa II. bréf, einkum um kosning Píusar til páfa og fregnina um það á Norðrlönd, en ekki kemr bréfið að efni Íslandi við.

[Scriptores rerum Danicarum VIII, 408—409 eptir Bartholins safni B. Fol.].

---

159. 1. December 1458. í Kaupmannahöfn.

»Marcellus episcopus Scalotensis« ritar bréf kardinálanum »de Columpna«, er þá var nývalinn til páfa, en ekki kemr efni þess Íslandi við.

[Scriptores rerum Danicarum VIII, 407 eptir Bartholins safni B. Fol.].

---

160. 28. December 1458. á Borg í Vestrhópi.

Hafliði Ívarsson fær Birni Þorleifssyni til fullrar sóknar og eptirkæru alla þá peninga, sem Hafliða höfðu fallið eptir Ívar föður sinn, og Einar Bessason hafði að sér tekið; var þar í jörðin Auðólfsstaðir; skildi Björn sér þessa peninga hálfa til eignar, en hálfa Auðólfsstaði til lausnar.

AM. Fasc. XIV, 11, frumrit á skinni. Innsiglin eru dottin frá.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda brandr sigurdzson. þormodr steindorson. jon þorkelsson. jon einarsson. þorsteinn halldorsson (ok) jon þollagsson quediu guds ok sina kunnigth giorande æ borg j uestrhope fimmtudagin næsta eptir magnvsmessu[1]) þæ lidith uar fra hingat burd uors herra jhesu christi þusund. cccc. fimmtiger ok ætta ær uorum uær j hia sæm ok heyrdum æ ord ok handaband

---

[1]) þ. e. 24. December.

þessara manna biarnar þorlleifsonar af einne allfu enn haflida juarssonar af annare ad suo firir skildu ædr greindr haflide feck fýr nefndum birnne þorlleifssyne til fullrar soknar ok eptirkæru alla þa peninga sem haflida juarssyne hafa fallit til erfdar eptir juar fôdur sinn ok einar bessason tok at sier ok hans erfingiar hafa halldit sidan suo framarliga sem hann matte þat fremzt med laugum giora. Er þar fýst jordin audolfsstader j langadal med odrum þeim peningum sem adr greindr einar bessason tok at sier huar sem þat hefer uerith med þessum skildaga ath opt nefndr biornn skýllde eiga alla peningana halfa huorth sem hann kann at fa med laugum eda sama med sampýcke haflida. skilde biornn sier hallfa jordena audolfsstade til eignar enn halfa til lausnar firir jordena sýdra backa j hoskullzstada kirkiu sokn. Suo ok ei sidr feck haflide juarsson þratt nefndum birne þorlleifsýne allar ælôgur ok ækærur enn halfar til eignar af fyr greindum peningum.

Ok til sanninda hier wm settum vær fýr nefnder menn uor jnnsigli firir þetta bref skrifath fiorda dag jola j sama stad ok ære sem fýr seigir.

---

161. 1458. i Teigi.

Virðingargerð á Teigskirkju í Fljótshlíð, er Mattheus Hólabiskup lét framfara.

JSig. 143. 4to bls. 181, skr. 1607 eptir Hítardalsbók. Sbr. F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 480. Sbr. ennfremr JEsp. Árb. II, 56 og segir hann þar, að Mattheus biskup hafi látizt skömmu fyrir jól. Sbr. Grönl. Hist. Mindesm. III, 182.

Teigur.

Anno domini ꝏ°. cd°.[1]) lviij°.

Virduligur herra og andligur fader mattheus med gudz nád Biskup ad holum og almenneligur vicarius allz Skalholltz Biskupsdæmis do[2]) j sinne riettre visitatione j Teige. var kirkian gior af hanns naverondum prestum fyrir xx^c^. enn bækur fyrir xvj^c^. enn onnur ornamenta kirkiunnar fyrir. iiij^c^.

---

[1]) cc°.(!); [2]) þannig mjög ljóst.

þotte oss su bot sem Erlendur Narfason hafde giort fyrir x^c. a kirkiunne.

---

162. 29. Marts 1459. i Vatnsfirði.

Ólöf hústrú Loptsdóttir selr séra Ólafi Ísleikssyni jörðina Læk í Mýraþingum í Dýrafirði og kvittar fyrir andvirði.

AM. Apogr. 2334 »Epter original fra Holltzkirkiu i Önundarfirde, accuratissimè« (AM.). Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Árni lýsir þeim.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda skule bonde loptzson. jon bondi asgeirsson. önolfr einarsson. halldor hakonarson. magnus arousson. jon kodransson kuediu guds og sina kunnigt giörandi at þar vorum vær j hia saum ok heyrdum æ þa er lidit var fra hingatburd uors herra ihesu christi ᴍ. cd. fimm tiger og niv ær j uatzfirdi j isafirdi fimtudagin j paskauiku at hustru olof loptzdotter feck sira olafi isleikssyni med fullu handabandi iörd er heitir lækr er stendr j myra kirkiu sokn j dyrafirdi med ollum þeim gögnum og gædum sem greindri iördu fylger og fylgt hefer at fornv og nyv og hun var fremz eigandi at ordin. ᴍedkendiz adr nefnd hustru olof firir oss at hun hefdi fulla peninga vppborit firir adr greinda iörd suo henne vel æ nægdi af adr greindum sira olafi isleikssyni. Lofadi opt nefnd hustru olof loptzdotter at suara lagariptingum á adr greindri iördu læk. enn tittnefndr sira olafr isleiksson at hallda til laga.

Og til sanninda hier vm settvm vær fyrr nefnder menn vor jnnsigli firir þetta bref skrifat j sama stad degi ok æri sem fyrr seger.

---

163. 23. April 1459. i Hjarðardal neðra.

Haldór Sveinsson handleggr Þórkatli Einarssyni þann part úr jörðunni fremra Hjarðardal í Dýrafirði, er Páll bróðir hans handlagði honum, og þar til málnytukúgilldi og hundrað ófrítt, gegn hálfu átta hundraði í jörðunni Tungumúla á Barðaströnd.

AM. Fasc. XIV, 18, frumritið á skinni. Innsiglin eru öll dottin frá.

Þath giorum vær jon sigmundzson. hromundur magnusson. jndride hakonarson godvm monnum kunnigt med þesso worv opnu brefi ath wær worum hia savm ok heÿrdum æ ord ok handaband. af einne halfu þorkels einarssonar. af annare halldors sveinssonar. ath svo firir skildv. at fÿrnefndur halldor handlagde adr nefndvm þorkatli jordena halfañ fremra hiardardal j dÿrafirde er liggur j mÿra kirkiusokn. þann sama jardar part er pall broder hans handlagdi honum til fullrar eignar med aullvm þeim gaugnum ok gædum er greindri jȯrdu fÿlger ok fÿlgt hefer ath fornu ok nÿv ok tíjttnefndr halldor vard fremzt eigande ath. tilgreindum landamerkium fram ath skolladalsœ ok heim ath hiardardalslæk. ok þar til lagde þrattnefndr halldor malnÿtu kugillde ok hundrad ofritt. skyllde opt nefndr halldor svara lagaʀiptingum a greindri iordv en fÿrgreindr þorkell hallda til laga. hier j mot handlagde opt nefndr þorkell þratt nefndum halldori halft atta hundrad j iordunne tungumula a bardastraund.

Ok til sanninda hier vm settvm vær fÿrgreinder menn vor incigli firir þetta kaupbref er giort war j nedra hiardardal j dÿrafirde jonsmesso hola byskups. þa er lidid var fra hingadburd vors herra ihesu christi þusund cccc l ok niu ar.

---

164. **14. Mai 1459.** **á Þverá.**

Kaupbréf Þorkels prests Guðbjartssonar um jörðina í Hólum í Reykjadal, og eru landamerki jarðarinnar tilgreind.

MSteph. 27. 4to bls. 63, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730 eptir transskripti Haldórs Guðmundssonar, Þorgríms Ólafssonar og Jóns Pétrssonar gerðu eptir frumritinu, á Staðarhóli í Saurbæjarsveit 7. Aug. 1637.

Copia af landamerkiabrefe Hola i Rejkiadal.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur hejra senda Jon Ormsson. Magnus Gudbrandsson. Arnþor Biornsson og Hallur Runolfsson kuediu gudz og sijna kunnugt giorande ad uier vorum þar i hia saum̃ og hejrdum a handaband þorkels gudbiartssonar og Jons þorkelssonar med so firir skilldu ad Jon sellde s(ira) þorkele gudbiartssyne jordena j Holum i Rejkia-

dal er stendur i Einarstada kirkiusokn med samþicke konu sinnar gudrunar Biornsdottur med ollum þeim gognum og giædum er grejndre jordu hefur filgt ad fornu og nyu og hann uard fremst eigande ad. til grejnd þesse jardareign. millum gardz þess er geingur firir sunnann Karagröf og annars gardz sem geingur firir utan Holagerde er bader ganga uestur i Kuijndissdalsä. og austur i Rejkiadalsä og alla landeign millum þessara um̄merkia.

Hier i mot gaf s(ira) þorkell xv malnitu kugillde. vc frijduird og v uxa gamla og suare a ij ärum og leggia xij alner a huort hundrad medann jord stendur.

Skillde s(ira) þorkell hallda greindre jordu til laga. enn nefndur Jon suara lagarifftingum.

Og til sannenda hier um̄ setium uier firrnefnder menn vor innsigle firir þetta bref skrifad a þuerä i laxardal þann annan dag i huijtadogum Anno ꝏ. cccc. qvinqvagesimo nono.

---

## 165. 14. Mai 1459. á Þverá.

Jón Þorkelsson vottar, að hann hafi selt Þorkeli presti Guðbjartssyni jörðina í Hólum í Reykjadal, og telr hann landamerki.

MSteph. 27. 4to bls. 63—64, Svartskinna, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1730 eptir transskripti þriggja manna gerðu á Staðarhóli í Saurbæjarsveit 7. Aug. 1637.

Eg Jon Þorkelsson medkennest med þessu minu opnu brefe ad eg hefe sellt til fullrar eignar s(ira) þorkele gudbiartssyne jordena i Holum i Rejkiadal med ollum gognum og giædum sem greindre jordu hefur filgt ad fornu og nyu og eg vard fremst eigande ad med fullu upplage og samþicke gudrunar Biornsdottur konu minnar med þessum um̄merkium. ad garde þeim er geingur ur Rejkiadalzä firir sannann Karagrof og uestur i Kuijndissdalzä og ad odrum̄ garde ut fra Holum er geingur ur Rejkiadalsä firir utan Holagerde og uestur i Kuijndissdalsä. liggur þesse firrnefnd jord i Einarsstadaþingum.

Og til sannenda hier um set eg firrnefndur Jon mitt innsigle firir þetta bref. skrifad a þuera i laxardal Manudagenn

næstann effter huijtasunnu Anno domini m. cccc. qvinqvagesimo nono.

---

166. 30. Mai 1459. á Eyri í Tálknafirði.

Greipr prestr Sigurðsson handleggr Þórði Sigurðssyni bróður sínum til fullrar eignar sinn þriðjung í jörðunni Haga á Barðaströnd, en skildi sér að ráða lausafé sínu.

AM. Apogr. 1109 eptir frumriti frá Haga. Árni lýsir innsiglum, en fjögur hin síðustu voru dottin frá bréfinu.

Þath giorum vær þorsteinn þorarinsson. snorri biarnason. ion marteinsson. prestar. grimur guttormsson. sygurdr halfdanarson. ion þordarson leikmenn godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi ath vær vorum j hia sam ok heyrdum á ord og handaband sira greips sygurdzsonar ok þordar sygurdzsonar brodr hans ad adr nefndr sira greipur handlagdi fyrrnefndum þordi brodr sinum halfann sitt þridiung j iordunni haga á bardastraund til fullrar eignar vndan sier ok sinum erfingium ett haunum til ævenligrar eignar ok hans erfingium med aullum þeim gaugnum ok gædum sem greindri iordu fylger ok fylgt hefer ath fornu ok nyiu ok hann vard freimz eigandi ath epter fodr sitt sygurd þordarson ett opt nefndr sira greipr skildi sier ath hann skylldi mega rada þui lausagozi sem hann ætti eda yrdi eigandi ath huort hann villdi gefa kirkium eda sinum frændum eda fatækum monnum haunum ad skadlausu.

Ok til sannjinda hier vm settum vær fyrr nefnder menn vor insigli fyrir þetta bref skrifat á eyri j talknafirdi j laugardals kirkiusokn midvikudaginn fyrir messudag petronille ok[1]) virginis þa er lidit var fra hingatburd vors herra ihesu christi þusund cccc fimtiger ok niu ær.

---

167. 19. Juni 1459. á Seylu.

Brandr Jónsson lögmaðr og umboðsmaðr Torfa hirðstjóra Arasonar kvittar Guðna Jónsson kongdómsins vegna fyrir þrettán mörkum í þegngildi eptir Guðmund Magnússon, er Guðni hafði vegið.

[1]) Svo.

Kriegers safn 2. 4to bls. 205—206 með hendi Styrs þorvaldssonar c. 1700.

Þad giöri eg Brandur Jonsson lögmadur nordan og vestan á Jslandi og um̃bodzman Torfa Arasonar hirdstiora i sögdu takmarki godum monnum viturlegt med þessu mijnu opnu brefi. ad eg hefi uppborid og uttekid svo mier vel nægir kongdomsins vegna. þær þrettan merkur j þegngilldi. sem Gudni Jonsson vard skylldugur kongdominum og hans Hirdstiora fyrir þa sök er hann helslo Gudmund magnusson oforsyniu. og þvi giörer eg greindañ Gudna Jonsson ölldungis kvittañ og ákiærulausan um̃ ádurnefndar þrettan merkur og þegngilldi kongdomsins vegna og hans Hyrdstiora Torfa Arasonar. Og til sanninda hier um setti eg mitt Jnnsigli fyrir þetta bref. Skrifad á Seylu j Skagafijrde þridiudaginn næsta fyrir Jonsmesso baptistæ Anno Domini ꝏ. cd. L. nono.

---

168. 22. Juni 1459. á Helgafelli.

Kvittunarbréf um vígsbætr eptir Guðmund Magnússon, er Guðni Jónsson hafði vegið, og griðasölubréf Guðna til handa af hendi Jóns bróður Guðmundar fyrir sig og alla frændur, vini og venzlamenn hins vegna, alda og óborna.

Kriegers safn 2. 4to bls. 212—216 með hendi Styrs þorvaldssonar c. 1700.

Um̃ Bætur eptir Gudmund Magnusson.

Þeim godum monnum sem þetta bref siá edur heyra senda Einar Ormsson. Narfi Þorvalldsson. Jon Audunarson. Hallvardur Hallvardsson. Sigurdur Þordarson. Gudmundur Einarsson. kvediu Guds og sijna kunnigt giörandi. þa er lidid var frá hingadburd vors Herra Jesu christi ꝏ. cccc. L. og ix. ár. á föstudaginn næstan fyrir Jonsmesso Baptiste á Helgafelli i Helgafellzsveit. vorum vær i hiá. säum og heyrdum á ord þeirra og Handaband Lopts Ormssonar af eirni álfu. enn Jons Magnussonar af annari. ath svo fyrir skildu. ad ádurnefndur Loptur luckti fyrnefndum Joni Magnussyni j um̃bodi Jons Asgeijrssonar svo miclar vijgsbætur eptir Gudmund Magnusson brodur ádur-

nefnds Jons. er Gudni Jonsson hefur ofyrirsyniu i hel sleigid. sem hier seiger.

J fyrstu iiij. mãlnytu kviilldi og þar til vj^c. frijdvird. sijdañ ad næstum tveimur tolf manudum̃ hier eptir skylldu gialldast iiij. mãlnytu kviilldi. ij^c. i varningi. ij^c. j vadmãlum og ij. kugilldi frijdvird. og j þvi sama handabandi gaf tijttnefndur Jon Magnusson fyrnefndañ Gudna Jonsson ȯlldungis kvittañ og ãkiærulausañ um̃ ãdurgreindar vijgsbætur og manslag fyrir sier og ȯllum Erfingium Gudmundar brodur sijns og eptirkomendum.

J annare grein i sama stad og deigi toku þeir hȯndum saman Loptur Ormsson og Jon Magnusson oz fyrnefndum monnum nærverundum. var þad skilid þã undir þeirra handabandi. ad Jon Magnusson selldi Gudna Jonssyni er ofyrirsyniu hafdi i hel sleigid Gudmund Magnusson brodur Jons Magnussonar. riettar trygdir. grid og fullañ frid fyrir sier og sijnum. Erfingium Gudmundar Magnussonar og frændum. vinum og venslamonnum. ȯldum og obornum. svo ad Gudni Jonsson skylldi hiedañ af vera j fullum fridi og trygdum vid alla fyrnefnda menn. hvar hann kynne þã ad finna. Enn þeir fullir gridnijdingar sem ã geingi ãdurgreind grid fyrir ãdurnefndt mannslag. Tok Loptur Ormsson þessa gridasȯlu af Joni Magnussyni eptir ȯllum þeim ordum sem Lȯgbok vottar. ad j gridasȯlu ã ad koma eptir lȯgum. ad ȯllu tilskildu enn ȯngvo frã. Og til sanninda hier um̃ settum vær fyrnefndir menn vor Jnsigli fyrir þetta vijgsbotar bref. gridasȯlu og kvittunar. er skrifad var ã Helgafelli fȯstudaginn næsta fyrir festum s(ancti) Johannis baptiste[1]) ã sama ãri sem fyr seigir.

---

**169.** **26. Juni 1459.** **á Helgafelli.**

Dómr Daða Arasonar sýslumanns milli Hítarár og Skraumu og tólf manna um víglýsing Guðna Jónssonar, er vegið hafði Guðmund Magnússon.

Kriegers safn 2. 4to bls. 210—212 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

---

[1]) biskupi(!) hdr.

Domur um̄ vijgsmäl Gudna Jonssonar.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sendir Einar Ormsson. Jon Jonzson. Jon Audunarson. Magnus Þorolfzson. Þordur Þorleifsson. Gam̄li Þorleifsson. Hallur Kietilsson. Gudmundur Einarsson. Snorri Halldorsson. Jon Þorleifsson. Gissur Halldorsson og Jon Jsleifsson. kvediu Guds og sijna kunnigt giörandi. þä er lidid var frä hingadburd vors Herra Jesu Christi ꝏ. cccc. L. og ix. är. vorum vær j dom nefndir af ærligum manni Dada Arasyni syslumanni j millum Hijtarär og Skraumu. ad dæma um þä vijglysing er Gudni Jonsson lysti fyrir þad mannslag er hann ofyrirsyniu j helslo Gudmund Magnusson. Var svarid fyrir ädurgreindum kongs um̄bodzmanne og fyrgreindum domsmönnum (vm) nättstad og vijglysing. Þvi dæmdum vær fyrnefndir menn ädurgreinda vijglysing rietta og logliga. eptir þvi sem lögbok utvijsar. Sampyckti og þrättnefndur Dadi Arason kongs um̄bodzmadur þennan̄ dom logligan̄ med oss. Og til sanninda hier um̄. settum vær fyrnefndir menn vor Jnsigli fyrir þetta domsbref. skrifad å Helgafelli i Helgafellzsveit þridiudaginn næstan̄ fyrir Pietursmesso og Päls.

---

## 170. 28. Juni 1459. i Björgvin.

Olafr Þrándarson erkibiskup í Þrándheimi býðr kennidómінum, höfðingjum og öllum almúga á Íslandi að viðrkenna Matthæus hvorki sem biskup í Skálholti né á Hólum, því að hann hafi ekki verið kosinn að lögum, en sé meinsærismaðr — lét sverja Gottskálk biskup dauðan laungu fyrri en hann lézt — og bannsunginn guðníðingr; hinsvegar býðr erkibiskup mönnum að styðja að því, að Ólafr Rögnvaldsson nái Hólastól sem réttmætr biskup.

Frumrit þessa bréfs var fyrrum í hinu íslenzka frumbréfasafni Árna Magnússonar XIV, 16, en er nú komið þaðan og hefir verið flutt í hið norska frumritasafn hans XVII, 1b, og eptir því hafa Norðmenn prentað bréfið í Fornbréfasafni sínu IV, Nr. 821. Áðr er bréfið prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. IV, 175—176.

bref vm biskup matthevs.

Wy olaf med guds miskund erkebiscop i Nideroos ok paweligx setis legatus Helsom allom prelatom. prestom. wel-

bornom monnom. Rikismonnom ok meniga almoga sem byggia ok boo j islande kerliga med gud ok waara andeliga bletzan. kungørom med tesso waaro brefue at saker tess at oss bør wita ok ranzaka naudsyn ok keromaal alla biscopdemana i norge ta wiliom wi ok wita islande Bezsta epter ty sem makt aligger ok wi witom ok hørt hafwom at biscop matteus wil med ofweruald ok makt weera biscop j hola eder skalholtz biscopsdemom vm han kunne tat afstad koma sem wi witom med retta at tat ma engaledis wera fyri tan skuld at han hefuer ey waara samtykt eder waara kanika i niderooss sem hafua rettogheit friheit ok jus eligendi episcopos til doomkirkiar i islande ok swa fyri te sak at han er ein meineidare ty han loth sweria biscop gotskalk a holom gud hans saal hafue daudan margom aarom aader en han døde i mote kirkionis lagom ok rette. ok tar til er han ein apostata i mote sinne reglo ok i forbode ok banne. fyr tat ok annat er han ey werdoger nokot wald eder jngeld hafua i waaro ok helgre kirkio forbodi fyr sinne olydna ok vndirhyggio wid sina formen ok helgre kirkio. Hwar fyri raadom wi ider ok biodom beede lerdom ok leikom vnder heste lydno ok serdelis waars nadugx herra konung Cristierns vmbodzmen fyrnempdom biscop matteo at seeta eder i mote helgre kirkio rette ok waaro forbodi til at styrkia. ok er tat sua wordit sem gud forbiode at fyrnempder biscop matteus hefwer gripit eder takit holastad eder nokro adro peninga sem helgre kirkio tilhøra ok hennis forman. ta skulin j tilhielpa med idre makt idan forman ok electum herre olaf ragwaldzsson tat apter taka sem han hefuer med eingan reet ofwerueliga gripit ok reent ee hwar han ok j kunnen tat vp at spøria. Er ok nokor swo dierfwir leiker eder lerder sem wilia fyrnempdan biscop matteum styrkia ok hielpa jmote tesso waaro skipan ok bode ta skulo te hafua vwenata af oss ok lagligar aminningiar til retledingar. ok forbod ok ban med tesso waaro brefue fyri sina triozsko ok olydne epter ty sem kirkione lag vtuisa. n te sem kirkionis reet ok waaro skipan godwilleliga gøra ok fulfylgia styrkiande ok hielpande fyrnempdan electum herre olaf i sinom erindom skulo hafua tak ok ofwsa af oss vm idur erinde kunna fyri oss at koma. ok til saninde her vm latom wi hengia waart jncigle fyr tetta bref er giort war a

waar gard i bergen in vigilia sanctorum apostolorum petri et pauli anno domini Millesimo quadringentesimo quinquagesimo nono.

---

171. 30. Juni 1459. á Öxarárþingi.

Úrskurðr Brands lögmanns Jónssonar, að Guðni Jónsson, er ófyrirsynju hafði í hel slegið Guðmund Magnússon, sé ferjandi til Noregs, og skuli sem bráðast fara á konungs fund að fá landsvist sína.

Kriegers safn 2. 4to bls. 206—210 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref siä edur heyra. sendir[1]) Brandur Jonsson lôgman nordañ og vestañ a Jslandi kvediu Guds ok sijna. kunnigt giôrandi ad þä er lidid var frä hingadburd vors Herra Jesu Christi M. cccc. L. og ix. är laugardaginn næstañ eptir Pietursmesso i lôgriettu. ä almennilegu Öxarärþingi. kom fyrir mic Lofftur Ormsson j um̄bodi Jons Asgeirssonar er þä ätti Lögsvar ad veita vegna Gudnasonar sijns. krafdi mic og beiddi laga urskurdar uppä. hvert Gudni Jonsson. sem ofyrirsyniu j helslo Gudmund Magnusson væri feriandi fram̄ til Norex edur eij. Nu af þvi ad greindur Loptur bijrti fyrir mier og odrum godum monnom opin bref undir godra manna Jnsiglum̄ svo latandi. ad su vijglysing sem Gudni Jonsson hafdi lyst sier ä hendur. um vijg Gudmundar Magnussonar var lôgleg dæmd[2]) og bætur golldnar og i Borgan geingid af fullvedia manni. ad þær skylldu gialldast eptir skilmälum. og konginum lucktur[3]) sinn þegn og Grid fyrir Erfingium og ôllum frændum hins vegna. Og nu sakir þess ad Riettarbot Hakonar kongs er svo latandi. ad alla þä vandrædamenn sem ä kyrkiunnar naadir komast skal sektalaust flytia[4]) mega fram̄ til norex. eptir Rädi Lôgmans. Þvi ad tilkôlludum þeim bestu monnum er hier nu voru og mier samþyckiundum sagda eg i Gudz nafni Amen. med fullum laga urskurdi ädurnefndañ Gudna Jonsson feriandi fram̄ til norex j fielegum deijgi bædi kongsins vegna. og Erfingia hins dauda.

---

[1]) senda, hdr.; [2]) dæmdt, hdr.; [3]) lucktar, hdr.; [4]) flytiast, hdr.

og þar i kirkiu og dagþingi sig þadañ ā mijns herra kongsins nād. ad fā sijna landsvist fyrir adurgreindt vijgsmāl Gudmundar magnussonar. hveria vægd edur myskun. sem minn herra kongurinn vill þar um̄ ā hans māli giōra. og fari þad hradasta sem honum kann þad mōgulegt vera. Og til sannінda hier um̄. setta eg mitt Jnsigli fyrir þetta urskurdarbref. Skrifad i sama stad. dag og āri sem fyr seigir.

---

172. 2. Juli 1459. á þingvelli.

Alþingisdómr tólf manna útnefndr af Birni Þorleifssyni hirðstjóra sunnan og austan á Íslandi, að Teitr Gunnlaugsson sé skylldr að hylla Kristján konung hinn fyrsta, en laus við Eirík konung (af Pommern).

AM. Fasc. XIV, 23, transsskript á skinni frá 2. Marts 1479. Prentað í Safni II, 177—178.

Domur teitz gunlaugssonar[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra senda jon asgeirsson. þorleikvr þorkelsson. oli oddzson. ellendr brandzson. bergur oddzson. brandr sygvrdzson. þordr audunarson. [filipvs sygurdzson[2]) jon narfason. biorgolfr oddz(son). arnor steeinþorson ok aurnolfur eÿiolfsson [godum monnum uiturligt med þessu voro brefi[3]) þa lidit uar fra hingathburd vors herra ihesu christi. ꝺ. cccc fimtigir ok niv ār æ þinguelle æ þingstad rettvm manadagin næsta epter petvrs ꝺesso ok pals vm sumarit vorum vær til nefndir af ærligum manne birne þorleifsyne hirdstiora sunnan ok austan æ jslandi yfer at lita ok invirdvliga at skoda wm þann ꝺ̄skilnad er teitr gvnlavgson hafdi haft moti kong cristiern ok fÿr nefndr biorn sagdizt heÿrt hafa kongin sialfan ser suo sagt hafa ath fyr greindr teitur hefdi halldit j mote sig langan tima ath anara manna sogn ok halldit annan kong en sig.

Nu sakir þes ath þrat nefndr teitur lyste þvi fyrir oss fÿr-

---

[1]) stendr aptan á transsscripto með gamalli hendi; [2]) frá [ nafnið á efstu spássíu með tilvísunarmerki; [3]) þannig. Að réttu lagi ætti hér að standa: »kveðju guðs ok sína«.

greindum monnum ok sagdizt optsinnis lyst hafa bæde j log-rettu ok annarsstadar ath hann villdi þan kong hallda ok alla hlydni veita sem rettur noregs kongr uære med hveriv nafne sem hann uæri hiñs ok anars ath vær savm handaband fyr nefndra manna biarnar ok teiz ath teitur lofadi hafa þat ok hallda sem uær fyrnefndir menn giordvm logliga ok ɑ̃sattir yrd-um þui giordum vær fyrnefndir menn ok samþykkir vrdum med fullum laga giorninge teit gvnlavgsson skylldvgan ath hallda kong kristiern fyrir sinn rettan noregx kong ok alla hlydne ath ueita ok honum hollr ok trur uera j allri sinne þionostu en ovittan þo hann geingi fra kong eirek.

ok ath þesare vorre giord upp sagdre lofadi teitur birnne þorleifssyne med handabandi (ath) hafa ok hallda stodvga þesa uora giord.

Ok til saninda hier vm settum uær fyr nefndir menn uorr innsigli fyrir þetta bref skrifat j sama stad deigi ok are sem fyr seiger.

---

## 173. 9. Juli 1459 á Húsafelli.

Kvittunarbréf Bjǫrns Þorleifssonar hirðstjóra til Teits Gunnlaugssonar, um sakir hans við Kristján konung hinn fyrsta.

AM. Fasc. XIV, 23, transskript á skinni frá 2. Marts 1479. Prentað í Safni II, 178.

Þath giore eg biorn þorleifson hirdstiore sunan ok austan ɑ̃ jslandi godvm monnum kvnnigt med þessv minv brefe ath wid teitvr gunlavgsson haufvm nv yfer eins oʀdith logrettu-monnum nær verondvm ok morgvm avdrum godvm monnum ɑ̃ alþingi at hann lofadi mic med handabandi ath hallda ok hafa ok hylla worn nadvg herra kong kristiern fyrir sinn rettan kong ok honum hollvr ok trur uera eptir þui sem rett-um þegni ber ath uera sinvm rettvm kongi bædi leyniliga ok oppinberliga j allri sinne hlydni ok þionozttv.

Sva ei sidr lysti fyr nefndr teitur fyrir mier ok audrvm dandi monnum ath hann hefdi alldre sagt þes nei ath hallda ei þann sinn retan kong sem hann væri rett komin til rikis j norege med hveriv nafne sem hann væri. þvi gefur eg adur

greindur biorn þorleifssoñ fẏr greindañ teitt gvnnlaugssoñ aulldungis kvittañ ok ækærulausañ fẏrir mer ok aullum minnvm logligum epterkomenndum af aullvm þeim sektum stærum ok smærum sem hann uard brottligur[1]) uid kongin epter þui brefi sem minn nadvg herra kong kristiern gaf mig uth hans vegña þath fysta hann uilldi til hans nada snuazt. En hverr avdru visi uill giora ath briota bod edr bref mins herra kongsins suari þui vm liku fẏrir sem login landzins ut visa.

Ok til saninda hier um setta eg mitt insigli fẏrir þetta bref skrifad aᷓ hvsafelli i borgarfirde manadagin næsta epter translacio. Sancte martini. Anno domini ↀ° cd°. l°. nono.

---

174. 23. Juli 1459. i Hraungerði.
14. Nóvember 1459. i Ási.

Dómr tólf manna útnefndr af Erlendi Brandssyni, í löglegu umboði Bjarnar Þorleifssonar sýslumanns í Árnessþingi, um ákæru Erlends til Nikulásar Jónssonar, að hann hafi slegið og sært sig í þingreið (Hraungerðisdómr).

Gl. kgl. saml. 1159. Fol. bls. 727—728, skr. c. 1640. IBfél. 315B. 4to bls. 35—36, skr. c. 1670. IBfél. 125B. 4to nr. 222 skr. c. 1680 (brot). IBfél. 205. 4to nýleg afskript. Af þessum dómi eru til fjölmargar pappírskriptir, en eingar eldri en frá 17. öld.

Domur vm Hauffudhøgg. Lemstrarsār og aunnur Hôgg j þijngreid[2]) 1459.

Aullum mônnum sem þetta breff siā edur heyra. senda Jon Kolbeinsson. Sigurdur[3]) Jonsson. Arnor[4]) Steinþorsson. Jon Asbiarnarson. Magnus Asbiarnarson[5]). [Bryniolffur Olāffsson[6]). Jon Hauskulldsson[7]). Asbiôrn Siguatsson. Halluardur Sigfusson[8]). Gunnar Erlendsson. Gijsle Einarsson[9]) og Pāll Andresson kuediu Guds og sina[10]). kunnugt giôrandi. ad[11]) Anno domini[12]) 1459.

---

[1]) þetta orð er utanmáls; [2]) þingferð 315; [3]) Sugurdur 315, 125; [4]) Arni(!) 315; [5]) 1159; hin: Þorláksson; [6]) [Brynjólfr Jónsson 315; Ingimundur Brynjólfsson 125; [7]) Hauksson 315; [8]) 125; hin: Fúsason; [9]) 205, 1159; hin: Ingjaldsson; [10]) vora 1159; [11]) sl. 1159; [12]) sl. 1159.

mänudaginn næstann epter þorläksmessu ä[1]) Hraungerdi [i Aarnesþijnge[2]) ä[3]) þijngstad riettum. vorum vier i dom neffnder aff [Erligum manni[4]) Ellendi Brandssyni. er þä haffdi [fullt og[5]) lögligt vmbod aff birne þolleifssyni er þä var [Lögmann fyrer sunnan og austan ä[6]) Jslande. [og syslumadur yffer Arnessyslu[7]). ad dæma i millum Ellends Brandssonar og Nikuläsar Jonssonar.

J fyrstu grein kiærdi Erlendur thil Nikuläsar. ad hann heffdi sleigid hann v. höffudhögg[8]) med vopni sijnu suo hann fieck [lemstrar saar[9]) aff hueriu höggi. þui dæmdum vier Erlendi .ij. merkur ä hueriu höggi þui. er Nikuläs afbatar ecki med Eidi. og .ix. merkur i tuenn fullrietti. er[10]) hann var sleginn i þijngreid. Enn kongi .xiij. merkur.

J annari grein kiærde Erlendur thil ädurgreinds Nikulasar. ad hann heffdi særtt hann .iij. saarum. þui dæmdum vier ädurgreindum Erlendi hundrad ä hueriu saare. og .ix. merkur i tuau fullrietti. er hann var [sleginn og[11]) særdur i þijngreid. og kongi .xiij. merckur. eff ädur greindur Nichuläs afbatar ecki [sitt mäl[12]) med Eidi.

J þridiu grein kiærdi tijttneffndur Ellendur thil ädur greinds Nicholäsar. ad hann heffdi ridid eptter honum. og sleigid sig þä [enn ad nyiu[13]) .xv. högg med vopni sijnu. suo hann [vard[14]) þar aff blaar og blodugur.

var og nikuläs þä logliga steffndur[15]) og kom ecki.

þui dæmum vier tuær merckur ä hueriu höggi. er hann slo hann [med vopni sijnu[16]) i [riettri þijngreid[17]) og ei er afbatad innan Mänadar ad heyrdum domenum og .ix. merckur i tuau fullrietti og kongi .xiij. merkur.

Skal þrättneffndur Nichuläs giallda og greida þessa haalffa peninga heima ad Hraungierdi [innan mänadar[18]) ad heyrdum dominum. Enn alla ad næstum fardögum.

Og thil sannenda hier um setium vier fyrrneffnder Doms-

---

1-3) [b. v. 1159; 4) [sl. 315; 5) [sl. 1159; 6) [hirðstjóri fyrir s. og a. á 315; hirðstjóri yfir 125; 7) [1159; hin: og sm. yfir sýslunni í Árnesi; 8) högg 315, 125; 9) [1159; hin: lemstur; 10) en 315; 11) [sl. 1159; 12) [1159, 205; sl. 315; 13) [sl. 315; 14) var 1159; [væri 315; 15) fyrir stefndur, sum hdrr.; 16) [sl. 1159; 17) [þijngreid rettre 1159; 18) [sl. 1159.

menn vor Jnncigle fyrer þetta domsbreff skriffad i Ase i Holltamannahrepp Miduikudaginn næstan epter Marteinsmessu Anno ut supra.

---

175. 26. August 1459. i Björgvin.

TESTAMENTISBRÉF Torfa riddara Arasonar.

IBfél. 67. 4to, Iclis, með hendi séra Eyjólfs Jónssonar á Völlum í Svarfaðardal (d. 1745), og er hér tvívegis: *a*, bl. 100, og *b*, bl. 44—45. Bréfið er prentað í Sýslumannaæfum I, 38—41 með orðamun; textinn þar er hér kallaðr neðanmáls *c*, en orðamunrinn *d*. Í safni Magnúsar konferenzráðs Stephensens 60. 4to bls. 13 er svo látandi »grein or Testamenti Torfa Arasonar« einnig með hendi séra Eyjólfs á Völlum: »1459. sunnudag nestan epter Bartholomæi Messo giordi Torfi Arason Testament sitt i Beorgvin i Noregi. þar segiz hann gefa domkirkiunni (i Biorgvin) hælfan spýting vadmæls og vor fru kirkio (þar i sama stad) hælfan spýting vadmæls (en spýtingr er v vodir, ait glossator in margine. — Eigi er vist hvert Torfi do þat sama ar edr eigi)«. Torfi mun einmitt hafa dáið þetta ár.

Testamentisbref Torfa Arasonar.

In nomine Domini Amen.

Sacir þess at engi daudligr madur ma sier nockurn øruggleik setia um leingd sinna lifdaga. þui[1]) þui giori ec Torfi Arason. heill at samvitsco en nockut krankr i likama. so fallit mitt Testamentum fyrir minni sal sem hier epter scrifat star.

In primis at ec gef mic allan oc mina sal gudi i valld oc hans blezadri modr jomfru sanctæ Mariæ oc ollum guds heilogum monnum.

hier med kys ec minum molldligum[2]) likama legstad frammi fyrir Sancte Olæfi[3]) i kirkiunni [ut til bręddra[4]) j Biorgvin. gefandi þui sama clastri mier til bęnahallds fyrir minni sal eina hleckiafesti oc pansara. hatt oc kraga. skiolld oc jukko. oc einn raudan stakk[5]) med skinn. oc .ij. tunnor þyskt øl. stykki mallt[6]). stycki miol[7]). øllum[8]) Messobręddrum einn[9]) blaan stakk ok bruna kæpo med silfrspennum[10]). ok leikbręddrum .xx. alnir vadmals. [en smæbredrum .vj. alnir vadmæls[11]).

---

[1]) *b*; þá, hin; [2]) molldugligum, *b*; [3]) olaaf *b*; [4]) [utbredra, *b*; [5]) stút, *c*; [6]) mallts, *a*, *c*; [7]) miðls, *c*; [8]) minum, b. v., *c*; [9]) sl. *c*; [10]) silfrspennu, *c*; [11]) [sl. *a*, *c*.

item til domkirkiunnar hælfan spyting vadmæls.
[item til vor fru kirkiu hælfan spyting vadmæls[1]).
item til Sancte Olafs kirkio stykki mallts.
item til Sancte Katrinar kirkio tunno þyskt ol.
item stykki mallts til Nunnosetrs oc eina tunno miðþ.
item til Krosskirkio eina tunno þyskt ôl.
item eitt par brunar hosor þeim sem grofina grefr[2]).
[item brodr Marteini eina blæ treyu[3]).
item reidusveinar eina rauda hetto.
item Stephani eina grena hetto.
item yngiridi vij alner [blackt lerept[4]).
item ollum kanukum stycki mallts ok eina tunno þydskt ol.
item Apostola kirkio stycki mallts[5]).
item þeim sem [mier giorir[6]) mina reidu[7]) eina silfrskal.
item steikaranum i klaustrit. xij. alnir vadmals.
item hans dreng eina rauda hetto.

item Evert Surker eina tunno malvasi[8]). oc eina silfrskeider[9]) vegr .vj.[10]) lod.

item [Erich Olæfsson[11]) seng med akledi oc linlôcum oc þar med eitt armbrysti nitt oc pansara oc hatt.

item Jon Biornsson[12]) stakk oc hetto oc eitt armbrysti.

item Gottskalc eitt nitt armbrysti oc eina rauda kapo med spennum.

item er eg skylldigr Meistara Gert[13]) oc hans stallbrodr. ij. alner lerepts.

item er ec skylldigr til bruggunar[14]) fyrir. ij. pund humla ok eitt tog.

item [Eyulfr oc Jon Hallason[15]) stykki miol oc eina tunno þydskt ôl.

item biskup[16]) Andreas eitt stykki. eigr hann sialfr eina tunno þydskt ôl i scipit.

item Vermundi. xx. gyllini j vôro. ef hann verdr heill af[17]) sinum krankleika[18]).

---

[1]) [sl. *a*, *c*; [2]) rífr *a*, *c*; [3]) [sl. *a*, *c*; [4]) [blaklerept, *a*; [5]) mallt, *a*; [6]) [grôf, *a*, *d*; [7]) reida, *b*, *d*; [8]) malvase, *c*; malvisi, *a*; [9]) sem, *b*; [10]) sex, *b*, *c*; [11]) [Eyrik Olaafss., *b*; Eirik Ólafsson, *c*; Eiríki Ólafssyni, *d*; [12]) Jóni Björnssyni, *b*, *d*; [13]) Gel, *a*(!); [14]) bryggiunnar, *a*, *c*; [15]) [Eyulfi ok Jon Hallasyni *b*, *d*; Hallsson, *c*; [16]) biskupi, *c*; [17]) þessum, b. v. *d*; [18]) kraankleik, *b*.

item sira þormodi[1]) eitt[2]) armbrysti med øllum reidscap. item er ec scylldigr herra Olæf Røgnvaldsson[3]) .ij. tunnor þydsct øl.

item kunngiøri ec. at ec þykiunst eingis[4]) [med ollu[5]) scylldigr vera minum herra konungi fyrir þann kostnat skulld[6]) er ec [hefur haft fyrir[7]) hans Nad.

item scal Gottskalk oc [Erich Olæfsson[8]) afhenda ok ut gefa minna vegna alla þessa fyrskrifada[9]) peninga fyrir mina sculld. en Evert Surker[10]) og þeir kaupmenn sem ec hefir keypt scipit ut af taci þat halft igien. þui þat hef eg eigi betalat. en vilie þeir hafa þat allt igien þa gefi þeir mic[11]) mina peninga igien. sem er .ij$_c$. gyllini.

item er Henrik Grot[12]) mier scylldigr .xix. gyllini [at kaupstefno[13]) at ari.

item gefr[14]) ek Aris einn duk.

item yngibiorgo .vj.[15]) alnir med vorolerept.

Segir ec Christino þorsteinsdottur oc ollum minum frendum oc vinum æ Islandi [marga goda natt[16]). oc giorir[17]) vel oc bidr[18]) gott fyrir mic[19]) oc minni sal.

Oc til sanninda hier um setr eg mitt innsigli fyrir þetta mitt Testamentisbref sem scrifat var ut til brędra i Biorgvin sunnodaginn næstan eptir sancti Bartholomæi dag Anno Domini ꝏ⁰ cd⁰ l⁰ nono.

---

## 176. 10. September 1459. á Reynistað.

Þorvaldr Finnsson samþykkir gjöf Teits prests bróður síns, þar sem hann gefr klaustrinu á Stað í Reynisnesi í testamenti sínu hálfar jarðirnar Eingihlíð og Gil í Holtastaða kirkjusókn.

AM. 280. 4to bls. 43—44 með hendi Hákonar Ormssonar c. 1640; AM. 277. 4to bls. 38—39 með hendi Guðmundar Andréssonar 1640.

---

1) þormóðr, *c*; 2) nitt, *b*; 3) Ól. Kl . . lsyn(!) *c*; 4) einkis, *b*; einskis, *c*; 5) [sl. *c*; 6) *b*; sl. hin; 7) [hef fur, *a*; hefir fyrir. *c*; 8) [Eyrikr Olaafsson, *b*, *d*; Erich Ol. son(!) *c*; 9) sl. *c*; 10) Surber(!) *c*; 11) mier, *a*, *c*; 12) Grjot(!) *c*; sl. *b*; 13) [sl. *b*; 14) gef, *a*, *c*; 15) sex, *c*; 16) [kvediu guds og mina, *c*; 17) *b*; giorit, *a*, *c*; 18) bidiet, *a*, *c*; 19) mier, *a*; mier oc, sl. *c*.

Breff wm̄ Eingehlijd [og Gil[1]).

Þad giörum vær Sigurdur Prestur Þorlaksson. Þorualldur Prestur Magnusson. Olaffur Þorsteinsson. Wigfus Hilldebrannds-son godum mönnum kunnugt med þessu voru opnu[2]) breffe ad þar vorum vier i hia a Stad i Reynisnese. saum og heirdum a ord og hanndabannd þess(a)ra manna aff eirne alffu systur Barbaru fru abbadisar ad[3]) Stad i Reynisnese Enn aff annare Þorualds Finnssonar. Skildest þad wnder þeirra hanndabande ad aadurneffndur þorualldur samþyckte þä sömu giöff löglega frij og frialsa er[4]) Sira Teitur Finnsson broder hanns haffde gieffed klaustrenu i sijnu testamentum wm̄ Jördena hälffa Eingehlijd og Gil hälfft. er liggia[5]) i Holltastadakirkiusokn so framarlega sem hann maatte þad fremst giöra. og i hans hlutskipte maatte koma[6]) fremst epter lögum. Suo og [ei sijdur[7]) samþyckte aadur neffndur[8]) Þorualldur. ad klaustursins wmbodsmann skylde frialslega mega ad sier taka aadur neffndar Jarder hanns vegnna huenar[9]) hann vill.

Og til sannenda hier umm settu[10]) vier fyrrneffnder menn vor Jnsigle fyrer þetta breff. er giört war ä Stad j Reynisnese tueim[11]) nottum epter Mariumessu ṡijdare Anno Domini [M°. CD. L°. nono[12]).

---

## 177. 11. September 1459. á Reynistað.

Barbara abbadís á Stað í Reyninesi selr Ólafi bónda Grímssyni jörðina Brúarland hálft í Deildardal fyrir Syðra-Vatn í Tungusveit.

AM. Fasc. XIV, 14, frumritið á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, nema eitt. Við þetta bréf er læst samþyktarbréf Ólafs biskups Rögnvaldssonar frá 24. Apríl 1461 og er innsigli biskups heilt. Um innsiglin segir Árni: »fyrsta innsigled var kapitulainnsigled fra Stad i Reynesnese. brotnade burt«. AM. Fasc. XIV, 15, annað frumrit innsiglalaust, en hefir þó verið innsiglað í upphafi. Hvorttveggja frumritið með sömu hendi.

---

1) [b. v. 277; 2) sl. 280; 3) a 277; 4) sem 277; 5) liggur 277; 6) komast 277; 7) [sl. 277; 8) sagdur 277; 9) huonær 277; 10) settum 277; 11) xij, 277; 12) [1459, 277.

brvarlands bref 1459[1]).

Aullum monnum þeim sem þetta brief sia edr heyra senda sigurdr þorlákzson. þorualldr magnusson. prestar. þorgeir ionsson. magnus oddason. ion gudmundzson oc vigfws hilldibrandzson leikmenn. Q(uediu) G(udz). oc sina kunnigt giorandi ad þa er lidit var fra hingatburd várs herra ihesu christi þushundrut fiogr hundrut fimtigir oc nio ár. á mánodagin næstan efter Mariomesso sidarri[2]) vorum vær j hia á stad j Reynisnesi sáum oc heyrdum á ord oc handaband þeirra frv barbaro abbadisar á stad er þa var formann klaustrsins af einne álfuo En olafs bonda grimssonar af annari ad suo firir skildu ad fyrrnefnd frv abbadis selldi áðrnefndum olafui grimssyni iordina klaustursins bruarland halftt j deilldardal er liggur j hofsþingum med allra conuentu systra samþycki med ollum þeim gognum oc gædum sem greinndri halfri iordu hefuer fylgtt ad fornu oc nyio oc klausturid vard fremst eiganda ad. honum til æfuinligrar eignar oc hans erfuingiom. En hier j mot gaf þratnefndr olafur klaustrino á stad iordina sýdra vatn j tungusueit er liggr j Reykia kirkiu sokn med ollum þeim gaugnum oc gædum sem greinndri iordu hefer fýlgtt ad forrnu oc nyiu oc hann hefer eigandi ad ordit klaustrinu til æfuinligrar eignar vndan sier oc sinum erfuingiom. skylldi huortt hallda til laga þeirre iordunni sem keypti. En huor iordin sem af kann at ganga med laugum þa skýldi su frialsliga mega aftur takazt sem efter væri vtan doms eda logligra sokna.

Oc til sanninnda her vm settum vær fyrrnefndir men vor inscigli firir þetta iardakaupsbref med kapitula inscigli er giortt var j sama stad oc ári. degi sidar en fyrr segir.

---

178. 18. Október 1459. á Reynistað.

Prófentubréf Helgu Finnsdóttur við frú Barbaru abbadís og klaustrið á Stað í Reynisnesi.

AM. Fasc. XIV, 17, frumritið á skinni. Innsiglin eru dottin frá.

Þad gierum uær syster barbara abbadis at stad j Reynis-

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi, frá 16. öld; [2]) þ. e. 10. Sept.

nese godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at vær hofum tekit helgu finzdottur til æuenligrar profentu vpp a stadinn j Reynisnesi med samþycki sigurdar prestz þorlakssonar Radzmañ(s) klaustursins ok allra minna conuentu systra at suo fyrir skildu at fyrnefnd helga skylldi luka stadnum j sina profentu. xx. kugillde ok .x. hundrud j ofridum peningum. hier j mot skilde optnefnd helga ser sæmiligt bordhalld. smior ok skreid. huitu einn Rett ok heita miolk. kiot þa þat væri haft. tuituga vod a huerium tolf manudum ok þar til ermaklædi edr stiku lereptz. skædi sem henni þarfazt. skilde þrattnefnd helga sier hreinliga þionustu af stadnum ok litla stofuna. Suo ok ei sidr skilde tittnefnd helga sier sæng af stadnum enn kistu skylldi hun sialf til leggia enn stadrinn eignazt epter hennar dag.

ok til sanninda hier vm settum vær vort kapitula jnnsigli ok sigurdr prestur þorlaksson fyrir þetta profentubref er gert var a stad j Reynisnese jn festo luce evængeliste. anno domini. ᴍ°. cd°. l°. nono.

---

179. [10. Nóvember 1459. i Hagal.

Vitnisburðr Greips prests Sigurðssonar um skóg Hagakirkju í Morudal.

AM. Apogr. 1111 »Ex pagina pergamenâ affixa literis præcedentibus« [þ. e. úrskurðinum frá 12. Nóv. 1459 Nr. 184].

Jn primis er þetta uitnisburdur greipz prestz sigurdzsonar adh hann sagdizt uerit hafa atta ara þa er fader minn kom til haga a bardastrond epter hans saugñ ok modur minar ok anar(a) manna þeirra er alldur minn uissu ok ox þar upp þar til eg var fulltida madur ok pall þorkelsson bio j tungumula ok þorkell son hans epter hann ok uoro uit sagder jafngamler ok heyrda eg alldri annad sagt en kirkian j haga a bardastrond ætti allan skog j morudal fra aulldugili ok fram adh hagagardi. liet fader minn uinna i þessum sama skogi bædi kol ok elldiuit uetur ok sumar epter þui sem honum heñtadi. heyrda eg pál alldri adh finna né sier eigna þenna skog. uann eg ok opt j fyrrgreindum skogi med monnum fôdur mins ok

pall liedi sonu sina þorkel ok tumas adh uinna j þessum sama skogi med mier ok monnum fôdr mins. uar tumas palsson hia fodr minum uinnumadur þa er pall fader hans uar andadur ok uann j tiitt nefndum skogi adh skipan fodur mins bædi til kola ok til elldiuidar ok eignadi huorki sier né syskinum sinum. suo uar eg heima j haga þa er sira biarne sigurdszon atti tungumula ok hafdi þar buskap. ok heyrdi eg hann alldri sier eigna edr adh finna uit fôdr minn edur hans menn þa er þeir foru j þenna skog. suo uissa eg ok aunguan af þessum monnum sem nu hefer eg greint j þessum skogi uinna utan j leyfi fodur mins ok nu brædra minna epter hann. heyrda eg aungan annan[1]) adh tala enn kirkian j haga ætti allan skog j morudal fra aulldugili ok fram adh hagagardi. uar eg heimilisfastur j haga hia fodr minum ok nu bio eg þar sidan þar til er eg uar fertugur so ad eg uar alldri alla tolf mánudu j burt en nu hefer eg uerit þar þingaprestr upp æ xj ær. ok hier epter uil eg sueria ef þurfa þiker.

---

180.

**[10. Nóvember 1459. i Haga].**

VITNISBURÐR Arons Jónssonar um skóg Hagakirkju í Morudal.

AM. Apogr. 1112 »Ex pagina pergamenâ affixa literis præcedentibus« [þ. e. úrskurðr frá 12. Nóv. 1459] (= *a*); AM. Apogr. 1116c með hendi Árna Magnússonar »accuratè« »epter pergamentsskrä fra Haga ä Bardastrǒnd« og var það uppkast að 1112 (= *b*); AM. Apogr. 1133c »Aptan af storu Transscripto frä Haga ä Bardaströnd giordu 1586« [(AM.) = *c*].

Jtem er þetta uitnisburdr ærons jonssonar adh hann[2]) sagdizt alldri heyrt hafa tuimæli æ leika adh kirkian j haga æ bardastrond ætti allan skog j morudal fra ôlldugili ok fram ad hagagardi. uissa eg ad sigurdr þordarson liet uinna j þessum sama skogi ok syner hans epter hann ok heyrda ek aungan upp æ kæra edur ad finna þann sem tungumula atti ok auñguan anan ok er eg hier barnfæddur æ bardastrond ok hier uerit optazt allan minn alldr. hefer eg nu xvij uetur ok xx adh þui er[3]) moder min hefer sagt mier ok adrer

[1]) Svo (rétt: annad); [2]) sl *a*; [3]) sem *b*, *c*.

menn þeir sem minn alldr uita. ok hier epter uil eg sueria þegar eg er med lõgum til beiddr.

---

## 181. [10. Nóvember 1459. í Haga].

Vitnisburðr Guðlaugs Magnússonar um skóg Hagakirkju í Morudal.

AM. Apogr. 1113 »Ex pagina pergamena affixa literis præcentibus« (þ. e. úrskurðr frá 12. Nóv. 1459) = *a*; AM. Apogr. 1116a, með hendi Árna Magnússonar »accuratè« »epter pergamentsskrä frä Haga ä Bardaströnd« og var það uppkast að 1113 (= *b*); AM. Apogr. 1133a »Aptan af storu Transscripto frä Haga ä Bardaströnd, giordu 1586« (= *c*).

Jtem[1]) er þetta uitnisburdr gudlaugs[2]) magnussonar. hann sagdizt hafa uerit j haga a bardastrond hia sigurdi þordarsyni uinnumadur hans ok hia sira biarna sigurdzsyni epter þat bædi j haga ok suo j midhlid ok heyrda eg alldri tuimæli a þui adh kirkian j haga ætti allañ skog fra aulldugili ok fram adh hagagardi j morudal[3]) ok liet sigurdr þordarson uinna j þessum sama skogi huert ær bædi til elldiuidar ok kola ok bio þa pall þorkelsson j tungumula ok taladi ecki upp a huorki a sigurd ne menn hans. uann eg opt j þessum sama skogi ad skipan sigurdar þordarsonar med audrum hans uinnumonnum. uann eg ok j þessum sama skogi adh skipan sira biarna sigurdzsonar þa er hann bio j haga. uar eg sagdur atian uetra þa er eg uar hia sigurdi fyrst er hann kom til haga en nu hefer eg fiora uetur um sextugt[4]). uar eg ok hia sira biarna sigurdzsyni þa er hann atti ok hafdi buskap j tungumula ok heyrda eg hann alldri eigna sier skog fra aulldugili ok fram adh hagagardi j morudal. og hier epter uil eg sueria þegar eg er med laugum til beiddr.

---

[1]) Jn primis *b*, *c* (þar stendr þessi vitnisburðr fyrst á skránni); [2]) Gudlauks *b*, *c*; [3]) Mórudal *b*; [4]) »Epter þessum reikninge er Sigurdr kominn til Haga 1413. þad er ärenu epter ad hann vann Haga ä alþinge af Jõrunde þordarsyne. og þetta mun so vera« (AM.)

182. [10. Nóvember 1459. i Haga].

VITNISBURÐR Halls Alexanderssonar um skóg Hagakirkju í Morudal.

AM. Apogr. 1114 »Ex pagina pergamenâ affixa literis præcedentibus [þ. e. úrskurðr frá 12. Nóv. 1459] = *a*; AM. Apogr. 1116b, með hendi Árna Magnússonar »accuratè« »epter pergamentsskä fra Haga ä Bardaströnd«, og var það uppkast að 1114 (= *b*); AM. 1133b »Aptan af storu Transscripto fra Haga ä Bardaströnd, giordu 1586« (= *c*).

Jtem[1]) er þetta uitnisburdr hallz alexsanzsonar[2]) ad fader minn ok moder saugdu mic atian uetra gamlan þa er eg kom[3]) til sigurdar þordarsonar er hann bio j haga æ bardastrond ok uar eg hia honum ok j hans uernd .xx. uetur edr leingr ok nu sidan hia sonum hans sira greip ok philipus ok þordi tiu .xij. manudi ok heyrda eg aungan anad[4]) seigia en kirkian j haga æ bardastrond ætti allan skog fra aulldugili[5]) ok fram adh hagagardi j morudal[6]). liet sigurdr þordarson uinna j þessum sama skogi bædi uetur ok sumar ok hans syner epter hann bædi til kola ok elldiuidar huort sem þeim hentadi. suo uann eg ok opt ok margan dag med audrum þeirra uinnumonnum. suo uar eg ok hia sigurdi þordarsyni þa er hann bygdi sira biarna sigurdzsyni jördina haga æ bardastrond ok sira biarne liet uinna þenna skog hinn sama uegna kirkiunnar j haga. heyrda eg aungan upp æ tala edr ækæra þann sem tungumula atti edur bio ok auñgan fyrr en nu j sumar. Ok hier epter uil eg sueria ef til efnis kemur ok eg er med logum tilkuaddr.

---

183. [10. Nóvember 1459. i Haga].

VITNISBURÐR Jóns Markússonar um skóg Hagakirkju í Morudal.

AM. Apogr. 1115 »Ex pagina pergamenâ affixa literis præcedentibus« (þ. e. úrskurðr frá 12. Nóv. 1459) = *a*; AM. Apogr. 1116c með hendi Árna Magnússonar »accuratè« »epter pergaments-

---

[1]) Jn primis *b*, *c*; [2]) Alexanderzsonar, *c*; [3]) sl. *a*; [4]) anan *a*
[5]) aulldigili *a*; [6]) Mórudal *b*.

skrá fra Haga ă Bardaströnd«, og er það uppkast að 1115 (= *b*); AM. Apogr. 1133d »Aptan af storu Transscripto fra Haga ă Bardaströnd, giordu 1586« (= *c*).

Jtem¹) er þetta uitnisburdr jons markussonar ad hann sagdizt aungan hafa heyrt anad segia en kirkian j haga a bardastrond ætti allan skog fra aulldugili j morudal ok fram ad brennuskridu²) ok þar heyrdi eg aungan adh finna edr upp a kæra ok bio eg j tungumula ferna .xij. manudu uegna sira biarna sigurdzsonar. lét sigurdr þordarson uinna j þessum sama skogi bædi til kola ok elldiuidar ok fann sira biarne sigurdzson ecki ad ok ecki eignadi sira biarne sier þenna skog suo eg heyrda. uar eg j haga kirkiu sokn upp a þriatigi uetra edr leingur. suo heyrdi eg ok sagth af sumum monnum ad kirkian j haga ætti allan skog fra aulldugili ok fram ad hagagardi j morudal. veit eg þar eingi meiri sanindi til. Ok hier epter uil eg sueria ef þurfa þiker ok eg er med lögum til beiddr

---

## 184. 12. Nóvember 1459. 16. Nóvember 1460. í Haga.

Urskurðr Þorsteins prests Þórarinssonar, prófasts milli Auðna í Kjálkafirði og Langaness í Arnarfirði, að kirkjan í Haga á Barðaströnd eigi allan skóg í Morudal frá Öldugili og fram að Hagagarði, en þeir bræðr Filippus og Þórðr Sigurðssynir höfðu kært til Guðmundar Pétrssonar, að hann hafi höggvið skóginn.

AM. Apogr. 1110 »Ex origin. fra Haga a Bardaströnd, accuratissimè« (AM.).

Þat giaurer eg þorsteinn prestr þorarinsson profastur millum audna j kialkafirdi ok langanes j arnarfirdi godum monnum uiturligt med þessu minu opnu brefe þa er lidit uar fra hingadburdi uors herra iesu christi. ꝺ⁰. cccc⁰. l⁰. ok ix ar uar stefndr firir mic gudmundr petursson til haga a bardastrond laugardaginn næsta firir marteins ꝺesso³) firir þa akæru er þeir brædr philipus sigurdzson ok þordur sigurdzson baru

---

¹) Jn primis *b*, *c*; ²) brenneskridu *b* (orðamunr eptir afskript, sem ekki var fullger); ³) þ. e. 10. Nóv.

ath honum ath hann hefdi hauggit ok j ort skog kirkiunar j haga æ bardastrond j morudal j fullu þeirra ofrelsi ath lôgfestum skoginum firir framañ aulldugil. nu saker þess adh gudmundr petursson uar ecki kominn ad lidnu hádegi ok einginn sa er hans umbod sagdizt hafa j greindañ stefnudag. uar stefnan suarin af tueimur uottum ok hann dæmdur lôgliga firirkalladur um fyrrgreint skogarhaugg. beiddu mig ok krofdu adr nefnder brædr philipus ok þordur sigurdzsyner ath taka þau uitni sem þeir budu fram uegna kirkiunar j haga æ bardastrond um eign æ[1]) greindum skogi j morudal ok æbyrdu mier allan þann skada sem kirkian fiengi af minni forsomañ ef uitnin kynni adh hindrazt edur talmazt j nôckurn mæta suo adh þau kæmi eigi fram ok misti kirkian þar firir sina eign ok riett. ok þui suoru firir mier fullan bokareid suo heitandi menn greipur prestur sigurdzson. aron jonsson. gudlaugur magnusson. hallr alexanzson. jon markusson suo latanda ord epter ord sem þessi sedula er liodandi sem hier er med bundin þessu minu brefe[2]). ok nu saker þess adh þar stendr suo uth j fyrnefndra manna uitnisburdi adh kirkian j haga hefer haft fyrgreindan skog. xx. uetur ok leingur ætôlulaust af þeim er attu ok biuggu j tungumula uit þa sem skogin hôfdu j haga ok hafa létu kirkiunar uegna. komu firir mic titt nefnder menn þordr ok philipus sigurdzsyner manadaginn næsta epter marteins messo beiddo mic ok krôfdu laga urskurdar um þenna sama skog sem þeir hôfdu adr uitni um leitt uegna kirkiunar j haga. ok þui j guds nafni amen. seger eg þorsteinn prestur þorarinsson profastur med fullu doms atkuædi ok lagá urskurdi allan skog fra aulldugili j morudal ok fram adh hagagardi kirkiunni j haga æ bardastrond til æfuenligrar eignar suo framt sem eigi leidazt þau uitni edur prof adh þat se þeirra eign ef þeir skulu urænter uera ef nauckurer kalla upp æ.

uar þessi minn domur sagdr ok giaur j haga æ bardastrônd manadaginn næsta epter marteins messo. mier j domssæti sitianda ok môrgum godum monnum hia ueraundum lærdum ok leikum ok samþyckiôndum.

Ok til saninda hier um setta eg þorsteinn prestur þor-

---

[1]) z (= ok) stóð í frumbr. Árni leiðrétti; [2]) þ. e. Nr. 179—183.

arinsson profastur mitt inzsigli firir þetta mitt urskurdarbref skrifat j haga æ bardaströnd sunudagin næsta epter marteins messo. æri sidar en fyr seger.

---

## 185. 21. Nóvember 1459. á Helgafelli.

Vitnisburðr tveggja manna, að Jón Ásgeirsson gaf Lopti Ormssyni löglegt umboð til að bjóða og bæta þegn og vígsbætr fyrir Guðna son Jóns, er vegið hafði Guðmund Magnússon.

Kriegers safn 2. 4to bls. 203—205 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Þad giörum vær Gunnar Jonsson. Jon Þorlaksson. Hallur Kietilsson godum monnum kunnigt med þessu voru brefi. ad vær vorum þar i hiä. säum og heyrdum ä ord og handaband Lopts Ormssonar af eirni älfu og Jons Äsgeijrssonar af annari. ad svo fyrir skildu. ad fyrnefndur Jon Äsgeirzson feck og (gaf) lögligt um̄bod ädurnefndum Lopti Ormssyni. ad bioda og bæta þegn og vijgsbætur fyrir Gudna son sinn fyrir þad mannslag er hann oforsyniu j helslo Gudmund Magnusson. Lysti tijttnefndur Jon Asgeirsson fyrir oss. ad hann skylldi þad stödugt hafa og hallda sem þrattnefndur Loptur Ormsson giordi i þessu hañs um̄bodi. eda hvad hann hefir brotligur ordid a kongdomsinz vegna hier um̄ ad jafnfullu sem hann sialfur. Og til sanninda hier um̄ settum̄ vær fyrnefndir menn vor Jnsigli fyrir þetta bref. skrifad ä Helgafelli in festo sancte [Cholumbani Abbatis[1]) Anno Domini M. cccc. L. IX.

---

## 186. 24. Nóvember 1459. í Skarði á Landi.

Margrét Ólafsdóttir (Loptssonar) gefr Jón Ólafsson bróður sinn kvittan um allan föðurarf sinn og umboð allra sinna peninga.

AM. Fasc. XIV, 24, frumritið á skinni. Tvö fyrstu innsiglin eru enn fyrir bréfinu, en hið síðasta er dottið frá.

---

[1]) [Cholumbe Abbatis, hdr.

kuittvnarbref systur minar[1]).

Þat giorvm vier arnbiorn gudmundzson. hvge oddzson ok helge olafson godum monnum kunnegt med þessu uorv brefe at þar vorum vier j hia savm ok heýrdvm æ j reýkiahlid uid mýuatn ord ok hanndabannd ions olafsonar ok margretar olafsdottur sýstur hanns at svo fýrir skildv at fýrrnefnd margret gaf adur nefndan ion kuittañ ok akiærvlavsañ vm allan sinn favdurarf ok vmbod allra sinna penninga sem advr greindum ione bar til vmbods.

ok til sannenda hier vm þa settum uier fýrrnefnder menn uor innsiglle fýrir þetta bref sem skrifat var j skarde j lan(d)mannahrepp lavgardagen næsta fyrir andresmessv anno domini ꝏ° cd° l° nono.

---

187. 29. Nóvember 1459. í Kaupmannahöfn.

Sýslubréf Ólafs biskups Rögnvaldssonar fyrir Skagafjarðarsýslu um tíu ár, útgefið af Kristjáni Danakonungi hinum fyrsta.

AM. Fasc. XIV, 20, eptir transskripti á skinni frá 12. Okt. 1460 gerðu á Hólum í Hjaltadal. Af bréfi þessu eru til nokkrar pappírsafskriptir sem allar stafa frá þessu transskripti. Merkust er sú afskript, sem nú er í Advocates Library í Eiðinaborg 21, 8, 6. 8vo (FM. 18. 8vo) og gerð er fyrir Árna Magnússon; er hún stafrétt. Það sem tekið er upp í Sýslumannaæfir I, 315—316 er orðrétt sama ágrip þessa bréfs sem í bréfaskrá Jóns frá Grunnavík. Sbr. lögmannsúrskurð 10. Nóv. 1463.

Kong Christians briefs inntak um jarder[2]).

Vi cristiern med gvds nad danmarkx. sviarikis. noregis. vendis ok gota konvng greifve j oldenborg oc delmenhorst sendum ollvm sem býggia ꝏ vaart land jsland heilsu med gvd ok warra konvnglega nade kvnnigt giorande at vi af vaar serdelis gvnst ok nꝏde svo ok firir truskap ok vilioga þenustv sem þenne brefvisare herra olaf plizus[3]) til hola kirkiv j island oss ok vort rike norege hier til giort hefer ok hier efter troliga bevisa

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi Jóns Ólafssonar sjálfs; [2]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; [3]) pliz', transskr. og svo les Eiðinaborgarafskriptin.

skal ok maa þa havfvm vi vnt ok forlent ok med þetta bref vnnom ok fýrlenom honom vaart ok krununnar leen skagafiord liggianda j fýr nefnt holabiskupsdæme nordan vpp a island med alla sina tillavgur ok konvngligra rento rettogheit ok huat þat helzst er edur vera kan til nytte ok býhallda þat j tio samfelden aar j svo maata at han skal arliga gifa oss þar af til vaart fatabvr hvndrada letta gýllena svo leinge han þat i verio hafer ok antvarda oss edur vaarom vmbozman j biorgen vpp a vaara vegna. ok skal han giora oss goda reido ok reikningskap af strandrak sem þar falla kan. þvi bidiom vi ok biodom ýdr vaara ok kronanne skatskýlldoga bændur ok megin almuga sem býggia ok bua j fyrnefnt skagafiord at j hier efter veri honom hæroge ok hlýdoger ok giorin ok gefuin honom til goda reida ýduarn arligan skat landskýlld sakeýre ok allt annat sem j oss upp a krvnvnnar vegna pliktavger eravd ok eingvm adrvm svo leingi han þat af oss j verio hefer sem fyrskvifat star ok latit þat eingalvnd svo framt j vilin flý uaara konungligra hefnd ok reide.

Ok til saninda hier vm latom vi heingia vaart secretvm firir þetta bref sem skrifat er appa vart slot kavpmannahafnn jn vigilia sancti andree apostoli anno domini ᴍ° cd° qvinqvagessimo nono.

---

188. 1459. i Kaupmannahöfn.

Kristján Danakonungr hinn fyrsti ritar Davíð biskupi í Utrecht um refst yfir Kölnarmönnum fyrir það, að þeir réðust á, tóku fastan og rændu Marcellus Skálholtsbiskup, þá »postulatum« erkibiskup í Niðarósi, þegar hann var á heimleið úr sendiför, er konungr hafði gert hann í, bæði til páfa og annara þjóðhöfðingja.

Bartholins safn B. Fol. bls. 187—189, skr. c. 1690. Prentað í Scriptores rerum Danicarum VIII, 400—401.

Copia ad Episcopum Trajectensem in causa Coloniensium.

Christiernus dei gratia Regnorum Dacie Svecie Norvegie et cetera reverendo et orthodoxo in Christo patri David eadem

gratia Episcopo Traiectensi, Salutem et sincere dilectionis affectum.

Subiit animum, Reverende et amantissime pater in Christo, amice carissime, ea presentibus recensere, qve famatis rumoribus ad vestram pervenisse notitiam minime hesitamus; ingens qvidam flagitium et pestiferum ausum implacabili animadversione dignum per Burgimagistros et Consulatum Coloniensem sacrilega temeritate presumptum. Nam dudum cum Nos reverendum in christo patrem Marcellum Episcopum Scalolthensem consiliarium nostrum, tunc in Nidrosiensem Archiepiscopum postulatum, ex regnis nostris pro arduis nostris et regnorum nostrorum negotiis imminentibus, Oratorem et Ambasiatorem nostrum ad sedem Apostolicam et diversos Reges ac Principes legassemus; cum ad Nos ipsum summus Pontifex expeditum cum responsis remitteret, per civitatem Coloniensem transitum facientem, dicti Colonienses perperam satagentes inanibus confictis coloribus, ipsum Episcopum in propriis laribus, infra Ecclesiasticam emunitatem, sub salvo conductu existentem, demissis ipsorum violentiarum magistris cum famulis civitatis, irreverenter et contumeliose, per tecta et domos vicinas cum impetu subintrantes apprehenderunt, percusserunt, solo prostraverunt et captivarunt, annulis preciosis ex digito violenter extractis, per vicos et plateas ad carceres maxima cum ignominia traducentes. Et statim familia sua repulsa, curiam Episcopi in potestatem et arbitrium receperunt, et nocturnis squallentibus latebris, vasa aurea et argentea in notabili pondere pecunie, clenodia tam nostra qvam sua, privilegia, litteras nostras clausas et apertas et omnem Episcopalem supellectilem asportarunt; qvod lucescente die curia prefata rebus contactis excussis evacuata remansit. Ac qvoqve posteaqvam domino favente, eis invitis, bonorum presidio immunis evasit, se ad tutelam illustris Principis, Juliacensis et Montensis Ducis, nepotis nostri carissimi, qvi sibi illatam iniuriam noverat, contulit, hortatibus crebris tam dux prefatus qvam ipse Episcopus literaliter et per oratores, Colonienses commonitos habuere, qvatenus per suos competenti comparerent in loco, et super captivitate Episcopi et spolio darent et reciperent, qvod foret iustitie et honoris. At per semestrem sepe reqvisiti et expec-

tati turpi silentio recusarunt. Interea cum ad presentiam nostram gravi cum qverela se contulit, nos accuratis apicibus et per oratores nostros super hiis, ut predicitur, obnixius et amicabiliter reqvisivimus, qvatenus rem per ipsos flagitiose in vilipendium nostrum, et ecclesiastice ac episcopalis dignitatis noxam patratam, condigna satisfactione et emenda conponerent; a qvibus responsa plena blasphemiis et subterfugiis reportavimus. Qvocirca, reverende in Christo pater, qvia tam ingentem offensam nostra modestia regia qvam pluribus sustulit, ulteriori mora torpere non valet, qvam decet acriori vindicta ulcisci, eandem P. V. per amicitiam singularem attentius obsecramus, qvatenus sicut nos vobis in negotiis vestris favorabiliter semper faciemus, ita velitis contemplatione nostra ipsos Colonienses commonitos facere, ut Maiestati nostre et Episcopo prelibato iuxta indaginem suprascripte narrationis integraliter satisfaciant. Qvod si contempserint vestros audire hortatus, velitis cum vestris subditis et amicis nobis favoribus adesse et assistentia exercitus. Donec redeuntes ad cor, iniustam iniuriam digno emendationis impendio complanaverint.

Valete, Reverende in Christo pater, et amice optatissime, cuius beneplacitis et gratuitis nos offerimus corde preparatos.

Datum in castro nostro Coppenhaven Dacie, anno et cetera LIX. Regali nostro sub secreto.

---

## 189. 2. Januar 1460. Ósló.

Kristján konungr hinn fyrsti veitir Guðina Jónssyni landsvist fyrir víg Guðmundar Magnússonar, er hann hafði ófyrirsynju drepið.

AM. Fasc. LXVI, 11, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. Afskr. (brot) í Kriegers safni 2. 4to bls. 217—18.

Kvittunar Bref Gudna Jonssonar fyrir mannslægi utgefit af kong Christiern[1]).

Christiærn med gudz nadh Norgis Suerikis Danmarks Wendis oc gothe kungh grefue i Oldenborgh oc delmenhorst

[1]) Krieger 2.

sender ollum monnum þeim er þetta bref sea ædher høyrer Q(uediu) g(uds) oc sine.

Wer wiliom at þer vider at wer hafuum i heydher vider gudh oc saker godre manne bønestadher oc æfther þuj profue er her fylgher gifuith gudhine jonssyni er gudmundi magnussyni [wart at skathe vforsynie[1]) landzuist med þeim hættæ ath han see ledugh quit oc frij oc allþingis akærolows for oss oc hworio manne. thy forbyudum wer hwario manne fullkomelighe wandrædhe at aucke [æder aucke lathe vider han hædhen af om þetta moll nema hwar som þet gører vili hafue forgort fee oc fridi oc werde siden aldrij bodemadher[2]).

War þetta bref gort i oslo aa ællipthe are rikis wort norghe her jfuer vikinghson profast at marie kirkio i oslo cantzelær wor jncigledhe dægin nest æfter nyarsdagh.

anno domini 1 8 9 decimo[3]).

---

## 190. 7. Febrúar 1460. á Hóli i Bildudal.

Kaupmálabréf Gísla Filippussonar og Ingibjargar Eyjólfsdóttur.

AM. Apogr. 1117 eptir frumriti frá Haga á Barðaströnd. »6 innsigle hafa fyrer brefenu vered. eru nu øll burtu« (AM.).

Jn nomine domini amen.

uar svo felldr kaupmali giorr ok lystur a brullaupsdegi gisla philippussonar ok ingebiargar eyiolfsdottur þa lidet var fra hingatburd uors herra ihesu christi þusund. cccc. lx. ær a holi j billdudal j arnarfiardardolum fimtudagenn næsta epter purificacionem sancte marie at philippus sigurztson ok groa ketilsdotter gafu gisla syni sinum til kaups ok konarmundar vid ingebiorgu eyiolfsdottr halfa iordena haga a bardastravnd firir .lx. hundrada ok þar med. xx. kuilldi edr kuillda uirt ok hier med samþykti ok gaf loptur philippusson þessa giof ok giord faudr sins ok modr uid gisla brodr sinn. hier j moti gafu þau eyiolfur magnusson ok helga þordardotter ingebiorgu

---

1) [vard att skadi paa sin, Krieger 2; 2) [paa hannem mend hvem ded giðr giorgiortt(!)frid og . . . Krieger 2. 4to (og þrýtr)); 3) þ. e. 145 decimo.

dottur sinne til kaups uid ædr nefndann gisla .xx. hundrut upp j iardernar j billdudal. eyri ok hol. hier til gaf magnus eyiolfsson diakni ingebiorgu systur sinne. xx. hundrut upp j somu iarder hol ok eyri er fader hans ok moder gafu honum. samþyktu þau fader hans ok moder þessa hans giof vid ingebiorgu systur sina. kiori eyiolfur magnusson dottur sina ingebiorgu helmingakonu j gard gisla philippussonar at feingnu fie ok ofeingnu. j faustu ok lausu.

uoru þessir brullaupsuottar þosteirn þorarinsson. snorri biarnarson. kodran jonsson prestar. þorbiorn biarnarson. arni bavdvarsson. ormur ionsson. leikmenn.

Ok til sannenda hier umm settvmm vær fyrr nefnder menn vor inzcigli firir þetta bref sem giort uar a holi j billdudal a sama ari ok degi sem fyrr seger.

---

191. 22. Februar 1460. í Vatnsfirði.

Björn Þorleifsson kaupir Bæ í Súgandafirði af Grími Þorleifssyni fyrir þrjátigi hundraða í lausafé, og eru landamerki tilgreind.

Afskript, staðfest í Haga á Barðasrönd 25. Júní 1704 af Einari Einarssyni og Magnúsi Arasyni, og var frumritið þá »miög Roted«.

Kaupbref firir Bæ i Sugondafirde[1]).

Þad giörum vær Are Sumarlidason. þorsteirn Sigurdsson. Einar Pâlsson. Jon Jonsson. Vincentius Nicolasson Godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe ad, vær vorum i hia i Breidastofunne i stofunne i Vatnsfirde þa lided var fra hingadburd vors herra Jesu Christi 1460 aa Peturs Messu dag um veturinn. sâum og heirdum aa ord og handaband Biörns bonda þorleifssonar og Grijms Þorleifssonar og skildest þad under þeirra handabande ad nefndur Grijmur sellde Bijrne þorleifssine Jôrd þa er Bær heiter i Sugandafirde. og liggur i stadar kirkiusokn. med øllum þeim gögnum og giædum. sem greindre Jôrdu aa ad filgia og filgt hefur. ad fornu og nyu og firrgreindur Grijmur vard framast eigande ad.

Hier i mot gaf âdurgreindur Biörn Þorleifsson þria tyge

[1]) Svo.

hundrada. med so felldum frijdlejka. 12 kugillde bulæg og 8 hundrud i gielldfie. 10 hundrud j þarflegum peningum. þeim sem þeim vel samañ kiæme. og skillde lukast aa þrem aarum enum næstu. utañ Biörn villde firr mejra luka. sellde Grijmur þessa firr greinda Jôrd ādurnefndum Birne til fullrar eignar undañ sier og sijnum Erfingium. skilldo offtnefndur Grijmur svara laga rifftingum aa firrgreindre Jôrdu. enn tijttneffndur biörn hallda greindre Jôrdu til laga. ad þessum landamerkium. ad Sunddalsaa so langt sem hun fellur til ur Vatne og til gards þess er giordur er mille Vatnadals og bæar. bādu meigenn aar sem gardurenn syner. þridiung beitar i Vatnadals afriett. Enn Vatnadalur aa i mote haustbeit og vorbeit krossmessna i millum ofan med bæarhlijd. Bær aa xxx sauda beit aa saudanese fra krossmessu aa haust og (til) krossmessu aa vor. enn kirkiañ aa stad ā i mote naustgiord og skipstôdu vid aar os i Bæar lande. Og til sannenda hier um settum vær firr nefnder menn vor Jnnsigle firer þetta bref skrifad i sama stad. deige og aare sem firr seiger.

---

## 192. 28. Februar 1460. i Vatnsfirði.

Olafr Ísleiksson prófastr milli Geirólfs(gnúps) og Langaness úrskurðar jörðina í Vogum Vatnsfjarðarkirkju til æfinlegrar eignar samkvæmt testamentisbréfi Einars Eiríkssonar, er Björn bóndi Þorleifsson bar fram.

AM. Apogr. 899 »Ex origin. Vatzfiord. accuratè«. »6 innsigle eru under brefinu, og alldri hafa fleiri vered« (AM.). Kriegers safn 2. 4to bls. 141—144 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Þat giorum uær olafur isleiksson profastr milli geirolbs[1]) og langanes. petur þordarson. eirekr arnason. sigurdr jonsson. jon jonsson. biarne oddzson prestar godum monnum kunnigt med þessu uoru brefi ad sub anno gracie milliss(im)o quadringintissimo sexagessimo j uatzfirde j jsafirde fimtudagin næsta eptir matheas messo sæm uær ok ýferlæsum testamentum bref

[1]) »I orginalnum hefur fyrst skrifad vered geiroms sidan corrigerad: olbs eins og hier er ritad. Geirolfsgnupr heiter þad i landnamu« (AM.).

einars bonda eirekssonar med. ij. hænganda jnnsiglum skeggia prestz elldiarnssonar ok þoruardz gudmundzsonar ok þar med skrifadir helgi prestr einarsson ok þorualldr snartarson ok stod þar suo skrifat j mille annara orda at fyr nefndr einar eireksson gaf j sitt testamentum kirkiune j uatznfirde[1]) þessar jardir er suo heita halshus ok uogar ok midhus ok halfa eyre j miofafirde er liggia i vatnzfiardar kirkiusokn med þeim giofum odrum sem greint testamentum bref utuisar. lagde biornn bondi þorlleifson þetta bref fram firir mic fyrr nefndann olaf isleiksson ok beidde mic ok krafde laga urskurdar huort kirkian j uatnzfirde mætti med rettu eiga jordina j uogum er fyʀ greindr einar hafde kirkiune gefit sem hans bref utuisar. Enn med þui at eg uar med laugum krafdr ok beiddr ok guds laug suo utuisa at hinn sidazte uile manzens skal standa obrigdeliga þui at tilkölludum med mier adr nefndum prestum ok odrum godum monnum. þeim sem þar voru nær staddir þui seigir eg þratt nefndr olafr isleiksson profastr ok kirkiunar umbodsmadr. j domsæti sitiande. jn nomine domini amen med fullum laga urskurde kirkiune j uatnzfirdi greinda jord uoga til æfinligrar eignar ok ei ueit eg annat rettara firir gude at suo profudu sem nu er firir mic under flutt.

ok til sanninda hier um setta eg titt nefndr olafr mitt innsigle med þessara fyrr nefndra presta innsiglum firir þetta mitt urskurdarbref skrifat j sama stad degi ok ære sem fyrr seigir.

---

## 193. 20. Marts 1460. i Bjarnanesi.

Kristín Teitsdóttir handleggr Teiti Gunnlaugssyni föður sínum jörðina Horn í Hornafirði, svo að hann megi gefa hana Gunnlaugi syni sínum, en Kristín skilr sér hana aptr, ef hún lifir Gunnlaug bróður sinn.

Bisk. Isl. Skalh. Fasc. III, 2, transskript á skinni gert af Guðmundi Guðmundssyni og Einari Jónssyni á Ásgeirsá í Víðidal fimtudaginn næsta fyrir messudag Simonis et Jude Apostolorum (= 22. Okt.) 1523. Afskript af bréfinu er í AM. Apogr. Nr. 2523 með hendi Arna Magnússonar, og var bréfið þá »miög so meirt og fued orded, so ad þad med tidenne forgeingur«.

Þat giorum vær hermundur arnason. sigvatur halldorsson

[1]) Svo.

ok þorvalldur þorvardzson godum monnum kunnigth med þessu voru opnu brefi. þa lidit var fra hingatburd vors herra jhesu christe þushund fiogur hundrud ok sextigi ar. fimtadagin næsta epter gudmundardag. vorum ver i hia sam ok heyrdum á i Biarnanessi i Hornafirdi at Kristin Teitzdottir leyfde Teite gunnlaugssyni fodur [sinum] med handabandi ok upp[lag]di iordina Horn i Hornafirdi i suodan mata at Teitur gunnlaugsson skylldi vel mega gefa þessa saumu iord Horn gunnlauge syne sinum ef gunnlaugur Teitzson lifdi Kristinu Teitzdottur systur sina edur hennar barn edur baurn. ef gud gæfi henne þau at eiga. En ef opptnefnd Kristin Teitzdotter lifir edur hennar baurn skilgetin gunnlaug Teitzson brodur sinn. þa skildi þrattnefnd Kristin Teitzdotter þessa saumu jord Horn i Hornafirdi apptur under sig edur sin baurn skilgetin. ok hier epter vilium ver sveria ef þurfa þickir. Ok til saninda hier um settum ver fyrnefnder menn vor innsigli fyrir þetta giorningsbref. skrifad i sama stad ok dag. ære sem fyr seigir.

---

## 194. 5. Mai 1460. á Auðkúlu.

Transskript af Flatatungu og Bægisárbréfi frá 20. Janúar 1428.

AM. Fasc. VIII, 25, transskriptið innsiglalaust á skinni, mjög blakt og máð. AM. Apogr. Nr. 303. Öll innsiglin voru dottin frá transscripto 1712.

Ollvm monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda jon jonsson. hrafn jonsson. bergþor jonsson. eyvindur thomasson kvediv gvds ok sina kvnnigt gerandi ath þa er lidit var fra hingatbvrd vors herra jhesv christi þvsvndrvt cccc ok sextiger æ ædkvlv j svinadal vorvm vær j hia ok heyrdvm æ svo latanda bref med heilvm ok oskoddvm hanganda jnsiglvm svo latanda ord fyrir ord sem hier segir.

[Hér kemr bréf frá 20. Janúar 1428, Dipl. Isl. IV, Nr. 401].

Ok til sanninda hier wm settvm wier fyrr nefnder menn wor jnsigli fyrir þetta transkriptarbref skrifvat (æ) ædkvlv j svinadal manvdagin næsta eptir kross messo wm vorit æ sama ari sem fyrr seger.

195. 18. Mai 1460. á Laugabóli í Laugardal.

Einar Markússon selr Jóni Erlingssyni sex hundruð í jörðunni Arnardal enum neðra í Skutilsfirði fyrir tólf hundruð í ganganda fé og lausafé, og lýsir Einar landamerkjum.

AM. Fasc. XIV, 22, frumritið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Tvö hin fyrstu eru enn þá fyrir því. Hin eru dottin frá. AM. Apogr. 5706.

Kaupbref firir Arnardal[1]).

Þath giorum wier þordr hnarrarson. Eigel þorleifsson. jon hakonarson. jon bergþorsson. godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefe ath wier worum j hia saum ok heyrdum á ord ok handaband þessara manna af eirne alfu einars markussonar ok gro konu hans enn af annare alfu jons erlingssonar ok jngebiargar konu hans.

Þui [j nomini[2]) domini amen

war þessi kaupmale gior adr greindra manna j mille oss nær weranda at suo firir skildu ath adr greindr einar markusson selldi fyr nefndum jone ellingssyne sex hnndrut j jordnnne arnardal enum nedra er liggr j eyrar kirkiu sokn j skutilsfirde med þeim landamerkium sem hier seiger.

Jnn yfer merarbás at ofæru þeirre er þar er næst ok fram ad langa hrygg firir nedan dalenn minna ok at þuerá þeirre at næst er arnardalnum minna j mille ok murtaselia ok jnn at brudarhamre j mille sudawikr ok arnardals. sagdizst fyr nefndr einar markusson huorke hafa sellt ne gefid nockorum manne j þessu greindu takmarke nema adr greindum jone ellingssyne fyr greind sex hundrut j þesse jordu arnardal.

Jtem sellde opt nefndr einar [med samþycke gro jonsdottr konu sinnar[3]) tittnefndum jone þratt nefndan jardar part wndan sier ok sinum erfingium enn under jon ok hans erfingia med ollum þeim gognum ok giædum. rekum ok hlunendum bædi til fiallz ok fioru jafnwel ok þæ peninga sem finnazst kann j jordu edr æ sem jordunne hefur fylgt at fornu ok nyigio ok hann hefur fremszt ordit at eigandi j millum fyr greindra tak-

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld; [2]) [svo; [3]) [milli línanna með sömu hendi.

marka. Skyllde þratt nefndr jon hafa tueggia manna jferd j saulfafioru enn einar sex manna jferd ok þeir at auke sem saul færa wndan sio eitt skip j arnarnese ok skal jon taka alla tolla af þui huerso marger sem æ roa ok þar med navst ok kro ok hiall. hier j mote skal einar hafa þriu skip ok taka alla tolla af þeim ok þar med þria hialla ok þriu naust ok þriar krær. Hafde jon j sinn hlut j taudum partenn nordr fra fioslæk jnnan gardz allan wpp ok ofan fios [med haugstad[1]) ok gard nordr fra med ollum wnderstaudum. badstofu ok forbadstofu þar wm þuert sudr ýfer hus þat sem næst er heimelikt[2]) med þeim grund[uoll[3]) sem þar til heýrer enn einar allar ædrar[2]) taudr ok hus. skal þat hafa huor af selum sem drepid geta ok skal jon hafa wte eitt neth enn einar þriv neth ok þar leggia sem will af huors hendi. skal jon hafa enn fiorda part af ollum Reka ok suo af flutningshuaulum. Hier j mote gaf opt nefndr jon ellingsson med samþýcke jngebiargar hakonardottur konu sinnar. xij. c. wid adr greindum jardar part. war þar golldit j. v. kyr og þriu asaudar kugillde ok. ij. naut tueuetur til hundras. sexæringr nýr med ræ ok Reida. wad ok jfærsla firir þriu kugillde. skyllde opt nefndr einar Markusson suara laga Riptingu m adr greindum jardar part enn titt nefndr jon ellingsson hallda til laga.

Ok til sannenda hier wm settum wier fýr nefnder menn wor jnzsigle firir þetta kaupsbref er giort (var) m laugabole j laugardal j augursþingum sunnodagenn næsta firir gagndagwiku. anno domini M° cccc° lx°.

---

## 196. 18. Juni 1460. á Hofi i Vatnsdal.

VITNISBURÐR um torfskurð frá Hofi í Vatnsdal í Brúsastaða og Gilsstaða jörð.

AM. Apogr. 756 »Ex originali« með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna. »Brefed er ā kalfskinn, hafa vered fyrer tvö hangande Jnnsigle, er annad j burt, enn þveingurenn epter«.

Þeim godum maunnum sem þetta bref sia edr heyra

---

[1]) [milli línanna með sömu hendi; [2]) svo; [3]) [yfir línunni.

sennda þorstein magnusson. einar þorsteinsson kuediu guds ok sina kunnegt giaurande þa er lidett uar fra hingatburd uors herra ihesu cristi ꝏ cccc lx ara þridiudagenn nęsta epter dyradag[1]) uoru uid hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband ad gestur petursson handfeste gisla þorgilssyne suo felldan̄ vitnesburd ad hann uisse ad biaurn audunarsonar bio a hofe i vazdal meir enn fyrir fioretige uetra ok hafde torfskurd j brusastad(a) jaurd ok gilstada jaurd sem hann þurfte ok atalde einge suo ek heyrde. ok hier epter kuest hann sueria ef þurfa þætti[2]). ok til sanninda hier um settu uid fyrskrifader menn okur insigle fyrir þetta bref skrifat æ hofe a sama are deg(e) sidar en fyr seger.

---

197. 26. Júní 1460. á Möðrufelli.

Sex menn votta, að Magnús Benediktsson hafi lukt Benedikt syni sínum fjórtán tigi hundraða í arf eptir Þrúði móður hans og tilgreinir þar í nokkrar jarðir, en Benedikt kvittar föður sinn fyrir.

AM. Apogr. Nr. 5656, »Ex originali«, með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna. »Brefed er ä kalfskinn, med 5. Jnsiglum enn þad siötta er burt, ä Jnsiglunum siest eckert notatu dignum, fyrer utan nöfnen̄«.

Þat giorum vær. eirekur loptzson. einar arnason. þorkell þorkellsson. helgi sigurdsson. jsleifur gudmundzson. gudmundr jvarsson godum monnum kunnickt med þessu voru opnu brefi. at þa er lidit (var) fra hingatburd vors herra jhesu christi þusund cccc ok sextigir ár. midvikndagin næsta fyrir huitasunnu[3]). vid samkvomugerdi j eyiafirdi. vorum vær i hia saum ok heyrdum æ. ord ok handaband þessara manna. magnus bonda benedictzsonar af einne alfu ok benedictz sonar hans at suo fyrir skilldu at greindur magnus luckti benedicti syne sinum j sinn modrarf. fiortantigi hundrada. var þar tilgreind jordin skialldarvik i kræklingahlid. er liggr i glæsibæiar kirkiv sokn fyrir fioritigi hundrada ok þar til tivtigi hundrada j lausagoze j fridum penningum ok ofridum. sidan lofadi fyrrgreindr magnus

---

[1]) þ. e. 17. Júní; [2]) þættu, hdr.; [3]) = 28. Maí.

benedict syne sinvm jordina[1]) vik i skagafirdi er liggr i kirkiusokn Reynenes stadar til giptvmala ef hans heidur lægi vid. skylldi fyr greindur benedict magnusson eignaz jordina til jafnadar erfda vid syskin sin epter þvi sem login vtvisa. sidan gaf tittnefndur magnus benedict syne sinum jordina hol ut ed næsta vik an allz Reikningsskapar. sidan gaf opptnefndur benedict þrattgreindan magnus faudur sinn aurlungis kvittan ok akærulausan vm allan sinn modurarf ok medferd a greindum arfi þeim er honum fiell til logligrar erfdar epter þrudi modr sina fyrir sier ok ollum sinum logligvm epterkomendum. skylldi fioritigi hundrada af greindum arfi standa hia magnuse benedictzsyne leigulauser þar til benedict giptiz. Ok til sannenda hier um settvm ver fyrnefnder menn vor insigle fyrir þetta bref er skrifat var j maudrufelle j eyiafirdi. fimttudaginn næsta epter ionsmesso baptista. sama are sem fyr seger.

---

198. 1. Juli 1460. á þingvelli.

Jón Þórðarson selr Birni bónda Þorleifssyni jörðina Norðtungu í Borgarfirði fyrir sex tigi hundraða, og geldr Björn í mót jörðina Skuggabjörg í Deildardal fyrir tuttugu hundruð og fjörutíu hundruð í vel virðu gózi.

AM. Fasc. XIV, 21, frumritið á skinni. Innsiglin hafa verið sex, en eru nú öll dottin frá.

Þat giorum wær oddr asmundzson laugmadur. skuli lopzson. gunnar ionsson. stephan þorarensson. brandvr sigurzson. þorarin arnnsson godum monnum kunnegt med þessv vorv opnv brefi anno domini ꝏ°. cccc°. lx°. vorvm vær j hia savm ok heyrdvm a j laugriettv æ alþingi manvdagin næsta epter petvrsmessu[2]) ord ok handaband biarnar bonda þolleifssonar af eirni halfu. ions þordarsonar af annari. falst þat under ok skildizt þeirra handabandi ath þeir stadfestv þar firer aullvm dandimanni[3]) þau iardarkaup sem fyr hafdi framm farit j milli þessara fyrgreindra manna. at fyrr nefndr ion þordarson selldi adr nefndum birni jordina nordtungu j borgarfiardar heradi firer

---

[1]) Svo; [2]) þ. e. 30. Júní; [3]) svo.

lx. hundrvt med aullvm gaugnvm ok gædum sem greindri iordu a at fylgia ok fylgt hefer at fornu ok nyu. ok hann matti fremst eigandi at uerda med aullvm þeim rentvm ok inntektum sem til liggia þessara(r) fyrgreindrar iardar. hier j moti gaf þratt nefndr biorn opt nefndum ioni skuggabiorg j deildardal j hofs kirkiv sokn firer. xx. hvndrvt med aullum gaugnvm ok gædvm sem þessi greindri iordv æ at fylgia ok fylgt hefer at fornu ok nyu ok hann uard fremst eigandi at. ok þar til. xl. hundrada j uel uirdu gozi. skylldi titt nefndr biorn þolleifsson suara laga ripttting a greindri iordv enn titt nefndr ion hallda til laga. skylldi ok titt nefndr ion suara laga ripting a nor(d)tungv enn biorn þolleifsson hallda til laga riettra.

Ok til sanninda hier um settum uær fýrnefnder menn vor inzigli firer þetta bref vmm (nefnt) iarda kavp. skrifat vid avxaræ a þinguelli. æ sama ari enn degi sidar enn fyr seger.

---

## 199. 8. Juli 1460. i Skálholti.

Mattheus biskup á Hólum og umboðsmaðr heilagrar Skálholtskirkju, eins og hann sjálfr nefnir sig, bannar Andrési Grænlendingabiskupi að fremja nokkur biskups eða prests verk í sínu umdæmi, undir banns pínu, fyrr en hann hafi hreinsað sig af þeim sökum, sem hann hafi stefnt honum fyrir á fund Ólafs erkibiskups í Niðarósi.

AM. 22B. Fol. bls. 91 á pappír skr. c. 1605 (»Adversaria Huitfeldiana«). Bréfið er prentað í Grønlands hist. Mindesm. III, 184—85. Ártal þessa bréfs er athugavert, því að áðr (Nr. 161) er talið, að Mattheus dæi 1458. Ætti því bréfið að vera frá 1456, 1457 eða 1458.

Om Biscop Anders aff Grønland anno 1460[1]).

Vij Mattheus med gudz naade Biscop a holum och vmbodzmader helleger Schalholdz kirkiu. gerum godum monnum kunnigt med tessum vorum breff. ad os och godum monnum os nerverende list och saa heffuer lyttist ad hellog Skalholdz kirkiu heffuer mikin och uvmagulegom skada nu fýr langen tima fengit aff then imislegom vmbodum sem nu lange tima heffuir

[1]) 1406(!), hdr. á báðum stöðum; á síðari staðnum er ártalið mjög skorið, en er þó nokkurn veginn víst (1406).

iffuer henne veret. och nu Biscop anders aff Gardum aa Gronland fôrst biriede. Thi forbiodum vij ther adurnefnder Biscop anders vnder fuld forbud. band och bandzpine ad fremme nokot bischopligt eda prestelig starff fôrend du heffuer dig rensit eda ret stadit fýri their sakar sem vij haffuom ther fýri steffnt fýre verdulekan fouder ok herre. her olaff med gudz naade Erkebiscop j Niderosi. hermed forbiudom ver ollum oc seerhuerium bede lerdum ok lekum vnder samme forbaud. band och bandzpinu ad theirra Embete ad stande eda ther nokore lýdni eda fýlgie ad vette til nokors bischoplicks starff eda Embete thartill sem endulegur veggur ganger a um aull thau malle felli fýri adur neffndur verduge foudur Eriki biscopen j Nidrossi er vij hǫffum ther fýrri steffnet. eda fýrri vor nodoga herra konunginn eff thes med tarff.

Ok til sande herum settum vij vort Jndsigli fyrri thetta breff skreffuit j Skalabolti den 6 dag epter Mariæ besôgilsiz[1]) deigi [anno domini] 1460[2]).

---

## 200. 3. August 1460. á Skarði.

TVENNIR vitnisburðir um yfirgang Guðmundar Arasonar.

Kriegers safn 2. 4to bls. 285—291, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700. — Skjalabók, sem átt hefir Jón háyfirdómari Pétrsson; báðar þessar afskriptir eru gerðar eptir transskripti frá 23. Aug. 1479. — Landbókasafn 115. 4to, I, 142—144 með hendi séra Jóns Haldórssonar í Hitardal c. 1730, og afskript þar af í ÍBfél. 126. 4to bls. 51—53; þessar afskriptir eru og gerðar eptir sama transskr., en ártal þess er hér misskrifað 1460 (fyrir 1479).

Meðkenningarbréf um ranglegt hald Guðmundar Arasonar á annara manna jarðagózi. Anno 1460[3]).

Það geri eg Einar Þórðarsou góðum monnum kunnugt með þessu mínu opnu bréfi, að eg var með Guðmundi bónda Arasyni, þá hann hafði [tekið við[4]) sínum réttum erfðapeningum, og hann hafði mestan yfirgang í Vestfirðinga fjórðungi; hafði eg þá[5]) hans bréfagerðir og vissa eg mikinn part um hans fear[5]) afla; en með því að[5]) lögin skylda mig til satt vitni að bera og eg[6]) heyri þá menn marga, sem [kalla á[7]) hans

[1]) Finnr Magnússon getr upp á: »bodun?«, en: besôgiliz, er víst, þótt skorið sé; [2]) 1406, hdr.; [3]) 115, 126; [4]) [meðtekið Kr.; [5]) þ. v. Kr.; sl. hin; [6]) sl. Kr.; þ. v. hin; [7]) [ákalla Kr.

peninga og þykjast orðið hafa fyrir hans ofríki, þá vissa eg hann meðtaka[1]) þessa peninga[2]), svo að[3]) eg vissa hann ei peninga fyrir lúka:[4])

Fell í Kollafirði. lx$^c$. eign; þar til þrjár[5]) jarðir, er heita Fjarðarhorn, hvortveggi[3]) Þrúðardalur og Ljúfustaðir, eptir því sem hver er lagin á[6]).

Hólm í Steingrímsfirði.

Bæ og Drangsnes á Selströnd í Kaldaðarness kirkjusókn.

[Reykjarfjörð og Kjós í Árness kirkjusókn[7]).

Borg og Ingunarstaði í Króksfirði og Gautsdalur, fyrir iiij og lx hundruð allar saman.

Miðjanes og Hamarland á Reykjanesi, tvö hundruð og fimmtigir hundraða.

Vissa eg og að[8]) Guðmundur Arason veðsetti kirkjunni á Reykhólum jörðina á Skerðingstöðum fyrir xxx$^c$, þá hann lá í miklum krankleika, er bólusótt var kölluð[9]), og lýsti [greindur Guðmundur[10]) fyrir mér [áðurgreindum Einari[11]), að porcio væri ólukt að fleirum hans kirkjum, þó hann hefði sumar skemur haldið en sumar.

En þessar jarðir fékk hann í Tálknafirði[12]) svo að ript stendur á: Botn og Eysteinseyri xl[13]) c. Tunga xxx$^c$.

Í Arnarfirði Dufansdalur[14]) tveim hundruðum fátt í fimtigir hundraða. Hvesta og Hrísdalur xl[13]) c. Kirkjuból í Feitsdal[15]) og önnur jörð til fyrir xl[13]). c. Höll xij$^c$. Austmannsdalur xij$^c$.

Haukadalur í Dýrafirði. lx$^c$.

Kirkjuból og Eyri í Önundarfirði þóttist hann að erfðum taka[16]), og þó heyrða eg ákærur veittar á þær jarðir. Svo og á fimm jarðir í Króksfirði, þær sem hann hafði að halda, heyrða eg ákærðar, og stóð sú ákæra á þá menn, sem hann tók arf eptir, og honum bar til laga að halda.

Var eg[17]) þráttnefndur Einar [og þar[18]) hjá[19]), að Þor-

---

[1]) sl. Kr.; b. v. hin; [2]) fá, b. v. Kr. hér; [3]) b. v. Kr.; sl. hin; [4]) Hér ritar séra Jón í 115 á spássiu: ›Opt má satt kyrt liggja. Óheill handskrifari við húsbónda sinn‹; [5]) ij(!), Kr.; [6]) til Kr.; [7]) [b. v. Kr.; [8]) sl. Kr.; [9]) það hefir verið 1431; [10]) [Kr.; sl. hin; [11]) [Kr.; hann, hin; [12]) Tólknafirði Kr.; [13]) Kr.; lx, hin; [14]) Kr.; Dugansdal-, hin; [15]) Kr.; Hvijssdal, hin; [16]) að b. v. Kr.; [17]) eg hjá, b. v. hér Kr.; [18]) b. v. JP.; [19]) [sl. Kr.

gerður Ólafsdóttir fékk títtnefndum Guðmundi Arasyni lagaumboð yfir. iiij[c]. c. í jörðum og[1]) kúgildum, og fékk aldrei aptur síðan og ei hennar erfingjar, og aungvan reikningskap [þar af upp[2]) á svo langan tíma, sem greindur Guðmundur hélt þetta umboð, og svo leingi sem hann hélt þessa peninga í aungu leyfi fyrnefndrar Þorgerðar og hennar erfingja. Voru þessir peningar þó heimtir af honum með vitnum, og vildi hann ei lúka heldur en áður. Heyrða eg [optnefndur Einar[3]), að Guðmundur Arason hefði keypt Fell að Jóni Sigurðssyni, það sem hann átti í[4]), en sumt hefði selt honum Skúli Loptsson.

Hér til segjum við okkarn vitnisburð Stephán Þórarinsson og Brandur[5]) Sigurðsson, að við vorum með Guðmundi Arasyni samtíða sem Einar Þórðarson, og vorum [nokkrum árum yngri[6]) en hann, og vissum við að sönnu, að þær margar jarðir, sem hér eru uppskrifaðar, hélt Guðmundur með aungvan rétt, en þær sumar, að við vissum[7]) almennings róm á[8]), að hann hefði ei rétt til, og heyrðum við okkur eldri menn segja, að Guðmundur hefði þá marga peninga að halda, sem vér[9]) vissum aungvan rétt til standa, og því kærir margur á. Vissum við og [fyrr nefndir menn Brandur og Stephán[10]) um peninga Þorgerðar Ólafsdóttur, hversu þeir eru inn komnir, og þeir hafa beitt[11]) og krafið, sem heimta áttu, og feingu ekki. Leggur[12]) eg Brandur Sigurðsson það til, að eg vissa að Guðmundur Arason fékk með ofríki og aungvan rétt Botn í Patreksfirði og Kollsvík í Sandshrepp[13]) [iiij[c] og xx hvor fyrir sig[14]).

Og til sanninda hér um settu vær [fyrrnefndir menn[15]) vor innsigli fyrir þetta vitnisburðarbréf, skrifað [á Skarði[16]) á Skarðströnd Ólafsmessu síðari um sumarið Anno domini ꝏ. cd. lx.

---

[1]) b. v. í 115; [2]) [b. v. Kr.; [3]) [og, 115; [4]) b. v. Kr.; [5]) Bjarn(!) Kr. hér; [6]) [115; nokkru yngri miklu Kr.; árum nokkrum yngri miklu JP.; [7]) Kr.; heyrðum, hin; [8]) b. v. Kr.; [9]) svo, hdr.; [10]) [b. v. JP., Kr.; [11]) Kr.; heimt, hin; [12]) Kr.; Legg, hin; [13]) Sandhrepp Kr.; [14]) [hvor fyrir sig xxiiij[c] et cetera 115 og lætr það, sem eptir fer eiga við transskriptarbréfið, en hefir þetta bréf ártalslaust; á spássíu ritar séra Jón hér: »Óheilindavitni sínum húsbónda«; [15]) [b. v. JP., Kr.; [16]) [sl. JP.

**201. 25. August 1460. á Skarði á Skarðsströnd.**

ANDRÉS biskup í Görðum á Grænlandi og umboðsmaðr heilagrar Skálholtskirkju afleysir Jón Jónsson fyrir mannslag, er hann hafði ófyrirsynju í fallið.

AM. 22B. Fol. bls. 92 á pappír skr. c. 1605 (»Adversaria Huitfeldiana«). — AM. 777c. 4to á pappír skr. c. 1600. — Prentað í Grönl. hist. Mindesmærker III, 185—186.

it andet breff om biscop anders aff Grônland.

Vij andreas med gudz naade Biscop i Gordum paa Gronland oc ombodsmand for[1]) hellage[2]) Skaleholls[3]) kirke. giôrre gode mend vitterligt med thette vort[1]) obne[4]) breff. ad[5]) vij haffue afflost [Jone Jonssyni[6]) for mandslett[7]). som hand wforsiunlig [haffuer ij fallet[8]). och schrift sat[9]). och for segt[10]) oppebored[11]) saa os vel nôyes. Huorfaare [vij giôre[12]) handt[13]) herom[14]) quit och karelôs[15]) paa den hellige Skalholte[16]) kirkis vegne for os och alle vore eptherkommere.

Och til Sandhed herom sette vij [vore indsigler[17]) for thette breff schreffit paa [Æaskerde Skad[18])strand[19]) neste dag epther festum S(ancti) Bartholomei apostoli anno Domini M CD LX.

---

**202. 5. September 1460. i Flatey.**

VITNISBURÐR Helga prests Þorkelssonar og Erlings Þórðarsonar um þær jarðir, er Björn Þorleifsson hefði aptr lagt af eignum Guðmundar Arasonar.

---

[1]) sl. 777; [2]) helige 777; [3]) Skalholde 777; [4]) obet 777; [5]) at 777; [6]) [Jhonn Jonsson aff 777; [7]) mandslag 777; [8]) [haffde vdj falden 777; [9]) settet 777; [10]) sagk 777; [11]) opbaared 777; [12]) [giôre wi 777; [13]) hannem 777; [14]) sl. 777; [15]) kæreløss 777; [16]) Skalholtes 777; [17]) vor Jndsegel 777; [18]) á spássíu í 777 (þó dálítið óglögt) = Skard-; [19]) [777 = aa skarde (aa) Ska(r)dstrônd; Aaskersstrand 22, og hefir Finnr Magnússon — sem les Asbersstrand — ætlað, að það væri afbökun úr Árskógarströnd, sem ekki er mjög líklegt, en Finnr notaði ekki afskriptina í 777. Bréf þetta hefir verið frumritað á íslenzku, og því hefir þýðandinn, sem ókunnugr hefir verið á Íslandi, gert hér: paa Æaskerde, úr: Aa skarde.

Landsbókasafn 115. 4to I, 141—142 með hendi séra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730 (afskr. í IBfél. 126. 4to). — Skjalabók, sem átt hefir Jón háyfirdómari Pétrsson, eptir transskr. frá 23. Aug. 1479. — Kriegers safn 2. 4to bls. 292—294 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Annað[1]) vitnisburðarbréf um þessa peninga. Anno 1460.

Það gerum við síra Helgi Þorkelsson og Erlingur Þórðarson góðum mönnum kunnugt[2]) með þessu okkru opnu bréfi, að við vissum Björn bónda Þorleifsson þessar jarðir aptur leggja, er Guðmundur Arason hafði áður haldið: Botn og Eysteinseyri [xlviij$^c$.[3]) Jtem[4]) Hvestu og[4]) Hrísdal og[4]) Hólabrekku og[4]) Ingunarstaði, Gautsdal, Miðjanes, Hamarland[5]), Fjarðarhorn, Hafnar[6])hólm, Kjós, Drangsnes og[4]) Bæ, Eyri og[4]) Tungu. Lagði hann[8]) aptur örfum Ólofar Aradóttur. iiij$^c$. c. í jarðargózi og .jc.$^c$ í lausagózi. Þeinkjum[9]) við hann héldi þessa greinda peninga með aungvan rétt, og hafði til þess, er hann slepti öðrum peningum.

Jtem hafa þessar jarðir ákærðar verið, svo við vitum: Kirkjuból og[10]) Illugastaðir, Forsá[11]) og[12]) Kirkjuból og Bakki, Austmannsdalur, Hraun og[12]) Eyri og[12]) Haukadalur, Reykjarfjörður, Dynjandi, fimm jarðir í Króksfirði.

Og til sanninda hér um settum við [fyrrnefndir menn[13]) okkar innsigli fyrir þetta bréf er[14]) skrifað var[14]) í Flatey á Breiðafirði föstudaginn næstan fyrir Maríumessu síðari [þá er liðið var frá hingaðburð vors herra Jesu Christi ꝏ. cccc. hundruð og lx. ára[15]).

---

**203.** **21. September 1460.** **á Móbergi.**

Þorvaldr (búland) Jónsson kaupir Strúg í Langadal af Jóni Bergssyni fyrir þrjátigi hundraða.

---

[1]) Hitt er bréf frá 3. Aug. 1460 (Nr. 199); [2]) viturligt Kr. 2; [3]) [ij$^c$ minni en L$^c$, JP, Kr. 2; [4]) b. v. Kr. 2; [5]) Kr. 2; Hamraland, hin; [6]) Kr. 2; Hjarðar, hin; [7]) b. v. JP; [8]) sl. Kr. 2; [9]) þeinktum Kr. 2; [10]) b. v. JP, Kr. 2; [11]) Fors, á JP(!); [12]) b. v. Kr. 2; [13]) [b. v. JP, Kr. 2; [14]) b. v. JP, Kr. 2; [15] [Kr. 2; Anno 1460, 115, 126; Anno m. cd og Lx ár, JP.

AM. Fasc. LXVI, 10, frumritið á skinni. Öll innsiglin, nema hið síðasta, eru dottin frá.

strugsbref[1]).

Striugur kominn j ættina[2]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heÿra senda þorsteinn prestur ionson. halldor brandzson. þormodr helgason. haflide juarsson. besse gudmundzson ok jngimundr steiñson kuediu guds ok sina kunnigt giorandi. ath þa er lidit var fra hingatburd uors herra ihesu kristi þushundrut fiogr hundrut sextiger ara a natiuitas dag sancte Marie[3]) a hauskaulldzstaudum a skagastraund vorum uier j hia saum ok heÿrdum æ ord ok handaband þessara Manna þorualldz ionsonar af einne halfu en ions bergssonar af annare ath fyr nefndr ion bergsoñ selldi adr nefndum þorualldi jonsÿne iordina alla a strugi j langadal er liggr j gunnsteiñstada kirkiu sockñ vndan sier ok sinum erfingium med ollum þeim gognum ok giædum er fÿr greindri iordu hefer fÿlkt ath forno ok nÿo ok han uard fremtz eigandi ath. hier j mott gaf fÿr nefndr þorualldr ionson þriatige hundrada j ollum peñingum þeim sem adr nefndum þorualldi jonsÿne heñtadi betr ath luka en fÿr greindum ione bergsÿne hentadi ath taka. skylldi fÿr nefndr þorualldr ionson hafa luckt alla peñinga ath næstum fardogum firir adr greinda iord strug. skÿlldi fÿr nefndr þorualldr ionson hallda fÿr greindri iordu til laga en adr nefndr ion bergson suara lagariptingo a fyr greindri iordu.

ok til sannenda hier vm settum uier fÿr nefndir menn uor jnsigli firir þetta iardakaups bref skrifat var æ Moberge j langadal. sunnodagen næsta epter[3]) exaltacio sancte crucis æ sama æri ok fyrr segir.

---

## 204. 12. Október 1460. á Hólum.

Transskriptarbréf fjögurra manna.

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi; [2]) utan á bréfinu með hendi Guðbrands biskups; [3]) þ. e. 8. Sept.; [4]) Hér stendr f' (= fyrir) í frumritinu, en það fær ekki staðizt, því að það er 7. Sept.; hér mun því hafa misritazt f' í stað epter (= 21. Sept.).

AM. Fasc. XIV, 20, frumtransskriptið á skinni. Innsiglin eru dottin frá.

Þat giorvm vier sveinbiorn þorda(r)son. andres jonsson. prestar. benedict asgrimsson ok kolle magnusson. leikmenn. godum monnum viturligt med þessv woro brefe ath vær savm ok ýfer lasvm opit bref vorrs nadvgs herra kongs kristierns med hans heilv ok óskavddv hanganda insigle svo latanda ord epter ord sem hier seger.

[Hér kemr sýslubréf Ólafs biskups Rögnvaldssonar fyrir Skagafjarðarsýslu útg. af Chr. I. í Kaupmh. 29. Nóv. 1459, Nr. 187 að framan].

Ok til sanninda hier vm settvm vær fyrr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta bref skrifat a holvm j hialltadal a svnnudagin næsta firir festvm reliqviarvm anno domini m° cd° sexagessimo.

---

## 205. 16. Október 1460. á Hólum.

Guðríðr Oddsdóttir handabandar með samþykki Ketils Þórðarsonar bónda síns Ólafi biskupi Rögnvaldssyni alla þá peninga, er henni hafa til erfða fallið eptir Blíg Höskuldsson föðurbróður sinn, hvar sem þeir uppspyrjast, fyrir sextán kúgildi, einn ketil og eitt hross.

AM. Fasc. XIV, 19, frumrit á skinni. Öll innsiglin eru fyrir bréfinu. AM. Apogr. 3170.

vm blig[1]).

Þat giorvm vær þorkell þorgeirsson kirkiuprestur a holvm. geir vigfusson. prestar. asgrimvr jonsson. snorre odzson ok svein gvdmunzson profentumenn a holvm godvm monnum vitvrligt med þessu vorv opnv brefe ath þar vorvm vær j hia saum ok heýrdum a j biskupsbadstofvne a holvm ath gvdridur odzdotter handabandade med fullo samþvke ok handsale sins bonda ketels þorda(r)sonar vorvm nadvga herra ok andalegvm favdur herra olafve biskupe á holvm til fvllrar eignar honum ok heilagre hola kirkiv alla þa peninga sem henne hafdi til erfda fallit efter blig havskvldzson favdurbrodvr sinn ok hvar sem han

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

kynne þeim vpp ath spýria. hier efter gaf vor nadvge herra greindre gvdride tiv kugillde med leigubvrde af þessvm peningvm sem bligur hafde adr œt ok vtan gardz stodo. skýllde fyr sagdvr ketill þa sialfur vt taka ok vor herra biskupin skulldalaus hvort þeir peñingar feingizt edr ei.

Jtem gaf biskupin fyr nefndre gudride þav sex kugillde er stodv vnder þratt nefndum katli bonda hennar ok hann var holakirkiv skýlldugur ok þar til ein ketil ok eit hross.

Ok til sanninda hier vm settvm vær fýr nefnder menn vorr jnsigle fyrir þetta bref skrifat œ hollvm j hialltadal œ fimtudagin næstá fyrir festvm luce ewangeliste anno domini ꝳ° cd° sexagessimo.

---

## 206. 29. December 1460. í Hjarðardal.

Vitnisburðr fjögurra manna, að Indriði Hákonarson hefði selt Herdísi Einarsdóttur hálfa jörðina Höfða í Dýrafirði.

AM. Fasc. XXXVII, 7, transskript á skinni frá 1504.

Þath giorvm wer olafur prestur teizson og þesser leikmenn þordur gudmundzt(son). olafur magnusson. jon einarsson godum monnum kunnigth med þessu woru brefi ath þar worum ver j hia saum og heyrdvm a ord og bañdaband ath jndridi hakonarson medkendizt ath hann hefdi selt herdisi einarsdottur jordina hôfda halfan er lig(g)ur j dyrafirdi j myraþingum med vp(p)lagi ok[1]) samþýki gudrunar gisladottur konv sinar. Ok[1]) til saninda hier wm settum ver wor jncigle fyrir þetta bref skrifat j hiardardal j aunundarfirdi fimta dag jola arum eptter gudz burd- ꝳ° cccc lx (a)ra[2]).

---

## 207. 1460.

Máldagi Pétrskirkju á Eyri í Seyðisfirði.

Landshókasafn 108. 4to bls. 568 með hendi frá 19. öld »eptir bók skrifaðri 1606«.

---

[1]) Svo hér; [2]) ártalið er nú ekki full-ljóst í skinnbréfinu, en frumbréfaskrá Grunnavíkr-Jóns les úr því 1460.

Anno Domini 1460.

Peturskirkia a Eyre i Seidisfirdi á þridiung i heimalande. Land a Eyde fyrer €c. Uppsale 12c Jörd. liggia þær badar innann þíngár. 8c jörd á Ströndum er heiter Höfn med öllum vidreka. fiórdung i hvalreka i Bardsvík fyrer nordann Rekamark. enn áttúng fyrer austann. afriett á Vesturheidum med Hestfirde so mörgu gieldfie sem þeir eiga er á Eyre búa. og hertil 13c og 20 i frídu gótse og ófrídu.

Þetta innann kyrkiu: kaleikur og tvenn messuklæde. grallare og sequentiubók. sumarhlute ottusaungsbókar og psalltare. Klukkur 2 og 2 biöllur. 3 Ródukrossar. Maríuskrift. Péturs líkneske. Andres og Blasius líkneske. 2 altaresklæde. fontklæde. Tiölld um framkirkiu dúkalaus. Koparstikur 3. 2 steinspiölld. brík og Paxblad.

Þángad liggia Tiunder og Lýsetallar af 14 bæum.

---

208. [um 1460].

Dómr um Kross í Landeyjum, að jörðin skuli vera æfinleg eign Teits Helgasonar, en ekki Ásgeirs né hans erfingja, og eru tilgreindir rekar og landamerki jarðarinnar.

Landsbókasafn 108. 4to bls. 555—556, með hendi séra Jóns Haldórssonar í Hítardal »Efter rotinne B(refa) Bok Herra Gisla Biskups Jonssonar«. — Arnór Steindórsson, sem hér er nefndr, kemr og fyrir í Teitsdómi 2. Júlí 1459 (Nr. 172) og Hraungerðisdómi 23. Júlí 1459 (Nr. 174); mun því þetta bréf vera frá hér um bil 1460.

Sijdare hlute af urskurde um Jördena Kross og hennar Landamerke.

· · · · · · · gefa fyrer adurskrif(ada) Jörd x. tijge hundrada i öllum godum peningum. sagde hann Jördena eiga svoddan Reka og landamerke. ad þar læge xvjc fiöru fyrer landenu er Jörden sialf ætte. enn landeign ætte hun sionhending i openn Krossos. og i þufuna i Bläberiabreckum og þadan sionhending i þufuna er i flodenu stendur. og so midt i þufuna fyrer ofan Þorkelstade. sijdan ut i Asgeirsholt. þa rædur gardur ut i fliot. skyllde þad kaup sem eige. ef helmingakaup fyndest med þeim Helga og Sigrijde og hvört eiga þad sem ädur ätte.

Kom þar og fram̃ Bref Jlluga Biörgolfssonar og Jons Øgmundssonar. ad þeir voru i hia ã Vijdemyre i Skagafijrdi. ad Helge Styrsson fastnade Sigrijde Þorsteinsdottur. og var þa helmingafielag lagt med þeim og samþyckt af Pãle brodur hennar.

Nu ad skodudum ỏllum þeirra Brefum og skilrijkium leitst oss ỏll þaug Bref skiallegre og meir fylgia lỏgunum. sem Teitur þar fram bar. þvi ad so profudu. sem fyrr skrifad stendur og tilkỏlludum hinum bestum monnum er hier med mier voru og mier samþickiande i doms sæte sitianda og logliga tilkrafdur laganna vegna sagda eg i guds nafne Amen med fullu doms atkvæde og laganna urskurde Jỏrdena ã Krosse i Landeyium Teite Helgasyne til fullrar eignar og friãls forrædis undan asgeire og hans erfingium enn under Teit og hañs Erfingia med ollum þeim hlutum og hlunnendum. rekum og landamerkium. sem fyrr seiger og svaren voru af skilrijkum vottum fyrer Odde Þordarsyne lỏgmanne og jỏrdunne eiga ad fylgia ad fornu og nyu. Skal þesse vor domur og urskurdur standa og obrygdelega halldast um alldur og æfe þeirra i millum.

Og til sanninda hier um sette

Pall Magnusson.
Gudmundur Jonsson.
Eigell Bessason.
Gudmundur Ormsson.
Arngrijmur Haflidason.
Arnor Steindorsson. logrettumenn.
Haflide Palsson.
Þorsteinn Arnorsson.
Hallsteinn Þorsteinsson.

[sin innsigle fyrer þetta bref[1]).

---

[1]) [vantar í hdr. Á spássíu á handritinu stendr: »NB mun þetta ei Teitur sem sellde Bijrne Þorleifssyni Kroz sem siest af solubrefe Olufar loptsdottur til Magnusar Jonssonar 1471. Enn Biorn do 1467 og er þetta Bref giort firre«.

209. 11. April 1461. í Möðrufelli.

Björn Þorsteinsson selr Einari Árnasyni jörðina Kristnes í Eyjafirði, að tilgreindum landamerkjum og ítökum.

Frumbréfasafn Jóns Sigurðssonar Nr. 4. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru dottin frá. Þveingirnir eru enn við.

Kristnes Bref.
vm itolu hinu meigin ā[1]).

Þat giorvm vier olafr helgason augmundr gudleiksson magnus starkadarson Godvm monnvm kunnikt med þessu voro brefi þa er lidit var fra hingadbvrd vors herra jesu christi þusund c. c. c. c. ok sextiger ok eitt ær j modrufelli j eygiafirdi laugardaginn j paskaviku voru vier j hia saum ok heyrdum æ handabaud þessara manna einars arnasonar af einne half(u) ok biarnar þorsteinssonar systrsonar hans. at svo fyrir skildu at nefndr biörn selldi greindum einari jordina j kristnesi j eygiafirdi til fullrar eignar svo mikid sem hann atti j jordunni ok honum fell til rettra erfda epter þorstein fodr sinn ok helga brodr sinn med öllum þeim gögnum ok giædum (sem) jordunni fylger ok fylgt hefdi at fornu ok nygiu ok hann vard fremz eigandi at. sagdi greindr biörn kristfe vpp j jordina æfinliga kvengilldum omaga ok selfaur j kuigendesdal fram fra þremi öllu bvi ok hrossum. torfskvrd j aungulstada jord sem jordunni þarfaz. teiga fyrir handan æ. kirkiu teigr halfs manadar verk. kirkiu holmr. jjjj. daga slatta. skalar teigr viku verk. er halfkirkiu skylld æ jordunni ok lambseldi fra munkaþueræ. ok vetrarbeit vpp yfir faxakelldu.

Hier j mot gaf fyrr nefndr einar fimtige hundrada ok eitt hundrad ok fimm aura. skylldi[2]) þetta jardar verd rett lukt j öllum peningvm. eyri silfurs j krossu(m) edr ödrum godum þingum fyrir hundrad. tuær voder fyrir hundrad.

j sama handabandi selldi þrattnefndr biörn optnefndum einari jordina hialmstadi þar vpp fra jd næsta til fullrar eignar med öllvm þeim giædum ok gögnum sem þeirri jördu hefer fylgt at fornu ok nygiu.

---

[1]) Aptan á bréfin með hendi frá 17. öld; [2]) skylldu, frbr.

hier j moti gaf þratt nefndr einar þriatigi hundrada rett lukt j øllum peningum sem fyr var skilid.

Skylldi einars eign jardernar at næstvm fardavgvm ok hans eignar vmbod standa næsta þrenna tolf manudi yfer þessvm peningum øllum sem kom(u) fyrir greindar iarder.

ok til sanninda hier vm settvm vier fyrr nefnder menn vor jnnzsigli fyrir þetta bref skrifad j modrufelli logardagin næsta fyrir vppstigni(n)gardag æ sama ari sem fyr seger.

---

210. 19. April 1461. á Söndum í Dýrafirði

VITNISBURÐR Snorra prests Bjarnasonar um skóg Hagakirkju í Morudal.

AM. Apogr. 1118, eptir frumriti frá Haga á Barðaströnd. »Innsigled er burtu« (AM.).

Þath giorer ek snorri prestr biarnason godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefi ath ek hefi verit ok vpp uaxit j haga a bardastraund ok þar j sueitum daulum talknafirdi ok rau[d]asandi þriatigi vetra eda leingur ok þa er ek var j haga for ek j skog med hagamonnum fram j mørudal til elldiuidar j milli aulldugils ok hagagardz. ok var þessi sami skogur eignadr kirkiunni j haga akallzlaust. Ok minn fader keypti iørdina tungumula ok atti marga vetr ok selldi audrum epter ok eignade sier alldri þenna skog suo eg heyrda.

Ok til sanninda hier vm setta ek mitt insigli fyrir þetta vitnisburdarbref skrifat a saundum j dyrafirdi sunnudaginn næsta fyrir jonsmessu holabiskups vm vorit þa er lidit var fra hingatburd vors herra ihesu christi þusund cccc° lx° ok eitt ær.

---

211. 19. April 1461. á Reynistað.

AGNES priorissa á Stað í Reyninesi og allar konventusystr á Stað lofa Ólafi biskupi Rögnvaldssyni hlýðni og fullum trúskap sem þeirra formanni, og lýsa því, að Þorleifr Árnason hafi hvorki feingið umboð á þeirra né klaustrsins peningum.

AM. Fasc. XV, 2, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. AM. Apogr. 3171.

bref systrana a stad[1]).

þath giorum uær sýstur agnes priurýssa ath stad j Reynenesi ok allar conuentusystur sagdz klausturs godum monnum niturlight med þessu uoru brefui ath ver haufum lofat vorum uirduligum herra ok andaligum faudur herra olafi med gudz nad biskup ꝏ holum uore hlýdne ok fullum truskap epter þui fremsta sem oss ber vorum Rettum formanni ath giora. vpp a vors klausturs[2]) uegna. skulum uær aunguan radzsman firir uort klaustur settia ne nockra speniñgh ne kosnad vpp ꝏ þat tacka ne nockrum storkaupum kaupa edr kaupa lata nema med uors naudughs[3]) herra Rad ok samþýki. Suo ok eigi sidr haufum uær ecki vmbod feingit þorleifi arnnasyni ꝏ uaru klaustri eda klaustur(s)ins peninga.

Ok til sannenda hier um settum vær vort capitula jncigli firir þetta bref skrifat ꝏ stad j Reýnenesi sunuddaghinn[3]) næsta firir jons messo hola biskups vm uorit. anno domini ꝏ⁰. cd⁰. lx⁰. primo.

---

212.. 24. April 1461 á Reynistað.

Ólafr Rögnvaldsson biskup á *Hólum* samþykkir skipti þeirra frú Barbaru abbadísar á Stað og Ólafs bónda Grímssonar á jörðunum Brúarlandi í Deildardal og Syðra-Vatni í Tungusveit.

AM. Fasc. XIV, ad 14, frumritið á skinni og er stungið saman við kaupbréfið frá 11. Sept. 1459 með innsigli biskups. AM. Apogr. 2973, 3169.

Vi olaf med guds nad biskvp ꝏ holum giorum ollum godum monnum uiturligt med þessv vorv opnv brefi at uær hofum samþýkt þessi somv jardakavp vid olaf grimsson sem hann keýpte med frv barbaru abbadisi ꝏ stad j reynesnesi ok þeira kavpbref her med fesst vottar ok holldum þat j allañ mata fullt ok logligt vpp ꝏ heilagrar kirkiu uegna ok uorra ok suo klaustursins.

Ok til sanninda her um settv vi vort jncigli fyrir þetta samþyktar bref er skrifad var ꝏ stad i reynesnesi fostudagin

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi; [2]) kluasturs, frbr.; [3]) þannig.

næsta epter jonsmessv holabyskvps a uorit anno domini Millisimo quadragintissimo sexagesimo primo.

---

213. 28. April 1461. á Reynistað.

Olafr Rögnvaldsson biskup á Hólum samþykkir prófentu Helgu Finnsdóttur á klaustrið á Stað í Reynisnesi.

AM. Fasc. XV, 8, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá. AM. Apogr. 2976.

Ví olaf med guds nad byskup a holum giorvm ollvm godvm monnum viturligt med þessu uoru opnu brefi at vær hofvm samþykt þa somv profenntv sem helga finnzdotter gaf til klavstursins a stad j reynissnesi ok bref hier med fest vottar ok holldum þat j allan mata fullt ok logligt vpp a heilagrar kirkiu vegna ok uorra ok svo klavstursins.

Ok til sannennda her vm settv ví uort jncigli firir þetta samþygtarbref er skrifat uar a stad j reynessnese þridiudaginn næsta epter jons Messv hola byskvps a vorid anno domini M° cd° lx° primo.

---

214. 30. April 1461. á Reynistað.

Þorleifr Árnason lofar Agnesi priorissu og öllum systrunum á Stað í Reynisnesi að taka hvorki klaustrið né þessa peninga og veita þar eingan styrk og eingi ráð til að það sé gert.

AM. Fasc. XV, 1, frumritið á skinni. Öll innsiglin (sjö) dottin frá. Bréfið er skemt af fúa. AM. Apogr. 2975.

Ollum monnum þeim sem þetta [bref s]ia edr heýra senda sigurdr þorlaksson. þorkell þorgeirsson. raugnualdr asgrimsson. prestar. brandr jonsson logmadr. olafr grimsson ok [benedi]ct asgrimsson. leikmenn. kvediu guds ok sina kvnnikt gerandi ath þa er lidit var fra hingatburd vors herra jhesu christi þushundrut .cccc. hundrut. lx. ok eitt ær fimtudagen næsta fyrir tueggia postola Messu filipi et iacobi a stad j reýninesi uoru uær j hia saum ok heýrdum a ord ok hanndaband þeirra sýstur agnesar priorissu a stad ok þorleifs arnasonar ath suo

fyrir skilldu ath hann lofadi henni ok ollum sýstrunum þar j klaustrinu ath hann skylldi huorki taka ne taka lata klaustrit a stad j reynesnesi ok aungua þæ penninga sem þat ætti fasta edr lausa frida edr ofrida ok onguan stýrk skylldi hann þar ueitta ok eingi rad þar til gefa leýniliga edr opinberliga ath þath væri giort ok eingi rad hefdi hann þar adr um giort ath nockur annar skýlldi þat giora.

Ok til sanninda hier um setti þorleifr arnason sitt jnsigli med uorum jnsiglum fýrir þetta sitt lofunarbref skrifat j sama stad dag ok ar sem fyr seger.

---

215. 2. Mai 1461. á Sveinsstöðum.

Dómr sex manna útnefndr af Egli Grímssyni sýslumanni í Húnavatnsþingi um högg, blök, hnéskot og jarðvörp, er Guðfinna Jónsdóttir kærði til Þorsteins Guðleikssonar.

IBfél. 309. 8vo bl. 117, Öxnafellsbók, með hendi Ara Magnússonar í Ögri c. 1620. Til samanburðar er hafðr »Iclis« séra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745) í IBfél. 67. 4to (bl. 45b—46), en til er dómr þessi í fjölda pappírsafskripta.

Domur vmm blauk knieskot og jarduðrp.

Þad giorum vier Oddur Brandsson. þosteinn Ormsson. Sigurdr þorsteinsson. yuar Steinsson. Orn[1]) Helgason og Gudmundur Helgason Godum monnum kunnugtt [med þessu opnu briefe[2]) ad þa lıjdit uar fra [hingadburde vorz herra Jesu christi 1461[3]) œr laugardaginn næstann firir krossmesso vm̃ vorit ä Sueinstodum j Vassdal vorum vier j dom nefnder af Eigle Grijmssýne er þa hafdi sýslu j Hunavass þinge at dæma [j millum[4]) þeirra þorsteinz Gudleikssonar og Gudfinnu Jonzdottir. kiærdi Gudfinna til þorsteinz. ad hann hefdi sleigit sig x haufuthaugg med hnefanum[5]) og xv ä bukinn og j[6]) jarduarp. iiij knieskot og sleigit eitt sinn firir briozit sier med fætinum. þar firir dæmdum vier hann laugliga[7]) firir kalladan firir þessa hennar ækiæru og skylldugann at luka[8]) gudfinnu v

---

[1]) Sveinn 67; [2]) [sl. 67; [3]) [fraa Lavsnarans fędingo M. CDLX og eitt, 67; [4]) [aa midli 67; [5]) hnefum 67; [6]) eitt 67; [7]) riettiliga 67; [8]) fyʀgreindri b. v. 67.

aura æ huoriu hnefahauggi þui er j hofut hennar[1]) kom og suo mikit æ iiij knieskotum sem æ iiij[2]) hnefahauggum. Enn æ jarduarpe og a þui hann slo fæti[3]) firir briost henne og a þeim hauggum er a bukinn komu xv.[4]) dæmdum vier xv. alnir æ huoriu þessu atuike. enn koñgi halfua mork ꝍ huoriu þui meira blakinu. enn xij alner æ þui minna huoriu[5]) firir sig. Skulu þesser peningar lukaz jnnann manadar ad heirdum dominum þar æ þingstadnum [kongs umbodsmanni i hõnd[6]). vtan firrnefndur þosteinn afbati med lirittar eide hinum minna epter bok firir sýslumanne j hunavass þingi jnnann halfz manadar ad heirdum dominum [þa skal hann kuittur vmm so mikit sem hann suer firir j hvori grein þessari[7]). og til sanninda hier vmm [setium vier firnefnder menn vor jncigle firir nedan þetta domzbref. skrifat æ þingEýrum j Hunauass þinge et cetera.[8])

---

## 216. 25. Mai 1461. i Vatnsfirði.

**Þrír** menn transskribera bréf um reka Vatnsfjarðarkirkju á Almenningum.

AMagn. Apogr. Nr. 896 »ex transscripto Vatzfiord.« með hendi Arna Magnússonar; »3 innsigle eru under brefinu«; um transskriptið segir Arni: »þetta transscriptum er i nockrum stöðum misskrifad, og dialecto allstadar umbreytt. eda stöfuninne«. Frumrit er nú í Landsb. XXXIX, 4.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda þeir sira sigurdr jonsson. sigmundr arnnason og jon jonsson leikmenn kuediu gudz og sina kunight giorandi ath wær saum og yfer lasum bref brodur jons æbota j widey med hans heilu og oskoddu hanganda insigli suo latanda ord eppter ord sem hier seiger. [Hér stóð bréf Jóns abóta frá 13. Júní 1377 um hvalreka Vatnsfjarðarkirkju á Almenningum, Dipl. Isl. III, Nr. 265; sbr. Nr. 266]. Suo og ei sidr saum wær samþykktar bref otgeirs biskups þar med fest war þetta bref med hans heilu og oskoddu hanganda jnsigli. Og til saninda hier wm siettu(!) wær fyʀnefnder men woʀ jnzsigli fyʀer þetta transkrippt-

---

[1]) b. v. 67; [2]) sl. 67; [3]) fetinum 67; [4]) [sl. 67; [5]) vantar i 67; [6]) [b. v. 67; [7]) [sl. 67; [8]) [et cetera 67.

um bref er giortth war j wadzfirdi manudaginn næsta eppter de sancta trinitate. anno. domini. ꝏ°. cd°. lx°. primo.

---

217. 1. Juni 1461. i Vatnsfirði.

Transskript þriggja manna af úrskurði séra Snorra kyngis $^{31}/_{8}$ 1366 um lambatolla Vatnsfjarðarkirkju.

AMagn. Apogr. Nr. 895 (eptir frumtransskriptinu).

Þeim godum mönnum sem þetta bref sia edur heyra senda þeir s(ira) Sigurdur Jonsson. Sigmundur Arnason og Jon Jonsson kuediu Gudz og sijna. kunnigtt giorande. ad vær säum og yferlœsum urskurdar bref Snorra prestz þorleifssonar officialis i Skꝍlholti med heilu og oskauddu hangandi Jnnsigli suo lætanda ord eptir ord sem hier segir. [Hér kemr bréfið frá 31. Aug. 1366 um lambatolla Vatnsfjarðarkirkju, Dipl. Isl. III, Nr. 179]. Og til sanninda hier um settum vær fyr nefndir menn vor Jnnsigli fyrer þetta Trañskriptarbref. er giortt var i Wattzfirdi mãnudagin næsta eptir De Sancta Trinitate Anno Domini ꝏ. cd°. lx. primo.

---

218. 9. Juni 1461 á Hóli i Bolungarvík.

Einar Markússon og Gró Jónsdóttir kona hans selja hústrú Ólofu Loptsdóttur og Birni Þorleifssyni jörðina Arnardal hinn meira að frá teknum sex hundruðum, er seld voru áðr Jóni Erlingssyni, fyrir jörðina Hanhól í Bolungarvík og þar til átta kúgildi.

AM. Fasc. XV, 9 frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Þrjú af þeim eru dottin frá. AM. Apogr. 5707 eptir frumritinu.

Bref firir arnnardalnum meira[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum uær þordur avdvnarson ok jonn þost(e)insson. jon ionsson

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi. Þar stendr og með hendi frá 17. öld: »Arnardalur. Landamerki medal arnardals og annara jarda«.

ok sigmvndur arnason kvediv guds ok vora kvnigt giorande. ad þa er lidit var fra hingatburde vors herra jesv christi þvshvndrut fiogur hvndrvt sextiger ok eitt ar æ hole j bolungarvik þridivdaginn nesta firer festvm barnabe apostvle uorvm uær[1]) þar j hia savm ok heyrdum ꝏ ord ok handaband þessara manna einars markvssonar ok grou jonsdottur konu hans af einne alfu enn olofar lofzdottur af anare. enn þat skildizt ok faldizt vnder þeira handabande ad þesse fyr skrifut hion einar ok groa selldu birne þollifsseyne[2]) til æfenlegrar eignar jord sina arnardal j skutulsfirde er ligur j eyrar kirkiv soknn med avllvm þeim gavgnum ok gædum sem greindre jordv feylger[2]) ok fylt hefer ad fornu ok nyu ok þau urdu fremz eigande ad ad fra skildum sex hundrada parte þeim er þau saugduzst sellt hafa jone ellinxseyne[2]) upp j adur greinda jord arnardal. saugdu þau bænusskylld [a jordune[3]) ok jordena jtakalausa ad frateknum þessum sex hundrada parte. enn oppt nefndur einar sagde þesse landamerke æ jordune ad brvdarhamre j mille sudavikur ok arnardals enn j mille kirkiubols ok arnardals jnn ad steinenum firer jnañ sialfan merarbas. en æ mille arnardalana nedan fra sionvm skilur langahryg(g)ur. þa æ enn minne arnardaluren fram þadan ad þvera firer nedan mvrtasel. hier j mote gaf adur greind olof lofzdotter tittnefndum hionum einare ok grou a uegna adur greinz biarnar þollifssonar[2]) jordena hanhol j bolvngarvik j hols kirkiusokn til fvllrar eignar med avllvm þeim gavgnvm ok gædum sem greindre jordu fylger ok fylt hefer ad fornv ok nyu ok fyrskrifadur biorn vard fremz eigande ad. skyllde fÿr saugd jord hanholl vera jtakalaus enda skÿllde hvn eingen jtavk eiga j adrar jarder. ok hier til atta kvgillde. skyllde þesser þratt nefnder menn biorn ok einar svara lagariptingum huor vm sig æ þeire jordv er sellde en huor þeira hallda til laga þeire er keypt hafde. svo ok eigi sidvr medkendizt þrattnefndur einar markvsson ok groa jonsdotter ad þav hefde fvlla ok alla peninga vpp borit firer adur greinda jord arnardal epter þvi sem þeim var adur lofat ok þvi gafv þes(s)e adurgreind hioñ einar ok groa þrat nefndañ biorn avllvngis kvittan ok akæru-

---

[1]) j, stendr hér í frbr., en því er ofaukið; [2]) þannig; [3]) [efst á spássíu og boðað hér inn.

lausan firer sier ok allvm sinvm erfingivm ok rettvm epterkomindvm vm adur greintt jardar verd. lofvdv ok oftnefnd hioñ einar ok groa j sama handabande ad selia þratt nefndvm birne þolleifssyne greinda jord hanholl þegar faul være fyr enn neinvm avdrvm.

Ok til saninda hier vm settum vær fyrnefnder menn vor jnsigle firer þetta jarda k(a)upa bref og kvitvvnar[1]) ok til meire sanninnda hier vm setta ek fyr greindr einar markvsson mitt jnnsigle med þessara godra mana jnsiglum firer þetta bref skrifat j sama stad deige ok are sem fyr seiger.

---

219. 9. Juni 1461. á Kirkjubóli.

Kvittunarbréf Indriða Hákonarsonar til Herdísar Einarsdóttur um tólf hundruð fyrir jörðina Höfða í Dýrafirði.

AM. Fasc. XXXVII, 7, transskript á skinni frá 1504.

Þath giori eg jndridi hakonarson godum monnum kunnigt med þessv minu opnv brefi at eg medkenunzt ath eg hefi vt tecit xij hundrud af herdise einarsdottur fyrir jordina höfda j dyrafirdi. þui giore eg adr nefndr jndridi fyrnefnda herdisi aullungis kuitta og akiærulausa fyrir mier og öllum minum eptterkomendvm af adurgreindvm peningvm. Og til saninda hier vm setta eg mitt jncigli fyrir þetta kuittunarBref er giort war a kirkivboli j avnundarfirdi þridiudagin næsta eptter ffestvm corpus christi þa er lidit var fra hingatburd vors herra jesu christi ꝏ° cccc sextier og eitt ar.

---

220. 16. Juni 1461. i Skriðu i Hörgárdal.

Jón Jónsson selr Jóni Sigmundssyni hálfa jörðina Lundarbrekku í Bárðardal fyrir hálfa jörðina Reistará á syðri Galmarsströnd og þar til sextán kúgildi og hest.

AM. Fasc. XV, 3, frumritið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú eru fjögur af þeim dottin frá.

Þat giörum vier magnus prestr asgrimsson. hallr einarsson. þordr ketilsson. magnus olafsson ok jon jonsson godum

[1]) Svo.

monnum kunnigt med þessu voru brefe æ vindheimum j hôrgardal æ jonsmesso holabiskups vm vorit[1]) vorum vier j hia saaum ok heÿrdum æ ord ok handaband þeirra jons sigmundzsonar ok jons jonssonar. þa er lidit var fra burd cristz þusund iiij hundrut sextiger ok eitt ær at suo firir skildu at adr nefndr jon jonsson sellde nefndum jone sigmundzsÿne til fullrar eignar jôrdina halfa lundarbrecku j bærdardal. med ôllum þeim gôgnum ok giædum sem ædr nefndre jôrdu halfri hefer fylgt at fornu ok nÿiu ok hann vard fremzt eigande at ok eigi er med lôgum vndan geingit. hier j mote gaf jon sigmundzson jone jonssÿne halfa jôrdina ʀeistaræ hina sydre æ galmarsstrônd er liggur j môdruvalla kirkiu sokn til fullrar eignar firir tuttugu hundrut med ôllum þeim gôgnum ok giædum sem henne hefer fÿlgt at fornu ok nÿiu halfri ok hann vard fremzt eigande at ok þar til sextan kugillde ok hest med þessum fridleika. vij. kyr. fiôgr gelldfiar kugillde at næstum fardôgum. kv og fiôgr kugillde at ôdru ære. skÿllde jon jonsson selia aptur þratt nefndum jone sigmundzsÿne fyrstum manna jôrdina halfa ʀeistaræ firir. xx. hundrut edr. xx. hundrada jôrd þa hann villde selia. kÿnne jons vid at missa þa skyllde eign jons sigmundzsonar jôrdin ʀeistaræ enn erfingium jons jonssonar adr greinder peningar edr. xx. c. jôrd. skÿllde jôrdin lundarbrecka afhent ok eign jons sigmundzssonar þar sem hun stædi þa er þesse giôrningr for fram. skÿllde huor suara lagariptingu æ þeirre jôrdu er huor þeirra sellde ôdrum. enn hallda þeirre til laga er huor keÿpti.

Ok til sannda hier vm settu vier fÿrr nefnder menn vor jncsigle firir þetta iarda kaups bref er giôrt var j skridu j hôrgardal þridiadaginn næsta firir botolfsvôku æ sama ære sem fÿrr seger.

---

221. 7. Juli 1461. á Möðruvöllum.

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. I, 1, transskriptið á skinni og eru bæði innsiglin fyrir.

Þath giorum wit þorkell þorkelsson (ok) olafur ofeigsson

---

[1]) þ. e. 23 Apr.

godum monnum witurligt med þessu ockru briefi þa lidit war fra hingath burd wors herra jhesu christi ꝏ. cccc. lx. og eitt æʀ ath uit sawm ok yfir laswm suo latanda brief arna einarssonar[1]) med hans heilu og oskauddu hanganda jnnsigli suo latanda ord eptir ord sem hier segir. [Hér kemur Grísarárbréf frá 7. Sept. 1400, Dipl. Isl. III Nr. 549]. Ok til sannenda hier um settum uit fyr nefndir menn ockur jnsigli fyrir þetta transkripta bref er gert war a maudruvaullum j eÿiafirde fimtadagin næsta fyrir translacio benedicti abbatis confessoris æ sama aʀi sem fyr segir.

---

222. 7. Juli 1461. á Möðruvöllum.

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. VI, 23, transskriptið á skinni. Þrjú innsigli fyrir. AM. Apogr. 135.

Þath giorum wier jon narfason. þorkell þorkelsson. olafur ofeigsson godum monnum witurligth med þessu woru opnu brefe. þæ er lidit var fra hingatburd wars herra jhesu christi. ꝏ. cccc. lx. ok eitt ær. at wier sawm ok yfir laswm suo latannda bref arna einarssonar med hans heilu ok oskauddo hanganda jnnsigli suo latanda ord eptir ord sem hier segir. [Hér kemr Grísarárbréf frá 26. Maí 1407, Dipl. Isl. III, Nr. 592].

Ok til sanninda hier wm settum uier fyrr nefndir menn wor jnnsigli fyrir þetta transkriptabref skrifath æ maudʀuwaullum j eyiafirdi fimtudagin næsta fyrir translacionem benedicti abbatis confessoris æ sama aʀe sem fyr segir.

---

223. 24. Juli 1461. á Breiðabólstað i Vestrhópi.

Vitnisburðr Þorkels Ásbjarnarsonar um Sigríðarstaðasand.

AM. Apogr. Nr. 3755 »Ex orig. Breidabolstad. Vesturhopens«. (AM.). »Ex originali, cuius integrum apographum habeo« (AM.). Innsigli Þorkels var fyrir bréfinu, þegar Árni lét afskrifa það.

Þat giorer eg þorkell asbiarnarson godvm monnum vitur-

[1]) þannig; á að vera Jóns prests Þórðarson.

lickt med míjnv opnv brefi at eg heyrda asbiorn abota alldri eigna sier nie stadnum æ þingeyrum leingra vestur yfer hoopsoos en j branzloon og j stavrgýgi og svo sionhending j gelldingafell æ skagastravnd. En alldri leingra svo at eg heýrda og var eg vistvm hia asbirni abota atta vetur j samt. hafa síjdan verit fimtiger vetra at eg for fra honum[1]). heýrda eg og alldrei tvimæli æ j þan tíjma at annar ætti sannden vestur fra fýr greindvm avrnefnvm En breidabolstadar kirkiv j vesturhoopi og sigríjdarstadi og j midian sigríjdarstadar vattz oos. vil eg hier epter sveria ef þurfa þikir.

Og til sannenda hier vm setta eg mitt jnzsigli fyrir þetta vitnisbvrdar bref. skrifat æ breidabolstad j vesturhoopi favstvdagen næsta epter Olafsmessv fýrri anno domini ꝏ⁰. cd⁰. lx⁰. primo.

---

## 224. 26. Juli 1461. í Flatey á Breiðafirði.

Ragna Auðunardóttir selr Birni bónda Þorleifssyni fjóra tigi hundraða í jörðunni Álptanesi á Mýrum fyrir þrjátigi hundraða jörð eða tuttugu og fjögurra hundraða jörð og sex kúgildi; skyldi kaupið óbrigðilegt, ef »minn herra kong Kristiern« vill láta það kaup haldast, er Vermundr Kolbeinsson kallaðist hafa keypt við hann.

AM. Fasc. XV, 4, frumrit á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá.

kaupbref biarnar firir altanesit[2]).

Þat giorum wær narfe þorwalldzson. þorlakur þorkelsson. biðrgolfur oddzson. magnus jonsson. aurnolfur eyolfsson ogh helgi jllugason godum monnum kunnigt med þessu woru brefui þa er lidit war fra hingatburd wors herra jhesu christi þusund fiogur hundrut sextiger ogh eitt ær. Sunnudaginn næsta efter wisi-

---

[1]) »N. seiger 1461. ad hann hafi vered atta vetur i samt hia Asbirne abota (ä þingeyrum) og seiger sidan sieu 50. vetur ad hann for frä hônum. Ergo sedebat 1411 et octo annis præcedentibus, et forte pluribus utrinque«. (AM.); [2]) Aptan á bréfinu með fornri hendi. Þar stendr og með hendi frá 17. öld: »kaupbref firir xlc j Alftanese a Myrum«.

tacio sancte marie[1]) æ mula j lundarreykiardal worum wær j hia sæum ogh heyrdum œ ord ogh handaband biornz bonda þorleifssonar af annari alfu. en raugnu audunardottur af anarri alfu ogh skildizt þat wnder þetta þeirra handabœnd at fÿrrgreind ragna selldi adr greindum birne til æwinlegrar eignar ogh frials forrædis fioritige hundrada j jordunne œlftanese a myrum med aullum þeim gaugnum ogh gædum sem greindri jordu fylger ogh fylgth hefer at fornu ogh nyiu ogh fyrrgreind ragna ward fremstz eigandi at. hier j mote gaf tittnefndur biornn þriatige hundrada jord eda fiogurra hundrada jord ogh tuttugu ef hann kynne ecki at fœ dyrre jord j borgarfirde ogh þar til sex kugilldi ef jordiñ feingizt ecki dyrri. hier til skylldi biornn gefa tuttugu hundrut ogh skylldi þar j wera. x. kugilldi ogh. x. hundrut j þarfligum peningum ogh skylldi þetta kaup obrigdilega halldazt suo framt sem minn nadig herra koug cristiern will læta staudugt stannda þat sœma kaup sem wermundr kolbeinsson kalladizt wid hann keypt hafa ogh hans bref þar wm wtwisa. skylldi fyrrgreind ragna suara lagariptingu a greindri jordu. enn þrattnefndur biorn hallda til laga. lofadi fyrr greind ragna fyrr nefndum birne ef hennar yrdi aull jordiñ med laugum at selia bondanum birne med jofnu werdi efter þui sem þeim kæmi saman wm hina partana j alftanesi.

Ogh til sanninda hier wm sættu wær fyrrnefnder menn wor jnzsigle firir bref skrifat j flateÿ a breidafirdi sunnudaginn næsta efter jacobsmessu œ sæma are sem fyrr segir.

---

225. 22. August 1461. i Skálholti.

Dómr tólf presta útnefndr. af Andrési Grændlendingabiskupi og umboðsmanni heilagrar Skálholtskirkju um síra Jón Jónsson í Hruna, er hafði sett sig ólöglega í kirkjunnar vald og gerst officialis; dæma þeir hann frá stað og embætti og fé hans alt í biskups vald.

AM. 768. 4to bls. 76—77 á pappír, skr. c. 1650. Sbr. Gr. h. M. III, 186—187.

---

[1]) þ. e. 5. Júlí.

Domur Andriesar Biskups er sig skrifar Biskup yfer Garda ã Grænlandi. Enn Vmbodzmann Skälholltz kyrkiu. Anno 1461.

Þad giorum vær Brandur Hognason. Helgi Jngialldsson. Oddur Petursson. Arni Biornsson. Steinmodr audunarson. Snorri Jonsson. arnor Halldorsson. Sveijrn Jonsson. Oddur Jonsson. Salomon Magnusson. Jon þorsteinsson. Jon Marteinzson. prestar Skälaholltz Biskupzdæmis. godum monnum kunnugt med þessu voru opnu Brefi. þa lidid var fra hingadburdi vorz herra Jesu Christi M cccc lx og j är. Laugardægin næstann fyrer Bartholomei apostoli vorum vier j dom nefnder af virdugligum Herra andreas med Gudz nãd Biskupi af Gordum ã Grænlandi og vmbodzmanne H(eilagrar) skalholltz kyrkiu. ad dæma vm þau mãl sem fyrr nefndur Biskup andres kiærdi til S(ira) Jons Jonssonar. ad hann hefdi sett sig ologliga j kyrkiunnar valld og halld fyrer officialem. giorandi so motblästur opinnberliga moti Erchibiskupsinz skipann og Capitulans af Nidarosi og fullu Biskupsins forbodi. Nu med þui ad þad var svarid af ij^ur skilrijkum vottum. ad stefna var lesiñ heima j Hruna. þar fyrer kyrkiudyrunum ã sialfz hans heimili og Biskupinn vrskurdadi logliga stefnuna. Og sakir þess. ad vær hofum fundid j kyrkiunnar logum. bædi j latinu og norrænu ad huðr klerkur edur klaustramadur sem ad þui verdur logliga profadur. ad hann syner sig med rongum motblæstri vidur sinn formann. sie af settur sijnum heÿdri epter kyrkiunnar logum. og fordist af ollum so sem frægdarlaus. epter fyrsogdum setningum kyrkiunnar. Suo og var þar suarid. ad fyrrnefndur Biskup Andres fyrerbaud adurnefndum sijra Joni Jonssÿni vnder banspijnu. ad bÿvara sig nockud vid kyrkiunnar valld edur starf j fyrra sumar ã þorlakzmessodag sialfann j domkyrkiunne a skälaholltti. þui dæmum vier fyrrnefnder prestar optnefndann sijra Jon Jonsson afsettann officio et beneficio. oc alltt hanz godz j kyrkiunnar valld. og Biskupsinz vernd og vardveytslu. þar til sem hann kemur til hlydni og giorer kyrkiunne fullann og riettann Reykningskap.

Og til sanninda hier vm settum vier fyrr nefnder prestar vor Jnsigli fyrer þetta doms Bref. huort skrifath var j Skälaholltti. ã sama degi og ari sem fyrr seigir.

226. **31. August 1461.** **i Haga.**

Hjálmar Snartarson lýsir því, að hann hafi eingin bréf útgefið um skóginn í Morudal og aldrei hafi hann innsigli átt og lofar Filippusi Sigurðssyni að staðfesta þessa lýsing með bókareiði.

AM. Apogr. 1119, eptir frumriti frá Haga á Barðaströnd. »6. innsigle hafa fyrer brefenu vered. eru nu øll burtu« (AM.).

Þadh giorum uær þorsteinn prestr þorarinsson. eyiolfur magnusson. þorleifur ormsson. olafur magnusson. augmundr eyiolfsson. oddr magnusson godum monnum uiturligt med þessu uoro opnu brefi uorum uær j hia sáum ok heyrdum æ upp æ bartholomeus messo dag[1]) j otradal j arnarfirdi þa er lidit uar fra hingadburdi uors herra iesu christi þusund cccc sextiger ok eitt ad philippus sigurdzson spurdi hialmar snartarson huort hann hefdi nöckut bref utgefit med sinu inzsigli um sinn uitnisburd um þann sama skog j moradal[2]) fra ölldugili ok fram ad hagagardi sem æ greiner vegna kirkiunar j haga æ bardaströnd ok iardarinnar j tungumula enn hialmar snartarson lysti þui firir oss fyrnefndum monnum ad þadh hefdi hann alldri giört ok alldri inzsigli átt ok aunguan umbedit ad giora sier inzsigli ok alldri hefdi honum inzsigli giört uerit ad sinu uiti edr uilia ok eingi bref ut gefit æ sina daga huorki um þenna uitnisburd ne annan. lofadi hialmar snartarson philippus sigurdzsyni med iæ ok handabandi at sueria epter þessi sinni lysing sem hier er skrifud fullan bokareid þegar hann uæri med logum til beiddur.

Ok til saninda hier um settum uær fyrnefnder menn uor inzsigli firir þetta bref skrifat j haga æ bardaströnd manudaginn næsta epter decollacio sancte Johannes baptista æ sama ari sem fyr segir.

---

227. **4. September 1461.** **á Skammbeinsstöðum.**

Andrés Grænlendingabiskup og umboðsmaðr heilagrar Skálholts-

[1]) þ. e. 24. Aug.; [2]) svo.

kirkju, veitir junkæra Þorleifi Björnssyni Hruna í Hrunamannahrepp, og gefr honum alt fé Jóns prests Jónssonar í þjónustulaun.

AM. 768. 4to bls. 78 á pappír skr. c. 1650. Finnr Magnússon sýnist ekki hafa þekt þessi bréf (þetta og Nr. 225), þó undarlegt megi virðast, þar sem þau eru í einu helzta handritinu af Grænlandsannálum. (Sbr.Grh. M. III, 186—87).

Brief Andries Garda Biskups 1461.

Wij andreas med Gudz nād Biskup af Gordum ā Grænlandi. og vmbodzmann heilagrar Skālholltzkirkiu. giorum godum monnum vitanligt med þessu voru opnu Brefi. ad vij hofum vnt og veytt vorum kiæra syni Junkiæra þorleyfi Biornssýni stadinn j Hruna til næstu fardaga med ollum sijnum (peningum) fostum oc lausum frijdum og ofrijdum. præter portionem Ecclesiæ. og hier til hofum vier vnt og gefid honum alla peninga fasta og lausa frijda og ofrijda. sem sijra Jon Jonsson hefur att. til fullrar eignar j sijn þionustu laun. þa sem affram ganga stadarins Jnnstædu j Hruna. huort þeir[1]) eru helldur a leigustodum edur annarstadar þar sem hann kann þa vpp ad spýria. oc (fyrer)biodum vier huerium manne ad hallda ologliga fyrrgreindum peningum fyrer honum edur hindra hann j nockurn mata hier vm vnder banz pijnu. Og til sannenda hier vm setium wij mitt Jnsigli fyrer þetta Bref. skrifad ā Skammbeinzstodum j holltamanna hrepp. fostudæginn næstann fýrer Mariumessu sijdari. þa er lidid var fra hingadburd vors herra Jesu Christi 1461 ar.

---

228. 26. September 1461. á Eyri í Bitru.
18. Júlí 1462. á Skarði.

Olafr prestr Tumason lofar Jóni Sveinssyni fyrstum kaupi á Eyri í Bitru, ef Björn bóndi Þorleifsson lofi og samþykki það.

AM. Fasc. XV, 5, frumritið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá.

Þat giörum vær loptur jonsson. sueinbiörn aronsson. helgi gudmundzson og brandr ionsson godum monnum kunnigt med þessu uoru brefi at vær vorum j hia. saum og heyrdum æ ord

[1]) þar, hdr.

og handaband sira olafs tvmasonar og jons sueinssonar at suo firir skildu at sira olafur tumason lofadi joni sueinssyni jordunni eyri er liggur j bitru fyrstum til kaups. suo framt sem bondinn biörn þorleifsson villdi nockut til leggia þeirra j millum. Lysti og fyrr nefndr sira olafr tumason firir oss at hann mætti sinar iarder aungum manni selia edr brutt fæ vtan bondinn biorn þorleifsson villdi þar lof til gefa edr samþycki. Suo og ei sidr lofadi sira olafur tumason fyr nefndum joni sueinssyni j þessu þeirra handabandi at koma sudr til skardz þad fyrsta som biörn þorleifsson heim kæmi og jon sueinsson giordi sira olafi tumasyni bod at koma. Lofadi og þratt nefndr sira olafr tumason joni sueinssyni firir oss at hallda þad allt stödugt sem bondinn biorn þorleifsson villdi vt af giora þeirra j millum. For þesse giörningur fram a fyrrnefndri jordu eyri j bitru laugardaginn næsta epter michaelsmessu þa er lidit var fra hingatburd uors herra ihesu christi. þusund fiogur hundrut sextiger og eitt ar.

Og til sanninda hier vm settum vær fyrr nefnder menn vor jnzsigli firir þetta bref skrifat a skardi a skardzströnd tueim nottum firir þorlaksmessu a sumarit. æri sidar en fyrr seger.

---

229. 13. Oktober 1461. i Asi i Holtum.

Haukr bóndi Einarsson selr Birni bónda Þorleifssyni jarðirnar Hvassafell í Norðrárdal, Grjót í Þverárhlíð og Háfafell í Dölum fyrir það, sem Björn bóndi átti í Tungufelli í Hreppum, jörðina Minni-Brú í Grímsnesi og enn tuttugu hundraða jörð.

AM. Fasc. XV, 7, frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru öll dottin frá.

bref firer þessum jordum er haukr selldi bonda birni huassafell ok griot ok hafafell.[1])

Þath giorum wær narfe þorvallzson. hallr jonson. bardr steinmodson. branndr sygurdzson ok gizur biarnarson godvm monnum kunnigth med þessv vorv brefe ath þæ er lideth war

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

fra hingathburd wors herra jhesv christi þusundrat cccc sextiger og eitt ar j skalhollte j biskupstungum sunnudagin næsta firer sancte crucis[1]) worvm wær j hiæ saum ok heyrdum ord ok hanndaband þessara man(n)a biarnar bonda þorleifssonar af einne alfv enn haugs einarsonar af annare ath suo firer skildv ath fyrr greindr haukr sellde adr nefnum birne til fvllrar eignar ok frials for(r)ædis jarder þriar er suo heita hvassafell j nordrardal er liggr j huamz kirkiu sokn ok griot j þverarhlid j nordtungv kirkiu sokn ok hafvafell j daulum er liggr j saudafellz kirkiu sokn med ollvm þeim gognvm ok gædvm sem greindvm jordvm fylger ok fylgth hefer at fornu ok nyv ok hann ward fremz eigande ath. lyste ok adr greindr haukur þvi ath hann sellde fyrgreindar jarder med vpplage ok samþycki gunhilldar konu sinnar. Hier j mote sellde fyrgreindr biorn adr nefndvm hauke suo mikith sem hann atte j iordunne tungufelle j hreppum eppter þvi fremzta sem[2]) jon narfason og jon einarson selldv honum. ok þar til jordina minne brv er liggr j grimsnese. hier til lagde bondenn biorn. xx. hundrada jord eins hueria þar sem bondanum hauke þætte sier bezth henntta ok hin(n) kynne ath fæ. skyllde titt nefndr haukur hafa til medferdar jordina stvfhollth j holltamannahrepp ok taka af leigu þar til er jordin feingizt. skyllde þetta jardakaup standa ok obrigdelega halldaz fyrr greindra manna j mille. skyllde huor suara laga riptingvm æ þeim iordvm er huor sellde avdrvm e(nn) h(vor) hallda þeim til laga er keyptte.

Ok til sanninda hier wm settvm wær fyr greinder menn wor jnnsigli firer þetta jardakaups bref skrifad j ase j holltamannahrepp þridiudagin næsta firer kalixtus messo a sama are sem fyr seger.

---

## 230. 3. Nóvember 1461. í Hjarðarholti.

Dómr tólf manna útnefndr af Guðina Jónssyni kongs umboðsmanni milli Skraumu og Gilsfjarðar um arf eptir séra Pál Ásbjarnarson, er Loptr Ormsson kærði til og hafði umboð á tekið,

---

[1]) þ. e. annaðhvort 26. Apr. eða 13. Sept., en líklega þó 13. Sept.;
[2]) tvískrifað í frbr.

og Gunnar bróðir séra Páls reiknaði að sér hefði fallið, en Kálfr Pálsson hélt arfinn eign Ara sonar síns, er honum hefði fallið í erfð eptir séra Pál föðurföður sinn.

Dómabók í 4to, sem eg á, og rituð er fyrir 1608 og þar um bil (= *a*); virðist muni stafa frá Þórði lögmanni Guðmundssyni eða Guðmundi syni hans; er þessi dómr á bls. 64—66. Á dögum Árna Magnússonar var bók þessi í eigu Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni (d. 1748). Bók þessi er hin sama, sem prentað er eptir Dipl. Isl. IV, Nr. 360, 361 og 363, og er komin í mína eigu frá Hannesi ritstjóra Þorsteinssyni. — AM. 211c. 4to bls. 122—125, skr. c. 1700.

## Domur vm halld a arfi rangligt.

Aullum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Gunnar Jonsson. Stephan Þorarinsson. Oddur pietursson. pietur finsson. finnur pietursson. Magnus þorlaksson. Eigill Magnusson. Jon Þorleifsson. Ottar Vermundzson. Skuli Þordarson. Þorgeir Þorgeirsson[1]) og Pall Þorsteinsson. kuediu Gudz og sina kunnigt giorandi at þa lidit uar fra hingadburd vors herra Jhesu christi. m. cccc. lx. og. j. ar a þridiudæginn næstann epter allra heilagra messo j hiardarhollti i laxardal. a þingstad riettum. vorum vær i dom nefndir af ærlegum manni Gudina Jonssyni. er þa hafdi syslu og kongs vmbod a millum Skraumu og Gilsfiardar. Ad dæma a millum Loptz Ormssonar og kalfs palssonar. huorra suara eda seckta at kalfur jrdi skylldugur firir þa akiæru sem Loptur kiærdi til hans. ad hann hefdi ad hallda þann arf og peninga sem fiell eptir pal prest asbiarnarson. Enn Gunnar Asbiarnarson[2]) reiknadi sier fallit hafa til arfs og eignar eptir sinn skilgetinn Brodur Pal prest. Enn kalfur palsson hiellt vera[3]) eign sonar sins ara kalfssonar og honum fallit hafa til arfs og eignar eptir sira pal heitinn faudurfaudur sinn.

Nv sakir þess ad Gvnnar Asbiarnarson[2]) leiddi tuo vitni er suo heita [. . . . . .[4]) Þormodardottir og Valgerdvr Olafsdottir[5]). suoru þessar fyrrgreindar konur[6]) suo felldan bokareid. ad þær væri fiormenningar ad frændsemi Steinunn Steinþors-

---

[1]) þordarson 211; [2]) Asbiarnarson 211; Biarna(r)son, *a*; [3]) b. v. 211; [4]) eyða fyrir nafninu í *a*; [5]) [Þormodur og Valgierdur 211; [6]) personur 211.

dottir er uar eiginkona kalfs palssonar og kristin Jonsdottir er adur uar Barnamodir kalfs enn hann fieck Steinvnnar.

Jtem j annari grein heyrdum vær fyrrgreindir domsmenn yfirlesin og yfir lasum Brief kirkiunnar formanna er suo heita Brandur prestur hognason og sira Snorra Jngimundzsonar suo latandi ad þeir vrskurdudu med laga vrskurdi huor vm sig þad sama hionaband olauglegt og ecki halldast meiga sem þrattgreindur kalfur hafdi samañ Bundit med Steinunni Steinþorsdottir konu sijna.

Jtem j þridiu grein gaf Gudridur Biarnardottir[1]) Sesceliu dottir sinni med samþycki dada sonar sins alla þa peninga sem henni hafdi til arfs fallit eptir Gunnar heitinn Asbiarnarson[2]) brodur sinn. [Enn þrattnefndum Gunnari eptir Pal (As)Biarnarson brodur sinn[3]). Enn fyrnefnd Sescelia Aradottir fieck Lopti Ormssyni[4]) sitt fullt og laugligt Eignarvmbod æ aullum þessum peningum til allrar ækiæru og laugligrar soknar.

Þui dæmdum vær fyrrnefndir domsmenn kalf palsson þar laugliga firirkalladañ og þad sama vmbod sem loptur hafdi af Sesceliu Aradottur laugligt i alla stadi og hann laugligañ soknara æ aullum þessum tiltnefndum peningvm.

Lysti kalfur þui firir oss ad hann hefdi feingit Birni þorleifssyni sitt fullkomligt laga[5]) vmbod. Enn vær dæmdum þad ecki afl hafa. eptir þui sem laugin vtuijsa. Enn vær dæmdum kalfi Palssyni fullañ Bokareid ad hann hefdi ecki vitad þessi mein og alldri hefdi honum saugd verid huorki af karli nie konu. og aunguañ heirdi hann seigia adur enn hann Batt sinn hiuskap med optgreinda Steinunni. Skylldi þrattnefndur kalfur þennan Eýd sueria ef hann være til fær jnnann manadar særra daga j hiardarhollti firir kongs vmbodzmanni Gudina Jonssyni suo fram̄t sem Eingin vitni kiæmi þau fram̄ er honum bæri eigi ad sueria med laugum. Skylldu tueir skilvijsir menn sueria med honum þennann eyd sem kunnugust være þessi malaferli. og jafnir ad Rietti uid hann og ef hann suer þennann eid eptir þui sem hann er skrifadur i þessu domsbrefi voru. þa dæmdvm vier ecki afl hafa þa akiæru.

---

[1]) Biarnadottir 211; [2]) 211; Biarnarson *a*; [3]) [sl. 211; [4]) 211; Oddzsyni *a*; [5]) b. v. 211.

Suo og eigi sijdur i annari Grein ef hann suæri eigi þennann bokareid eptir þui sem fyrrskrifadt stendur dæmdum vær allann þann arf og peninga sem fallid hafdi eptir sira pal heitinn asbiarnarson[1]). Sesceliu Aradottur og Lopti Ormssyni[2]) hennar vmbodzmanni til hallz og eignar kuika peninga og dauda jardir og kugilldi og syra pall heitinn hafdi eigi adur laugliga Burt gefid og kalf skylldugan ad afhenda Lopti Ormssyni þessa alla peninga ad næstum fardaugum auaxtarlausa. Ad suo profudu sem þa kom firir oss vndir sinn svarinn Bokareyd. huorsu micla peninga hann tok eptir sira pal heitinn. Skylldi þennann eyd sueria med honum tueir skilvisir menn. Skylldi loptur og lata sueria ad titt nefnd Sescelia hefdi honum suo ordit vmbod feingit sem hans bref vtvisadi. og Gvdridvr biarnardottur[3]) hafdi gefit Sesceliu Aradottur þessa peninga. Skylldi Loptur leitt hafa þessi saumu vitni firir næstu fardaga firir kongs vmbodzmanni þeim sem honum jrdi minst firir.

Og til sanninda hier vm setium vier fyrrnefndir domsmenn vor Jnnsigli firir þetta domsmenn skrýfad j hiardarhollti a sama deigi og ari sem fyrr seigir.

---

231. 18. December 1461. á Skjallandafossi.

Haldór Sveinsson selr Þórkatli Einarssyni Hjarðardal enn fremra í Dýrafirði hálfan »milli Skolladalsár og Hjarðardalslækjar«, og kvittar fyrir andvirðið.

AM. Fasc. XV, 6. frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Þath giore ek halldor sueinsson godum monnum viturligt med þessu minu brefe at ek hefe sellt þorkatle einarssene[3]) til æfinligrar eignar halfan hiardardal eñ fremra j dyrafirde at lig(g)ur j myra kirkiu sokn mille skolladalsar ok hiardardalslækiar ok miñ fader fieck mer hana med þessum landamerkium ok hann hugde hana suo at ek vissa med þessum landamerkium. hefer ek fulla ok alla peninga upp bored fyrir fyr greinda jord halfan hiardardal af þorkatle einarssene[4]) suo mic j allañ stad vel ænæger.

---

[1]) 211; biarnarson, *a*; [2]) 211; Brandzsyni. *a*(!); [3]) biarnad. 211; [4]) Svo.

skal ok halldor suara lagariptingum a greindre jordu en þorkell hallda til laga ok þui giorer ek hann kuittan ok akærulausan fyrir mer ok ollum minum epterkomendum um fyr greinda jord.

Ok til sanninda her vm setta ek mitt insigli fyrir þetta kuittunarbref giort a skiallandafosse faust(u)dag næsta fyrir tomasmessu postula þa er lidet var fra hingatburd vors hera jhesv cristi þusund cccc sextiger ok eitt ar.

---

232. 1461. 4. Marts 1470. á Lýtingsstöðum. —

Vottorð þriggja manna um prófentugjörning Haldóru Runólfsdóttur við Jón Magnússon.

AM. Apogr. 4213, afskript eptir frumbréfinu á kálfskinni frá Hallgrími Sigurðssyni á Svalbarði, gerð af séra Magnúsi Markússyni á Grenjaðarstað og staðfest af honum 19. Sept. 1726 og þorleifi Skaptasyni presti í Múla.

Þat giorum ver þoruardur prestur biornsson. Olafur grimsson. gudmundur hrafnsson godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi þa er lidit var fra hingatburd uors herra ihesu christi þusund. cccc. lx. ok eitt ar a lytingstodum i tungusueit voru vier i hiā saum ok heyrdum a ord ok handaband halldoru runolfsdottur af einni alfu enn Jon(s) magnusson(ar) af annare. skildizt þat under þeirra handaband at adur nefnd halldora gaf fyrrnefndum joni til fullrar eignar fiordungsgiof vr ollvm þeim peningum sem hon atti edur eigandi at yrdi ok svo allar þær lauggiafer sem hon matti fremzst med logum gefa en þa peninga sem hon atti meiri[1]) edr eiganda at yrdi selldi hon adur nefndum joni til fullrar eignar med fullu og logligu arfs sals kaupi skiliandi sier mot æfinligt framfæri ok profentu. mat og klædi epter þui. sem henne þarfadizt. suo ok eigi sidr ef ion giptizt ok kynne þeim eigi saman at koma þa skilli [hann fā henni[2]) ku sier til indælis. en ef jons kynne vit

[1]) krullað og óljóst; [2]) [þetta stendr svo í afskr.: hñ ꝼā hm̄, og ætti því að vera: »hann fá honum«, sem ekki er vit í; verðr því annaðhvort að lesa svo sem hér er gert eða: hun fá honum.

at missa suo hann ætti eigi skilgetit barn þa skylldi þrattnefnd halldora eiga. xx. hundrod med þeim skilmāla sem þeim kom þā saman sin i millum.

Ok til sanninda hier vm settum ver fyr nefnder men vor jncsigli firir þetta vitnisburdarbref er skrifa(t) var i sama stad lytingstodum sunnudagin j faustugang ix arum sidar en fyr seger.

---

## 233—314. 1461 og síðar.

Máldagar Ólafs biskups Rögnvaldssonar um Hólabiskupsdæmi.

Máldagabók þessi er hér prentuð eptir frumritinu á skinni, sem nú er í safni Árna Magnússonar 274. 4to (Rauðskinna), alls 36 blöð, en til hliðsjónar eru hafðar afskriptir Árna sjálfs af máldögum þessum, og finnast þær nú meðal Apogr. 3481—3561. Skinnbókin sjálf er víða máð og afarill aflestrar; er og þétt skrifuð víða og smátt, og á mörgnm stöðum á spássíur skrifað. Víða eru og eyður milli máldaga, sem ætlaðar hafa verið fyrir viðbótum, er til kynnu að falla. Eru og margar viðbætr í bókinni frá því sem upphaflega hefir verið ritað, og nær það nm alla tíð Ólafs biskups; nokkrar eru og yngri, þó eingar gerðar síðar en um daga Gottskálks biskups Nikulássonar. Hins vegar er stofn margra af máldögunum forn, og miklu eldri en frá dögnm Ólafs biskups; en ógjörningr var að fara að slíta það úr bókinni hér, sem fornt er, því ekki liggr það á lausu, og hitt þótti heldr ekki vert, að taka út þær greinar, sem yngri eru en frá dögnm Ólafs biskups, heldr þótti réttast að láta máldagabókina halda sér eins og hún er. Elzta ártalið, sem í bókinni stendr, er 1461 og þá er hún hafin, en síðasta ártalið er 1510. Þar sem ártalið ꟾꟾꟾ cd stendr, er það ekki svo að skilja, að það eigi að merkja 1400, heldr er því svo varið, að ártalið hefir ekki verið ritað fult út, heldr að eins npphaf þess. Þessi eru að minsta kosti þau ártöl, er í bókinni standa:

1461. Fyrirsögn, VI, XVI, XXXII, LII, LIII.
1463. VIII, IX, XV.
1464. VI.
1470. LXII.
1471. II, IV, V, VI, VIII, X, XI, XV, XVII, XVIII, XIX, XX, XXII, XXIV, XXXVI, XXXIX, XLIV, XLVb, XLVI, XL VII, L, LII, LIV.
1472. LVIII, LX, LXIV, LXVIII, LXIX, LXXI, LXXII, LXXIII, LXXIV.
1473. X, XXVII, XXXVII, XLII, XLVa, LI.
1475. L, LIX.
1477. X.
1478. III, V, VII, VIII, XI, XIII, XXII, XXXIII, XXXIV, XXXV, XL, XLII, XLVII, XLIX, L, LI, LIV.
1479. XXXVIII, LIX, LX, LXIII, LXVII, LXVIII, LXIX, LXXI, LXXII, LXXIII, LXXIV.
1480. IV, V, X, XI, XII, XIX, XX,

XXI, XXV, XXVII, XXXIX, XL, L, LII.
1485. VIII, XII, XXI, XXII, XLVI.
1486. LX, LXV, LXVI, LXX, LXXII, LXXIII, LXXVIII.
1487. IX, XXIV, XXX, XXXI, XLI, LII, LXXIX.
1488. LXXI, LXXII, LXXIII.
1489. LVIII.
1491. III, VI, XVII, XIX, XXV, XXVII, XXXIX, XLII, XLVII.
1492. XVI, LVIII, LIX, LX, LXII, LXXII.
1493. VII, XVI.
1494. XXXIV.
1498. LXIX.
1499. LXV, LXVIII.
1500. VI, XV, XXVI, XLIV, XLIX.
1510. XXII.

Ekki er því að gegna, að máldagabók þessi sé nú heil til, heldr er nú glatað úr henni, en óvíst hvað mikið. Ekkert er samt týnt úr bókinni síðan um daga Þorláks biskups Skúlasonar, að hann lét afskrifa hana 1639 (Biskupsskjalasafn 3. 4to) og 1645 (AM. 275. 4to afskr. c. 1700 gerð eptir afskriptinni frá 1645), því að í afskriptir hans vantar einmitt hið sama og nú vantar í frumritið, svo að það eitt gagn má nú af þeim hafa að nota þær til stuðnings, þar sem frumritið nú er orðið máðara en það var 1639. Á síðari hluta 16. aldar vitum vér það hins vegar, að ekki hefir verið týnt sumt það úr bókinni, sem nú er glatað þaðan. Í »Sópdyngju« séra Gottskálks í Glaumbæ: Add. Brit. Mus. 11,242. 4to finnast afskriptir af Bergstaðamáldaga, Hvammskirkjumáldaga í Laxárdal, upphafið á Mælifellsmáldaga og skýrsla um stærð Hólakirkju í Hjaltadal; ennfremr alkirknatal nyrðra. Af þessum máldögum er Hvamms- og Mælifellsmáldagi hér í bókinni og kemr alveg heim við afskript séra Gottskálks og hefir hann því ritað þá eptir Ólafsmáldagabók; en hinir máldagarnir og kirknatalið er nú týnt úr skinnbókinni, og má því fylla máldagabókina að þessu eptir »Sópdyngju«. Eru þessar uppfyllingar prentaðar hér sem LXXX—LXXXII að niðrlagi máldagabókarinnar.

Skinnbók sú, sem inniheldr frumritið að Ólafs máldagabók Rögnvaldssonar, og nú hefir verið frá sagt, að sé 274. 4to í safni Árna Magnússonar, er eins og fjöldi annara handrita, sem nú eru þar, ekki eign safns Árna, heldr Biskupsskjalasafnsins á Íslandi, því að Árni hefir feingið máldagabókina alla smám saman að láni frá Steini biskupi, og ætlað að skila henni aptr 1725, en það hefir fyrir farizt, og því er bókin nú í Árnasafni[1]). Á miðum, sem festir eru inn í skinnbókina, má ganga úr skugga um þetta. Á miða milli 1. og 2. bl. með hendi Árna sjálfs stendr: »fra Hr. Steine Jonssyne, biskupe, med Hofsoss skipe 1724. Eru 20 blöd. — Hier fyrer utan Rekaskraen ä $7^1/_2$ blade sem fylgdest med þessum Mal-

[1]) Auk bréfabókar Jóns biskups Vilhjálmssonar (AM. 235. 4to) og rekaskránna (AM. 276. 4to) skipta þau frumbréf mörgum hundruðum, sem nú eru í Árnasafni, en eru eign Biskupsskjalasafns Íslands, komin úr skjalasafni Hólastóls.

daga 1724. hana sendi eg til baka innbundna 1725. — 15 blöd verda þad sem eg til bokarinnar legg«. Á miða milli 13. og 14. blaðs: »Hier vantar oefad i bokena«. Er það einmitt þar sem nú vantar i Möðruvallaklaustrsmáldaga, en þó vill svo vel til, að bókatalið merkilega er í þeim hluta máldagans, sem eptir er. Á miða milli 17. og 18. blaðs hefir Árni látið rita: »þetta er ur Mäldagabok Olafs biskups Rögvalldzsonar. Vantar hier mikid framan vid, sem til hefur verid þä Copiurnar eru giördar j Herra Thorläks tid.« Og ennfremr með hendi Árna sjálfs: »þad mun enn liggia ä Holum og vera ringlad hier ur. Vide Registur M. Biörns og Oddz Sigurdzsonar in 4to membrana N. 3. þetta skal eg läta fylgia bokinne til baka 1725«. Á miða milli 22. og 23. bls.: »maldaga Bókar Slitur nockra kirkna i þijng Eyarþingi. og flestra i Vodlaþijngi med rekaskrá mukaþuerar Clausturs a Slettu[1]). og so af dato eptir ad taka ad verid haffi i tijd Olafs rogualldssonar Biskups. hann vard Biskup 1458. lijka gottskals sem fyrer hann uar. a atta pergamenttis Blödum«. Á miða milli 29. og 30. blaðs: »þetta skal og fylgia Maldagabokinne tilbaka 1725. Er allt skrifad, eñ vantar ad conferera«. Á miða milli 34. og 35. (sama hönd og á miða milli 22. og 23. bl.): »Vr Biskups Olaffs Rogualldssonar maldaga Bok. Vm Hunavatns þijng, þar lijka vp taldar halfkirkiur og Bænhus olæselegt. a Sio Blödum«. Að lyktum er þess getið á öðrum miða, er liggr á sama stað í bókinni, að Illugastaðamáldagi, Lögmannshlíðarmáldagi, Glæsibæjarmáldagi og kirknatalið hafi ekki orðið lesið, þegar Árni lét bera afskriptir sínar saman við frumritið.

Til skamms tíma var máldagabókin innbundin í fornt skinn, órakað og hárið rautt og sneri hárhamr út, og var það annaðhvort útselaskinn eða nautskinn (sbr. Fornbréfasafn II, 424), og þegar prentaðr var sá kafli af handritaskrá Árna safns í Nóv. 1888 (Katalog o. d. AMske Saml. I, 527), sem lýsir handriti þessu, var bókin enn í forna bandinu. En nú er búið að fletta hana því, og er forna bandið glatað. Er það illa farið, því að fyrir band þetta mun bók þessi í þjóðsögnunum hafa orðið Rauðskinna sú, er mestr galdr var í, og var í höndum Hólabiskupa. Það er virðingarverðr áhugi á því, að láta binda handrit inn, þegar þess er þörf, en sá áhugi kemr óheppilega niðr í því að fletta mörg hundruð ára gömlum frumböndum af skinnbókum, enda forðast öll þau söfn, er kunna með handrit að fara, það eins og heitan eld. Að glata slíkum böndum er sama og að glata forngripum, og má ekki eiga sér stað. Rómversku tölurnar við hvern máldaga hefi eg sett, eins og gert er fyrri í máldagabókum biskupanna.

Allvíða eru töluverðar misskriptir í skinnbókinni, og er það af þeim, sem helzt þótti horfa til baga, optast leiðrétt, og þess þá jafnframt getið neðanmáls, að svo sé.

---

[1]) nú AM. 276. 4to.

Jtem i tungu oc er vel standandi.

J grimstungu þingum.
Jtem a gudru(n)arstodum halfkirkia vppi.
Jtem i dall halfkirkia vppi.
Jtem j tungu bænhuss oc er nidre.
Jtem a haukagili bænhuss oc er vppi.

J vndenfells þingum.
Jtem j ase halfkirkia oc er vppi.
Jtem a brusastodum bænhus nidre.
Jtem a konsaa bænhus oc nidre.
Jtem a gilstodum bænhus oc nidre.

J asgeirsaar þingum.
a lækiarmoti kalfkirkia lit(t)standandi.
Jtem a audonarstodum bænhus vppi.
Jtem j galtanesi bænhus v(p)pi.
Jtem i dal bænhus nidre alz.

J stadarbacka þingum.
Jtem halfkirkia a biargi vppi.
Jtem kirkia a þorfastodum.
Jtem a rofu bænhus vppi.
Jtem a barkastodum bænhus vppi.

med kulu þingum.
j hollti bænhus vppi.
j liotzholum bænhus vppe.
a snæringstodum bænhus vppe.
a hrafnabiorgum bænhus nidre.
a grund bænhus nidre.
a greithavmrum bænhus nidre.

J Melss þingum.
Jtem a suertingzstodum bænhus vppi.
Jtem a saondum bænhus vppi.
Jtem a balkastodum bænhus vppi.
Jtem (a) þuridarstodum bænhus vppi.

J tiarnastadar þingum.
Jtem a illugastodum halfkirkia vppi.

Jtem i saurbæ fiordungskirkia nidre.

J hola þingum.
Jtem a ægissidu halfkirkia nidre.
Jtem a asbiarnanesi halfkirkia nidre.
Jtem a krossanesi bænhus vppe.
Jtem a valdalæk bænhus nidre.

J hauskulstadar þingum.
Jtem i skipatungum halfkirkia lit(t) standandi.
Jtem a ey halfkirkia uppi.
Jtem fiordungzkirkia a backa oc a vatnahuerfui lit(t) standandi oc a hafstodum fiordiungs kirkia aull nidre oc a kirkiubæ f[iordungs] kirkia nidre.
Jtem a manaskala bænhus vppi.

J spakonufelz þingum kirkian nidre.
Jtem a vindæli halfkirkia vppi.
Jtem a vakurstodum bænhus nidre.

J hofs þingum a skagastrond.
Jtem a harastodum bænhus nidre.
Jtem a [hofn] bænhus vppi.

J þingeyra þingum.
Jtem a gilia halfkirkia nidre.
Jtem a steinnesi bænhus vppi.
Jtem a sueinstodum bænhus vppi.
Jtem a akre bænhus vppi.
Jtem a brecku bænhus vppi.

J breidabolstadar þingum.
Jtem j midhopi bænhus vppi.

J hialtabacka þingum.
Jtem a þorfalæk halfkirkia vppi.
Jtem a medalheime bænhus vppi.
Jtem j holte bænhus lit(t) vppi.

J huams þingum ein alkirkia til saungz.

J maarstadar þingum.
Jtem a biarnastodum bænhus vppi.
Jtem a hiallalande bænhus nidre.

LXXIX.

anno domini ꝏ cd lxxx septimo þa er biskup olaf reid j visitacionem nordr Reiknadizt suo margar halfkirkiur oc bænhus.

j fellz þingum.[1])

halfkirkia æ skala oc er uppi.
[Jtem] bænhus a tiornvm oc er rotid.
[Jtem] bænhus a brædra ok er ecki uppi.
[Jtem a arnar]stodum bænhus ok er ecki uppi.
[Jtem a hrauni] bænhus ok er ecki uppi.
[Jtem a hei]di. bænhus ok er ecki uppi.

[J bardz]þingum.

halfkirkia j nesi ok er uppi.
[j haga]nesi halfkirkia ok er uppi.
[Jtem a grilli] bænhus uppi.
Jtem a reykivm bænhus uppi.
Jtem a s[iound]astodum bænhus vppi.
Jtem a yzta moi bænhus litt standanda.

[J holltz] þingvm.

halfkirkia j hvammi.
[Jtem j lamba]nesi alkirkja ok er litt standandi.
[Jtem a biarnargili] bænhus ok er vppi.
[Jtem a bruna]stodum bænhus ok er vppi.
Jtem a slettu bænhus ok er nidri.
[Jtem a reykiar]holi bænhus ok er litt standanda.

[J hnappsta]dar þingvm.

halfkirkia j tungu litt standandi.
[Jtem a nef]stodum bænhus ok er uppi.
[Jtem a gautu]stodum bænhus ok er nidri.

[J kuiabeckiar]þingvm.

Jtem a þorisstodum halfkirkia litt standandi.

---

[1]) Sá kafli, sem nú fer á eptir, er mjög máðr í skinnbókinni, og er að nokkru einungis læsilegr gegnum afskript þorláks biskups frá 1639, því að þá hefir skinnbókin verið ómáðari en nú; er það sett hér í hornklofa, sem eptir henni er tekið.

Jtem j hornbreckv bænhus litt standanda.
[Jtem a] kalfsa ok er nidri.
. . . . . bænhus ok er vppi.
. . . . . bænhus ok er vppi.

Jtem j upsaþingum.
Jtem a holi bænhus ok er ecki uppi.
Jtem a hrafnstodum bænhus ok er uppi.
Jtem a grund alkirkia til saungs ok er uppi.
Jtem a hollti bænhus ok er uppi.

Jtem j valla þingum.
Jtem a halsi halfkirkia ok er nidri.
Jtem a saucku bænhus ok er litt standande.
Jtem a hnuki bænhus ok er uppi.
Jtem a hvarfi bænhus ok er uppi.
Jtem a hofi bænhus ok er ecki uppi.
Jtem a þuera bænhus ok er ecki uppi.

J asskogs þingum.
Jtem a synzta bæ j hrisey alkirkia til saungs ok er nidri.
Jtem a yztabæ bænhus ok er nidri.
J hellu halfkirkia ok er nidri.
Jtem a sela bænhus ok er nidri
Jtem j asskogi bænhus ok er nidri.
Jtem a hamundarstôdum bænhus ok er nidri.
Jtem a kalfskinni bænhus ok er uppi.
Jtem a brattauavllum bænhus ok er uppi.

Jtem j grytubacka þingum.
Jtem a greiniuik halfkirkia [ok] er ecki uppi.
Jtem a suinærnesi bænhus ok er ecki uppi.
Jtem a bardatiorn bænhus ok er uppi
Jtem a hvammi bænhus ok er uppi.
Jtem a hialla bęnhus ok er uppi.
Jtem j bringsdal bænhus ok er ecki uppi.
Jtem a latrum bænhus ok er ecki uppi.

J þaunglabacka þingum.
Jtem j keflavik bænhus ok er ecki uppi.

J laufas þingum.
Jtem a nesi halfkirkia ok er uppi.
Jtem a þuera halfkirkia ok er uppi.
Jtem a lomatiorn bænhus ok er uppi.
Jtem a skardi bænhus ok er uppi.
Jtem j miduik bænhus ok er uppi.

Jtem a[1]) stadar þingum.
Jtem a biorgum bænhus ok er uppi.
Jtem a granastodum bænhus ok er uppi.
[Jtem] a halsi bænhus ok er uppi.
Jtem a gudmundarstodum bænhus ok er uppi.
Jtem a felli [bænhus ok er uppi].
[Jtem a leikskala bænhus].
. . . . . . . . . . . . . . .[2])

## LXXX.

[Add. British Museum 11,242. 4to (FMagn. 206) bl. 17b. Syrpa séra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ skr. 1543—91; eru hér ritaðir fjórir máldagar kirkna fyrir norðan land: Bergstaðamáldagi, máldagi Hvamskirkju í Laxárdal, upphafið að Mælifellsmáldaga og klausa um stærð Hóladómkirkju. Í máldagabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar vantar nú mikið eins og hún er til vor komin, og stendr þar nú ekki Bergstaðamáldagi og heldr ekki klausan um Hólakirkju. En Mælifellsmáldagi og Hvammsmáldagi er þar, og sést á samanburði við þá, að séra Gottskálk hefir ritað sína afskript af þessum máldögum beint eptir máldagabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar. Þegar nú máldagi Bergstaðakirkju, eins og hann er hjá Gottskálk, kemr ekki saman við aðra máldaga, er vér þekkjum, þá liggr beint við að álykta, að hann sé ritaðr upp úr máldagabók Ólafs biskups meðan hún var fyllri en hún nú er, og verðr að ætla, að það sé með öllu víst. Aptan við klausuna um Hólakirkju er þess getið, að graptarkirkjur í Norðlendingafjórðungi sé 110 að tölu. Á öðrum stað í Syrpu séra Gottskálks finst kirknatal nyrðra alls 107, en blaðið, sem það er á, er skemt af fúa, svo að þrjú nöfn geta vel verið rotnuð úr. Í máldagabók Ólafs biskups er enn skrá yfir bænhús og hálfkirkjur, og er þá æðilíklegt, að þar hafi verið taldar alkirkjur líka, og ætla eg víst að þetta kirknatal sé þaðan, en nú er það ekki leingr til í bók biskupsins. Það eru allar líkur til, að máldagabækr Hólastaðar hafi verið allar heilar að mestu enn á dögum séra Gottskálks].

---

[1]) j, afskr. 1639; [2]) ein lína ólæsileg

maldagj bergzstada kirkiu.

Kirkian æ bergzstodum er helgud med gude enum heilaga olafi oc þorlaki biskupi.

hun eigr alla heimajord oc halfan forsadal. med allre jardar eign haga oc husa oc allra landznytia framan til rietta firir avstan oc þar gegnt firir vestan u[tan] vpphogguid gras fra jonzmesso baptiste oc til fiogra vikna. þann tima skal ei til beitar leggiazt dalrenn en skipe þess j millum med iafnadi. stadren eigr oc husgiord j dalnum sem hafa uill. skal bondi sa sem byr j stafne fa savdamanne fra bergstodum hvsrum. ketil oc elldiuid. dryck oc vinnu oleigiz sem sinum [monnum] eda lata geyma sialfr oc hafi eyri æ fimtan saudi. eitt gellt naut skal uera med kuneytum j stafne huert sumar [ef sæ uill] er æ bergstodum byr.

## LXXXI.

Add. British Museum 11,242. 4to (FMagn. 206) bl. 17b Syrpa séra Gottskálks í Glaumbæ skr. 1543—91. Er þetta tekið eptir máldagabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar (sbr. LXXX).

Kirkian æ holum j h[i]alltadal eigr suo long at vera. L. alna laung. en. xuij. alner langr stopullen oc suo breidr. en framkirkian nitian alna breid. en um stuku[r]nar. xu. alna oc. xx. breid. en koren. xvij. alna. en hæd framkirkiunnar half þridia alen oc. xx. oc. ij. þuerfingr betr.

Graptarkirkiur j nordlendinga fiordungi. LLx.[1])

## LXXXII.

[Add. British Museum 11,242. 4to (FMagn. 206) bl. 10b. Syrpa

[1]) = ellefu tigir = ellefutíu = 110. — Í kveri einu í safni Árna Magnússonar, sem skrifað er c. 1616 (AM. 193. 8vo III, bl. 11) er klausa ein um stærð Hólakirkju, sem virðist munu stafa einmitt frá þessari skrá, því þó að orðfærinu og niðrskipun sé breytt, er efnið alt hið sama:

»Stærd Holakirkiu.
framkirkian 50 Alna. Enn a Breidd 19 Alner.
Stukurnar 35 Alner.
korenn ad leingd 17 Alner.
kirkian ä hæd $23^1/_2$ Alen og. 2. þumlungar betur.
Stopullenn 17 Alna langur og so breidur«.

séra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ skr. 1543—91, og er þetta án efa ritað eptir máldagabók Ólafs biskups Rögnvaldssonar á meðan hún var enn heil. Í bréfabók Jóns Vilhjálmssonar er kirknatal og presta fyrir norðan land, en auðsætt er að ekki er þetta afskript af því. Blað það, sem kirknatalið er ritað á, er mjög skemt af fúa.]

[Þ]essar eru kirkiur i holabiskupzdæme.
æ savdanese prestskylld.
æ svalbarde prestr.
[j] holvm prestr.
[j] hafrafellztungu prestr.
[æ] skinnastodum. ij. prestar.
[j æs]e prestr.
[j g]arde prestr.
[j h]vsavic. ij. prestar.
[j ne]se prestr.
[æ] greniadarstodum. iij. prestar oc. ij. diacnn.
[j m]ula. iij. prestar oc ij. diaknar.
[æ] helgastodum prestr oc diakne.
[æ eina]rstodum. ij. prestar.
[æ þ]veræ prestr.
[æ skut]ustodum prestr.
[æ lun]darbrecku prestr.
[æ] st[ad] j kinn [prestr oc diakn].
[æ eyar]dalsæ prestr.
[æ liosa]vatne prestr oc diacne.
[æ þö]nglabacka prestr.
[æ ha]lse. ij. prestar oc diakne.
[æ dra]flastodum prestr.
[æ ill]ugastodum. ij. prestar.
[j l]aufase. ij. prestar oc diacn.
[æ gryt]vbacka prestr.
[j hof]da prestr.
[æ s]valbarde prestr.
[j kau]pange prestr.
[æ mvn]kaþuera prestr oc. ij. diaknar.
[æ modru]vollum ij prestar oc diakn.
[j nvpvfelli] prestr oc diakne.
[j holvm j e]yafirde prestr.

[j savrbæ]. ij. prestar oc diakne.
j miclagarde prestar. ij.
æ grvnd. ij. prestar oc diakn.
æ hrafnagile. ij. prestar oc. ij. diaknar.
j hlid prestr.
j dal prestr.|
j glæsebæ prestr.
æ modruvollum j horgardal prestr oc. ij. diaknar.
æ bæisæ prestr oc diacn.
æ backa prestr.
æ myrka prestr.
æ yxnhole prestr.
æ laugalande prestr.
æ audbrecku prestr annat huert ar.
j arskoge prestr.
æ vollum. ij. prestar oc diakn.
æ vrdum prestr.
æ tiorn prestr.
æ kuiabeck prest[r] oc [.ij.] omaga prestar.
æ siglunesi prestr.
æ barde prestr.
j hrisey prestr.
æ hnapstodum.
æ felle prestr.
æ hofda prestr.
æ hofe prestr.
j grimsey prestr.
æ miclabæ. ij. prestar oc diakne.
æ holum. iiij. prestar oc. iiij. diacnar.
æ uiduic prestr.
æ rip prestr.
j ase [prestr].
æ þuera prestr.
æ flugumyri prestr.
æ videvollum prestr oc diacn.
æ silfrastodum prestr.
æ hofe prestr.
æ goddolum. ij. prestar.

a mælefelli. ij. [prestar] oc diacn.
a reyk[i]um prestr.
a uidimyre prestr.
j hollte prestr.
j glaumbæ. ij. prestar oc diakn.
a reynestad. ij. prestar oc ij. diacnar.
a borg prestr.
a fagranese prestr.
j huamme prestr.
a hofe prestr.
[a] spaconufelli prestr.
a hoskulldzstodum. ij. prestar oc diakn.
a holltastodum. ij. prestar oc diacn.
a gunsteinstodum prestr.
j hlid einn prestr.
a Bergstodum prestr.
j holum prestr.
a svinavatne prestr.
a kvlu. ij. prestar [oc] diacn.
a þingeyrum prestr oc. ij. diacnar.
a marstodum prestr.
j hvame prestr.
j grimstvngum. ij. prestar oc diakn.
[a] vndenfelle prestr.
[a] breidabolstad prestr.
[a hiallta]backa prestr.
[j holvm j blavndvdal] prestr.
[j vididals]tungu. ij. prestar oc diacn.
[a breidabolstad]. ij. prestar oc. ij. diacnar.
a holum j vestrhope[1]) prestur oc omagaprestr.
a tiorn prestr.
a kirkiuhuame eirn prestr.
a mel. ij. prestar oc diacn.
a stadarbacka. ij. prestar oc diacn.
a nvpe prestr.
a stad prestr.

[1]) vestrhofe(!) hdr.

315. 12. Februar 1462. undir Hvassafelli.

Erlendr Gunnlaugsson selr Bjarna Ólasyni jörðina Öxará í Ljósavatnsþingum fyrir tuttugu hundruð.

AM. Fasc. XV, 13, frumrit á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Tvö hin síðustu eru dottin frá. AM. Apogr. 73 eptir frumritinu. »Orginalbrefed liede mier Sr. Skule þorlaksson. og epter hann lidinn eignadizt eg þad« (AM.).

þat gervm vier þorgeir bavduarsson. steinolfur þorgilsson. ravgnvalldur oddsson og avnvn̄dur jonsson godvm monnvm viturlegt med þessv vorv brefe at þar vorv vier j hia savm og heyrdvm ꝍ ord og handaband þessarra manna biarna olasonar af einne alfv enn ellenndz gvnnlavgssonar af annare. at so firir skildv ed[1]) adur nefndur ellendur sellde fyrnefndvm biarna jordena avxarꝍ er liggur j liosavatz kirkivsokn med avllvm þeim gögnvm ok gædvm sem greindre jordv fylger og fylgt hefer at fornv og ny[v] ed hann vard fremzt eigannde at efter favdur sinn. Hier j mote gaf biarne olason tittnefndvm ellennde gvnnlavgssyne firir adur greinda jord tvttvgv hundrvd. sex malnytv kvillde. fiogur gelldfiar kvgillde. niv hvndrvt j silfre og eina kistv firir hvndrat. Skillde opt nefndur biarne giallda þessa peninga þratt nefndvm ellennde at næ[stvm] fardavgvm. og þetta kaup samþykte Margret olafsdotter kona hans. Og til sannenda hier vm settv vær fyr nefnder menn vor jnsigle firir þetta jardarkavpsbref. skrifat vnder hvassafelle j eyiafirde favstvdagen næsta firir valenntini martires. þa lidet var fra hingat bvrd vors herra jehsv christi þushundrvt. cccc. sextiger og. ij. ar.

---

316. 11. Mai 1462 á Torfustöðum.

Ketill Teitsson kvittar Einar ábóta á Munkaþverá fyrir níu hundruðum, sem er andvirði fyrir tiltölu þá, er Ketill átti til Skóga í Öxarfirði.

AM. Fasc. XV, 17, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

[1]) þannig.

bref er abote keypti part j skogum er kettill teiztson atte ved j[1]).

Þat giorer eg ketell teizson godvm monnum kvnnegt med þessv minv opñu brefe at eg kennvmst at eg hefe upp boret af herra einare abota œ munkaþuera niv hundrvt med suo ordnvm fridleika iiij hvndravt j smiavre. ij hundrads hesta ok iij hvndravt j slatrvm. enn her j mote fæ eg honum ok hefe eg feinged til fullrar eignar alla þa tiltavlv er eg atte til jardarinnar skoga er ligr j avxarfirde j skinnastada kirkiv sokñ efter þvi sem bref þar vm giavrt vtvisar suo framt sem margret finnbiarnardotter eda erfingiar þorgrims jonsonar vilia eige hallda þat kaup er þeir giaurdv sin j millum fyrr nefndur hera einar abote oc adr greindr þorgrimur edr lvka adra peninga jafngoda sem nv stendr efter ef þav vilia svo helldr javrdena til sin leysa. jtem skal abote ok eiga þav ij hvndravd er epter standa olvgt af þeim peningum er eg atte hia tittnefndum þorgrime ok kuittan firir gefa at avllv jafnfullv sem eg sialfr ok vnna mer þar lika firir efter þvi sem okkr semr þa vid finnumzt.

Ok til sannenda her vm setta eg mitt jnsigle firir þetta bref er giortt var æ torfvstavdvm j midfirde þridiudagen næsta firir hallvardzmessv anno domini ɱ° cd° lx° secundo.

---

317. **17. Mai 1462.** **i Vallanesi.**

Árni prestr Eiríksson vottar, að hann hafi lukt Kirkjubæjarstað þá reka, er Finnbjörn bóndi Jónsson lukti honum og hvalvonir þær, er Jón Jónsson lukti Jóni presti Bjarnasyni.

AM. Apogr. Nr. 2004 »Originallenn fylger Kirkiubæiarkirkiu i Tungu i Fliotzdalsherade«. Afskriptin er staðfest í Skálholti 3. Aug. 1712 af Árna Magnússyni, Gísla Bjarnasyni, Þorgilsi Sigurðssyni, Páli Hákonarsyni og Magnúsi Einarssyni.

Þat giorir ek sira arnne eirexsson godum monnum vittanligtt med þessu mino opno brefe ad ek hefe lvgte[2]) kirkiu-

---

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi; [2]) þannig.

beiar stad rekan þan sem finnbiorn bonde jonsson lvgte mer til efinlegrar eignar tuo lutte j vidrega oc hual fyrer hamundarstodum fra fullga[1]) biargarnesi oc til þess ed fram koma huamshus fiordvng fyrir boduasdal fiordung j hual fyrer fagradal fiordung j hval fyrer bagga fiordung fyrer hofn fiordung fyrer midfiardarnesi atta uetta af reisla fyrer fagranesi j millum tueggia garsenda oc allar þer hualuoner sem jon heitin jonsson lugte sira jone prest biarnasyne um allt langanesi[1]) oc hann erfdi epter jon sæbiarnarson oc epter kara brodur sin. oc til saninda her um sette eg mitt jnsigli fyrer þetta luguingar bref skrifat j uallanesi manodaghin nesta epter halluarsmesso anno domino(!) milliscimo quadragentecimo xexagescimo cecundo.

---

318. 5. Juli 1462. á Eyrarlandi.
6. Juli á Möðruvöllum.

Dómr tólf presta útnefndr af Ólafi biskupi Rögnvaldssyni um ágreining milli Sigurðar príors á Möðruvöllum, vegna klaustrsins, og séra Jóns Haldórssonar, vegna staðarins í Árskógi, um selför í Hrafnagilssel á Þorvaldsdal.

AM. Apogr. 4066 »Ex originali« með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »Brefed er ā kalfskinn med goda skrifft. fyrer þvi hafa vered 12. hangande Jnngsigle, og so marger eru þveingerner, enn ecki innsigle ā nema tveimur. ā þvi fyrra get eg ei lesid letrid, j midiunne er kaleikur med corporalisduk yfer og manns hönd vppe yfer« (JM.). Hitt innsiglið virðist hafa verið innsigli »Magna« Einarssonar og segir Jón á því »j midiunne mariulikneske, og helldur ā barne«.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda sueinbiorn þordarson. helge magnusson. magnus einarsson. ketel grimulfsson. oddr þorkelsson. rögnualldr asgrimsson. jon skeggiason. þordr hrodbiartzsson. gunar eyulfsson. þoruardr semingsson. olafr þorgeirsson ok þoruardr oddabiarnarson prestar kuediu guds ok sina kunigt gerande ad sub anno gracie m⁰. cd⁰. lx⁰. secundo mauadagin næsta efter festum apostolorum petri et pauli æ eyrarlandi i eyiafirde æ almenuiligri prestastefnu uor-

---

[1]) þannig.

um uier j dom nefnder af uorum virduligum herra og andaligum fedr herra olafi med gudz nad biskup at holum at dæma milli brodr sigurdar priors a modruuollum ok sira ions halldorssonar er priorin kiærþe til hans at hann hiellde ok haft hefde rangliga klaustursins selfor hrafnagils sel æ þorualldzdal j ongu hans leyfe vm fim ar edr leingur. nu firir þui ad oddr þorsteinsson sor þar firir oss at þesse selfor var hofd ok eignud gomul eign klaustursins æ modruuollum. suo hann visse vm fimtige ara ataululaust af huerium manni. Jtem sor ok þorsteinn þorsteinsson at hann heyrde eignada fyrsagda selfor modruualla klaustri af sier ellrum monnum vm morg ar ok a næstum sex arum ok tuttugu heyrde hann klaustursens formenn[1]) reiknaz eiga þessa fyrnefnda selfor hrafnagils sel a þorualldzdal vera gamla klaustursins eign a modruuollum ok ætaululaust hafda verit firir huerium manne. nu firir þui at oss leistz fyrsagdr sira jon halldorsson vera logliga firir stefndr. þa dæmdum vier fýrgreinder prestar þessa optnefnda selfor hrafnagils sel eign klaustursins a modruuollum nema sýra ion synde ok sueria lete med fullum bokareide firir michelsmesso j haust heima a modruuollum tuo loglig uitni firir biskup olafi edr hans umhodsmanni anan jon asmundzson en þan anan er samburda yrde vid þan vitnisburd er nefndr jon hafde handfest sira jone halldorssyni ok vpp var lesin a prestastefnune at stadurin j arskoge ætte þessa optnefnda selfor hrafnagils sel. ok sira jon skylldugan at sueria nu hier a prestastefnune at vænaz þeim einum vitnum er hann hugde sanenda vitne vera.

Ok til sanenda hier vm settum vier fyrnefnder prestar vor jnscigle firir þetta domsbref skrifat a modruuollum j horgardal a sama are dege sidar en fyr seger.

---

319. 5. Juli 1462. á Eyrarlandi.

Dómr tólf presta útnefndr af Ólafi biskupi Rögnvaldssyni um það, hvort Hólakirkia í Hjaltadal eigi Drangey í Skagafirði. Sóru sex prestar, er sumir báru að þeir vissu að Hólakirkja

[1]) portim̄(!), afskr.

hefði haft hana í 40 ár, svo að þeir vissu, aðrir vissu um 30 ár og einn um 25 ár. Dæmdu þeir kirkjunni eyna til óbrigðilegrar eignar.

AM. Fasc. XV, 15, frumritið á skinni. Tólf innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Nú eru sjö af þeim dottin frá. Það getr verið vafi á, við hverja Pétrsmessu hér sé miðað, en líklega er það Pétrsmessa og Páls, því að þá dagana hélt Ólafr biskup prestastefnu á Eyrarlandi þetta ár.

Doomsbref vm Drangey[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda semingur prestr magnusson officialis heilagrar holakirkiu. sueinbiorn þordarson. þorsteinn jonsson. hellge magnusson. kolbeinn jngemundarson. hallur arnnason. þorleifur magnusson. magnus jonsson. ketil grimolfsson. oddur þorkelsson. steinolfur kalfsson ok þorgrimur jonsson. prestar holabiskupsdæmis. ku[e]diu guds ok sina kunnikt giorandi ad sub anno gracie ꝍ°. cd°. lx°. secundo a eyrarlande j eyiafirde manvdagin næsta epter petursmesso a almenneligre prestastefnu voru vær j dom nefnder af vorum nadavgum herra ok andaligum fôdur. herra olaf med gudz nad biskup a holum j hialltadal. ath dæma vm huort eyin drangey er liggr a skagafirde skyllde vera kirkiunnar eign a holum eda eigi. var þar svarit af sex prestum suo heitandum sira þorkel gudbiarzsson. sira sigurdur jonsson. ok sira berþor halldorsson. soru fullan bokareid ath adr nefnd drangey var havfd ok halldin kirkivnar eign a holum vpp a fioretige vetra suo þeir vissu akærulaust. sira þordr hrodbiarzsson ok sira jon halldorsson. soru ok suo ath fyr nefnd drangey var hôfd ok halldin kirkiunnar eign a holvm vpp a þriatige vetra suo þeir vissu akærulaust. sira þorfinnr þorolfsson sor enn þetta sama vm þratt nefnda drangey vpp a halfvan þridia tvg vetra suo hann vissi.

nu saker þess ath þetta var suarit af sex prestum sem fyr scrifat stenndr þui dæmdum vær fyr nefnder prestar títt nefnda drangey er liggr a skagafirde vera ok verit hafua obrigdiliga eign adr greindrar hola kirkiu epter þui fremsta sem lôgbok vtvisar.

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hendi.

var þessi vor domur vpp sagdr ok in scriptis fram borin j sama stad deige ok æri sem fyr seiger.

---

320. 5. Juli 1462. á Eyrarlandi.

Dómr tólf presta útnefndr af Ólafr biskupi Rögnvaldssyni um Þorstein Brynjólfsson er farið hafði í Drangey, eign Hólakirkju í Hjaltadal, og tekið þar sela, fugla og egg.

AM. Fasc. XV, 14, frumritið á skinni. Ellefu innsigli hafa verið fyrir bréfinu, enn nú eru fimm af þeim dottin frá. Það getr verið vafasamt við hverja Pétrsmessu hér er miðað, en líklega er það Pétrsmessa og Páls eins og sjá má af öðrum bréfum. Þá dagana hélt Ólafr biskup prestastefnu það ár á Eyrarlandi.

Domsbref vm Drangeẏ[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heẏra senda semingr prest[r] magnusson officialis heilagrar hola kirkiu. þorkel gudbiarsson. sueinbion þordarson. kolbeinn jngemundarson. magnus jonsson. hellge magnusson. þolleifr magnusson. hallr arnnason. ketil grimolfsson. steinolfur kalfsson. þorgrimur jonsson ok oddr þorkelsson prestar holabiskupsdæmis kuediu gudz ok sina kunnikt giorandi ad sub anno gracie ꝏ°. cd°. lx°. secundo æ eyrarlande j eẏiafirde manudagin næsta epter peturs messu æ almennligre prestastefnu voru vær j dom nefnder af vorum nadaugum herra ok andaligum fødur herra olaf med gudz nad biskup æ holum j hialltadal ath dæma vm þat sem biskup olaf kærde þar til þorsteins bryniolfssonar ath hann hefdi farit j drangeẏ ok veit[t] þar sela ok tekit þar fugla ok egg j aungu biskupsins leyfui. var þar ok bevisat med tueggia manna jncigli ath þorstein bryniolfsson hefde veitt sela fugla ok egg j fyrsagdri drangey. bar biskupin ath adr nefndum þorsteini ath hann hefde farit j drangey eigi sialnar en tuttugu sinnum til veideskapar j aungu sinu frelsi. nu saker þess ath þar var synt ath þorsteinn hafdi j eyna farit sem fyr scrifat stendr. þui dæmdum vær fyr nefnder prestar titt nefndan þorstein bryniolfsson skylldugan ath lvka heilagri hola kirkiu þria-

---

[1]) Aptan á bréfinu með fornri hnedi.

tigi marka j fullʀetti firir huert þat sinn sem hann hefer j drangey farit heimilldarlaust ok hann hefer þadan haft til halfrar merkur sela. fugla eda egg. ok tuigillda aptur þat sem hann hefer veit[t] vnder sinn suarin bokareid. enn huert þat sinn sem hann hefer minna veit en til halfrar merkr. dæmdum vær hann skylldugan ath tuigillda aptr ok landnam med. dæmdum vær þorstein bryniolfsson skýlldvgan ath sueria settareid jnnann manadar ath heyrdum dominum ath hann hefde alldre heimilldarlaust farit j þratt nefnda drangey. fellz honum sia eidr þa dæmdum vær hann skylldvgan ath luka slika sekt sem fyr seiger. ok þratt nefndan þorstein brýniolfsson fallinn j bann ok skylldugan ath taka lausn ok script af biskupinum epter ʀettum kirkiunar lögum.

var þessi vor domur upp sagdur ok jn scriptis fram borin.

ok til sannenda hier vm settum vær fyrnefnder prestar vor jncigli firir þetta domsbref giort j sama stad deigi ok áre sem fyr seiger.

---

321. 6. Juli 1462 i Hruna.

Samningr milli Þorleifs Björnssonar og Stepháns Jónssonar, þar sem Stephán handlagði Þorleifi alla peninga eptir Jón Jónsson bróður sinn prest í Hruna, er þó að vísu voru brotnir við heilaga kirkju; skilr Stephán sér æfinlegt framfæri hjá Þorleifi, og að Þorleifr útvegi hjá réttlegum Skálholtsbiskupi, þegar hann komi, prestakall handa Þorleifi syni sínum.

AM. Fasc. XV, 11, frumritið á skinni; öll innsiglin eru dottin frá. Sbr. Grönl. hist. Mindesm. III, 187—89.

Þath giorvm wær meistare sueinn pietursson officialis. sira halldor ormsson kirkiuprestur j skalholti. sira salamonn magnusson. haukr einarsson. brandʀ svgvrdzson ok andreuss gudmundzson leikmenn godum monnum kunnight med þessu woro oppnu brefi. ad jn octaua petri et pauli apostolorum. anno domini ꝏ⁰. cd⁰. lx⁰. secundo. ij kirkiunne ij hruna ij hrunamannahrepp worvm wær [j] hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessara mana þorleifs biornnssonar af eirne alfv ok steffans jons-

sonar a[f] anare ath suo firir skilldu ath fyʀ nefndur stefan handlagdi fyrr nefndum þorleife alla þa peninga kuika ok dauda fasta ok lausa frida ok ofrida þa sem jon heitenn jonsson prestr hafdi atth broder fyrr greindz stefans er hann kallar sier til erfda hafa fallith epter þui som fyr greindr þorleifur hafdi ad sier tekith greinda peninga. eppter þeim dome er æ fiell æ mal fyrr greindz sira jonss fyrer hans oppinberlig broth kirkiunnar wegna ij skalhollti h[u]ortth sem hann hefdi tekith eda taka latith greinda peninga eppter þeirre eign ok wmbodi er biskup andries hafdi honum wth gefith þa skÿlldi fyrr greindr þorleifur eignazth þessa peninga kuitta ok ækærulausa til æfuenligrar eignar ok frialls forrædiss ok aller þeir menn kuitter er hann hefer ij þessi sin wmbod setth huortth þeir eru helldr leiker eda lærdir sue(i)nar eda adrer menn er þar hafa ij peninga adtecktum werith. skylldv þeir wnder samre grein kuitter ok ækærulauser. Hier ij mote skillde stefan jonsson sier æfuenliga hiallpp ok framfæri hia þorle(i)fe biornnssyni. Hier med skilldi greindr stefan af þorle(i)fe biornnssyni ath hann skylldi fa firir þorleif presst son sinn eitth huerrth beneficivm ef hann kynne ath koma þui af stad þa er riettligr skalholltz biskup kemur.

samþykkte þenna giorning greindr þorle(i)fur prestr med fullo handabandi huoʀ med anan.

Ok til saninda hier wm settum wær fyrr nefnder menn wor ijnzigle firir þetta bref skrifath ij sama stad deigi ok ari sem fyrr segeʀ.

---

322. 7. Juli 1462. i Hruna.

Þrír prestar og þrír leikmenn votta, að junkæri Þorleifr Björnsson hafi afhent Hrunastað, svo að Andrési Grænlendingabiskupi og umboðsmanni Skálholtskirkju vel ánægði, og kvittaði biskup Þorleif með öllu.

AM. Fasc. XV, 10, frumritið á skinni. Fyrsta innsiglið er nokkurnveginn heilt; annað brot; hin eru dottin frá. Sbr. Grönl. hist. Mindesm. III, 187—89.

vm þat þorle[ifr] Biornsson afhender Hrunastad.

Þat gerum uær meistare sueirnn pietursson officialis hei-

lagrar skalholltzkirkiv salamon Magnusson ogh oddvr olafsson prestar. brandvr sigvrdzson andries gudmunndzson ogh gislle philipusson leikmenn godum monnum kunnikt. med þessu uorv opnv brefi. ath in translacione sancti thome cantuariensis archiepiscopi. anno domini. M°. cd°. lx°. secundo j hruna j hrunamannahrepp uorum uær j hia saum ogh haurdvm a̅. þæ er junkærin þorleifur biornssson afheñte stadinn j hruna ogh þat er gardinum þar til heÿrde. ute ogh jnne. med þessvm peninga uexti sem hier epter stendr skrifath.

Jn primis sex kÿr ogh tauttugu ogh hundrad asaudar. j suo ordnum peningvm. sem biskupe andriese umbodsmanne heilagrar skalholltzkirkiu uel ænægde ath taka stadarins uegna.

Jtem hier til sex hundrud j metfie ogh þriou hnndrud j hrossum ogh þar til tuo hross fullroskinn þreuetran hest ogh annan tuæuetrann.

Hier med saum uær ogh heyrdum ath greindur biskup andries gaf med fullu handabande adr nefnndann þorleif aullungiss kuittann ogh akærolausann firir sier ogh sinum epterkomondum formonnum kirkiunar j skalhollte vm suo myclla peninga sem nv var greint ogh alla medferd a fÿrsogdum peningum.

Ogh til sanninda hieR vm settum uær fyr nefnder menn nor jnsiglle firir þetta vitnissburdarbref. skrifat j sama stad dege ogh are sem fÿR segir.

---

323. 9. Juli 1462. í Kaupmannahöfn.

Kristján hinn fyrsti Danakonungr selr Birni Þorleifssyni. umboðsmanni sínum »upp á Ísland«, eignir þær, er Guðmundr Arason (á Reykhólum) hafði »forbrotið«, og kallar aptr bréf Kristophers konungs af Baiern um þessar eignir.

AM. Fasc. LXV, 12, óvidimerað transskript á skinni frá c. 14?5.

Hier greiner fyrst um gudmundar peninga. er konungurin sellde birne heitnum þorleifssyne. og gialldit at greidazt a̅ þrimur savlvm.

Wij kristiarnn med gudz nad Danmarcks. Noriges. Sveriges. Vendis og gothes konvngh. hertoge i slesvik og j hollzthen. Stormaren og Dithmersken. Greife j oldenborg og delmenhorst[1]). Giorvm ollum vỳthanligt. at vij selltt og afhent hofvm Birnne þorleifssỳne vorvm vmbodzmane vpp æ jsland Nockvd godz vpp ǽ jsland liggiande. sem gudmvndur aræsonn forbravtt til vor. og krvnvnar. Epter þui sem vorth bref honum til forna. þar vpp æ gefit og jnne helldur og vttvijsar. þui hefur hann nv lated oss vnderstǽ at nockurer actha og vilia giora honum hindur. vpp ǽ fyr skrifat godz og þar vm̄ tala. hvertt godz oss ber honum at fríja og forsuara. þui forbiodvm víj avllvm. hverier hellzt vera kvnnv edur ero. og sierlega forskrifad[s] gvdmvndar ærasonar arfa og ollvm odrum. at bijvarra sig med fyr skrifad godz edur hans erfinngvm nockvd hindur þar vpp æ giora. j nockurn matha vnder vora konnvngliga hefnd og reide. og deydwm vij og maktarlaust giorvm þat bref sem vor forfader kong kristofer. hvers sal gud nade Gaf fornefndvm gvdmvnde arasyne vpp æ fyr skrifad godz. fyrer þui at hann eigi uttgaf edur fornægde fyrskrifvdvm vorvm forfedur verd edur peninga firir fyrskrifad godz. sem lofad og sagtt war.

Datvm jn castro nostro hafnensis. feria sexta proxima. ante festvm beate margarethe virginis et martiris nostro sub secreto presentibus appenso anno domini m̄°. qvadragentesimo sexagesimo secundo.

---

## 324. 19. Juli eða 20. December 1462. á Möðruvöllum.

Vitnisburðr tveggja manna um landamerki Hóls í Kinn og Garðshorns.

AM. Fasc. XV, 16, frumritið á skinni. Tvö innsigli hafa fyrir bréfinu, en eru bæði dottin frá. AM. Apogr. 1452 eptir frumritinu, sem komið er fra Staðarhóli.

Þat gierum uid magnus eyiolfsson ok halldor þorkelsson godum monnum viturligt med þessu ockru brefi ath þa hrafn gudmundzson lögmadr atti jardirnar holl j kinn ok gardszhorn hiellt hann þese landamerke millum þesarra jarda vr ytra

[1]) delmenhorhorst, skbr.

uallar gards horne æ holi ok riettsyni upp æ fiall suo langt sem sier heiman vr hols tuni. suo ok eigi sidr riettsyni ur uallargardinum ok ofan j klett þann er stendr j myrinne. vr honum riettsyni ofann j rangæ. suo ok heyrdu uid ockr ellre menn segia at adr greind landamerki hafi verid hofd ok halldinn akærulaust. suo ok eigi sidr heyrdu uid aunguan akæra vpp æ. xl. tigi vetra ok haufu uid þo verit innan sueitar.

Ok til sanninda hier um settum uid fyrr nefnder menn ockr jnnzsigli firir þetta bref er skrifat uar æ mödruvaullum j eyiafirde manudaginn næsta firir þorlaksmesso. þa lidit var fra hingatburd uors herra jehsu christi þushund fiogur hundrud sextiger ok tuau ær.

Anno 1662 a auxarærþingi 1. Juli var þetta Bref yferlyst j lögRiettu huar til logmenn og logriettumenn suðrudu það skyllde standa þar til sterkari skiöl framm kiæmi og þui hrindi[1]).

---

325. 1. August 1462. á Reykhólum.

Kaupmálabréf Andrésar Guðmundssonar og Þorbjargar Ólafsdóttur.

AM. Fasc. XV, 12, frumritið á skinni. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Tvö af þeim eru dottin frá.

kaupmalabref favdur mins ok modur[2]).

Jn nomine domini amen.

birtizt ok stadfestizt suo felldr kaupmale æ festingardeghi þeirra andres gudmvndzsonar ok þorbiargar olafsdottur æ Reykiaholhvm æ Reykianese æ sunnvdaginn næsta fÿrer olafsmessv seinne þa er lidhit var fra hingatburd vors herra jhesv christi þushundrvd fiavgur hunndrvd sextigir ok tuav arh var þesse hæd ok peninga vavxtur æ fiekaupi fÿr greindra manna ath greindr andres hafdi til kaups med þorbiorgv þriv hunndrud hunndrada. var þar fÿst tilskilin jordin fell j kollafirdi firir sextighi

---

[1]) Þetta ritað aptan á bréfið; [2]) aptan á bréfinu og mun þetta vera hönd Ara eða Guðmundar Andréssonar.

hundrada ok þar til liufvstadi[r] ok fiardarhornn edh minna firir. xx. hundrud oc þar til. xl. hundrada j þarfligum penningvm. hier til lofade bondinn biornn ath hallda brullaup fyrr greindra manna vpp æ sina eigin penninga med þuilikvm kostnadi sem kemur til. lx. hunndrada. hier til gafh jvngkeære þolleifur biornnsson fyrr greindum anndrese halft annat hunndrad hunndrada med þessum fridleika ok anefnndre grein sem hier segher. er þar fyst tilgreind jordin solheimar er liggur æ ashvm j suinhavanzt kirkiv soknn firir. lx. hunndrada ok þar til .xxx. hundrada jord þar sem anndrese þætti sier vel hennta ok hier til skylldi greindr þorle[i]fr leggia optt nefndvm anndresi nijhvtighi hunndrada j kugilldvm ok aullvm þarflighum penningum. hier j motti gafh olafr bondi geirmundzson þorbiorgv dottur sinne med samþycki sigridar þosteinsdottur eigin konv sinnar halft annat hunndrad hunndrada med slikri nefnndri grein sem hier siegher. jordina gautzdal firir .xxx. hunndrada er liggur j garpsdals kirkiu soknn ok þar til hæfha fell j daulum fyrer tuttughu hunndrud er liggur j saudhafells kirkiv soknn. fimtighi hunndrada j silfri ok fiorertighe hunndrada j kugilldvm ok fimmtighe hundrada j aullum þarfligum peningum. hier med gaf nefnndr andres fyrr greindri þorbiorgu fiordungsgiof wr aullv fenv þvi er hann hafdi [til] kaups med hana. hier med skildi bondinn olafur firir þorbiorgv dottur sina sæmiliga beckiargiauf ok morginngiauf.

[voru þeser festingarvottar. helge þorkelsson. tomas halldorsson. prestar. brandr sigurdzson. svartvr þordarson. þordur ellendzson. leikmenn.

Ok til sanennda hier vm settum vier furnefnder menn vor jncigle firir þetta kaupmalabref er skrifwath var j sama stad dege ok are sem fÿrr seger[1]).

---

## 326. 3. Oktober 1462. á Höskuldsstöðum.

Þormóðr Ólafsson gefr Árna Jónsson kvittan »um öll þau kaup og peningaskipti, fríð og ófríð«, sem hann hafði haft við

---

[1]) [ritað með annari hendi, þó jafngamalli.

Jón heitinn Bergsson frænda Þormóðar, með fleirum ákveðnum orðum.

Biskupsskjalasafn Hol. Fasc. II, 5, frumritið á skinni. AM. Apogr. 3568 með hendi séra Snorra Jónssonar á Helgafelli 1721 eptir frumritinu.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda eigill grimsson juar steinsson ok olafur einarsson kuediu guds ok sina kunnickt giorande. at þa er lidit var fra hingatburd vors herra iehsu christi þusund fiógur hundrut sextiger ok tuo ar. ꝗ midkudagin næsta epter halluardzmessu[1]) j eingihlid j langadal vorum vær j hia saum ok heÿrdum a ord ok handaband arna jonssonar ok þormodar olafssonar at suo firir skildu at þormodr olafsson gaf arna jonsson kuittann ok akærulausan firir sier ok sinum erfiingium vm óll þau kaup ok peningaskipte frid ok ofrid sem hann hafde haft vid jon heitinn bergsson frænda adr nefnz þormodar. suo ok eigi sidr gaf tittnefndr þormodr adrnefndan arna jonsson kuittan vm þa peninga sem virtir voru a myrum hinum nedrum epter jon bergsson latinn ef hann ætti þar nockru firir at suara.

ok til saninda hier vm settum vær fÿrrnefnder menn vor jnzsigle firir þetta kuittunarbref er giort var ꝗ hauskaullzstaudum ꜳ skagastrónd sunnudaginn næsta epter michaelsmessu ꝗ sama áre sem fÿrr seger.

---

327. 14. Október 1462. Segeberg.

Kristján Danakonungr hinn fyrsti ritar klerkdómi og allri alþýðu manna í Skálholtsbiskupsdæmi, þar sem hann samþykkir kosning meistara Sveins Pétrssonar til Skálholtsbiskups, tekr hann og alt það, er honum við kemr í vernd sína.

Bartholins safn B. Fol. bls. 228—229, skr. c. 1690. Prentað í Scriptores rerum Danicarum VIII, 426—427. Það er ekki nema tvent til, að annaðhvort hefir Sveinn meistari ekki náð biskupsdómi í þetta sinn fyrir Jóni Krabba, ellegar þá að ártal þessa bréfs, 1462, sem í handritinu stendr, er rangt fyrir 1465 eins og Keyser

[1]) þ. e. 19. Maí.

blátt áfram segir (Norsk Kirkehist. II, 565). Þó mun það varla vera, og mun hitt nær sanni, að klerkdómrinn í Noregi hafi þraungvað Jóni Krabba ókosnum af Íslendingum inn á Skálholtsbiskupsstól, svo Sveinn hefir ekki komizt að í þetta skipti. Auk þess byggir Keysir það á þessu bréfi, að þeir Marcellus biskup og Jón biskup Krabbi hafi báðir dáið 27. Febr., Marcellus 1462, en Jón 1465, sem er alveg heimildarlaust, nema um annan þeirra, og er þá ekki annað umtalsmál en að það sé Marcellus, sem á þá ártíð, eptir ártali þessa bréfs, sem ekki er vert að tortryggja að nauðsynjalausu (sbr. bls. 6 hér að framan). Sveinn biskup telr annars sjálfr biskupsdóm sinn frá 1467, og ekki þekkjast eldri bréf hans sem biskups.

Ad Clerum et populum Scalholtensem.
Christiernus et cetera.

Honorabilibus viris, sacerdotibus necnon aliis in Scalholtensi dyocesi nostris subditis universis, salutem, gratiam nostram et omne bonum.

Qvoniam Scalholtensis Ecclesia per mortem sui ultimi possessoris, penultimo Februarii die, vacare cepit, in honorabilem virum oc scientificum magistrum Svenonem Petri presbiterum diocesis Scalholtensis, ut ipsi Ecclesie in pastorem preficeretur et antistitem unanimiter consensistis, nobisqve per litteras vestras supplicastis humiliter, ut nostrum in hac re consensum et benevolentiam superaddere dignaremur.

Nos ad omnipotentis Dei honorem et gloriam, ad ipsius qvoqve Ecclesie utilitatem et incrementa felicia, in eundem Magistrum S(venonem) vita et moribus commendabilem ex nostra speciali gratia consentimus ipsumqve Magistrum S(venonem), Ecclesiam Scalholtensem, personas eius spirituales et seculares. cum bonis suis et pertinentiis qvibuscunqve sub nostra pace et regia defensione accipimus protegendos. Volentes et precipientes vobis omnibus et singulis, ut dicto magistro S(venoni) reverentiam et obedientiam debitam tamqvam vero pastori vestro Episcopo impendatis. Preterea substitutis nostris et officialibus qvibuscunqve districte precipiendo mandamus, qvatenus memoratis magistro S(venoni) ecclesie Scalholtensi, personis eius, familie, necnon subditis auxilium opportunum, dum opus fuerit, exhibeant et favorem; nec ipsis aut ipsorum alicui iniurias, damna aut violentiam qvalitercunqve inferant, nec inferri ab aliis patiantur, prout indignationem Dei omni-

potentis ac vindictam nostre R(egie) M(aiestatis) curaverint evitare.

Datum in castro nostro Seghebergh anno domini 1462[1]) die 14 octobris, Nostro Regio sub Secreto, presentibus appendi iussimus in evidentiam premissorum.

---

328. 14. Október 1462. í Hvilft.

Vitnisburðr sjö manna um viðskipti séra Narfa Böðvarssonar og bræðra hans og þeirra manna við Haldór Hákonarson og Ólaf Jónsson og þeirra menn í kirkjugarðinum í Holti í Önundarfirði, að ekki hefði þeir Haldór slegið fyrri en grjóti var til þeirra varpað úr kirkjugarðinum.

AM. Fasc. LXVI, 15, frumritað transskript frá 7. Júlí 1474 á skinni. Síðara innsiglið er dottið frá.

Bref vm vidskipti Halldors hakonarsonar og narfa Bodvarssonar[2]).

Þat giorum vær jon marckusson. helgi filipusson. jon bardarson. þorbiornn gudmundzson. jon þosteinnson. olafur olafsson. jon olafsson godum monnum kunigt med þessu woru opnu brefi at wær worum j hia saum ok heÿrdum á wm áskilnad þessara manna er ward j hollti j aunundarfirdi á laurenciusmesso dag[3]). sira narfa bauduarssonar. gisli ok jorundur. arne ok klęngur. brædr hans. siguatur ok ion stefnisson menn hans. En af anare alfu halldors hakonarsonar ok olafs jonssonar ok þeirra manna. saum wær huorcki hauggit ne sleigit af þeim ne þeirra monnum j kirkiugardinum ok eigi j kirkiugardinn j fyrgreindum stad j hollti fyr enn adr greindr sira narfi ok brædr hans snorudu grioti ut vr adr greindum kirkiugardi. kom sa steinn er sira narfi snaradi firir briost greindum halldori. lÿsti halldor hakonarson optnefndr prestinn j banni enn kirkiugardinn saurgadann. letu þeir ok bera griot j kirkiu-

---

[1]) Svo. Í frumritinu hefir Keyser líklega ætlað, að staðið hafi ɱcdlxu, og *u*-ið hafi svo afskrifarinn lesið sem tvö i (*ii*); [2]) utan á bréfinu með hendi Eggerts lögmanns Hannessonar; [3]) þ. e. 10. Aug.

gardin adr greindan ok snorudu þí sama grioti ut at fýr greindum monnum. skutu þeir og tuo skot af lasboga ut wr þrat nefndum kirkiugardi ad opt nefndum monnum. ok hier epter wilium wier sueria ef þurfa þiker.

ok til sanninda hier wm settum wier fyr nefnder menn wor jnsigli firir þetta witnisburdarbref er skrifad var ꝏ huilft j aunundarfirdi upp æ kalixtusmessu þa er lid(it) war fra hingadburd wors herra jehsu christi þushundrat. cccc. sextiger ok ij ar.

---

## 329. 22. Október 1462. i Kirkjufell

Ingimundr Þorleifsson og tveir menn aðrir ganga í borgan fyrir séra Böðvar Jónsson um peninga staðarins í Hjarðarholti í Laxárdal, sem hann hefir eigi fulla borgan fyrir.

AM. Apogr. 2275 »Ex orig. Hiardarhollt. accuratissimè. Innsiglen eru öll burtu, hafa 3. vered«. (AM.).

Þat giorum ver jngimundur þorleifsson[1]). gamli þorleifsson. jon jsleiksson godum monnum uiturligt med þessu uoru opnu brefi at ver hofum geingit j borgan firir sira boduar ionsson um stadinn ok stadarins peninga j hiardarhollti j laxardal. frida ok ofrida. fratekinni[2]) porcio ecclesie. so mikla peninga sem fýr greindur sira boduar tekur uith stadarins uegna. uilium uer ok fýrgreinder menn so leingi stadinn ok stadarins peninga borga. sem optnefndr sira boduar hefur eigi fulla borgan firir stadarins peningum ok godum monnum lizt þat vera. enn ecki leingr.

Ok til sanninda her um settum ver fyrnefnder menn vor jnzcigli firir þetta bref skrifat j kirkiufelli fostvdaginn næsta firir tveggia postula ꝏesso simonis et jude anno domini ꝏ°. cd°. lx°. ij°.

---

[1]) þorleilsson, stóð í frumritinu; [2]) »Mille fratekinni og porcio er i oirginalnum utskafed so mikid sem svara kynni einu orde medallage laungu, hefr vered giort strax i fyrstu. mun eitthvad ofskrifast hafa« (AM.).

330. [fyrir 1463].

Skrá um eignir Hvanneyrarkirkju í Andakíl, þegar Jón Ketilsson tók við.

Í máldaga, sem líklega er frá dögum Jóns biskups Krabba, eru reiknnð mortalia ·á Hvanneyri frá því Vermundr heitinn Kolbeinsson tók við; á því má sjá að Jón Ketilsson sé þá kominn að Hvanneyri. AM. Apogr. Nr. 1729, með hendi Árna Magnússonar »Epter kalfskinnsblade in folio, sem hefur vered saurblad framan vid bok, og stendur þar skrifad ä, nedst ä bladinu: Mariu kirkia a Hvanneyri a bok þessa. Blad þetta hefi eg haft til läns fra Sr. þorde Jonssyne ä Stadarstad. Hinumegen ä bladenu stendur med hende Päls Gislasonar: N: 1. sine dato, ad ultimam visitationem in qva extat 1529« (AM.).

Svo mikit eigur Hvanneyrar kirkia i fridum peningum er Jon Ketelsson tok vid.

xvj. kugilldi i fridum peningi.

hefer sidan gefizt sva mikit i mortalia sem hier greiner.

Snorri Dagsson kugilldi.

Ketell Dagsson kugilldi.

gafst hestr efter Jon oddzson.

annar hestr er gaf Sigvatur þorsteinson.

Hross efter þord sigvazsson oc þar fimm aura til.

Gaf Ragna audunardotter kugilldi og unnr dotter hennar kugilldi. annat efter arna ketelson bonda sinn. oc kugilldi er jon ketelson gaf oc kugilldi efter vermund jonsson.

Jon kettelson kugilldi.

gunnhilldr vermundardotter kugilldi[1]).

---

331. 24. April 1463. á Möðruvöllum.

Skiptabréf Margrétar hústrú Vigfúsdóttur með Ingibjörgu, Guðríði og Ragnhildi dætrum sínum.

AM. Fasc. XV, 21, frumrit á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, nema tvö.

---

[1]) »hactenus ima manu«. (AM.).

Skiptabref þeirra mædgna[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda[2]) wier broder einaʀ abote a munkaþuera. semingur magnusson ok magnus einarsson. prestar. þorkell þorkelsson. steingrimur isleifsson. helgi sigurdzson ok rustikus sigmundzson. leikmenn. kuediu guds ok sina. kunnigt gioranđi ath þa lidit uar fra hingathurd uors herra ihesu christi þusunđ fiogur hunđrud sextiger og ok þriu aʀ a maudruuaullum i eyiafirdi sunnudagin næsta fýrir gagndagin eina vorum uier j hia saum ok heýrdum a ord ok hanđabandh margretar uigfusdottur af einni alfu. enn dætra þoruardz honda loptzsonar ok adr greindrar margretar af annari. Jngibiargar. gudridar ok ʀagnhilldar ath suo fyrir skildu ath fýr nefndar systur gafu adur greinda margretv aullungis kuitta ok akiærulausa fyrir sier ok aullum sinum epterkomendum ok erfingium um halld ok medferd a aullum þeim peningum faustum ok lausum[3]) fridum ok ofridum er titt nefnd margret hafdi umbod yfer haft þeirra uegna um næsta tolfmanadi.

Suo ok ei sidur i sama handabandi saum uier fyʀ nefnder menn ath þessar saumu systur. jngibiorg gudridur ok ʀagnhilldur gafu umbod a ǫllum sinum peningum faustum ok lausum fridum ok ofridum opt nefndre margretu uigfusdottur skilgetine modur sinni um tolfmanadi fra næstum fardaugum ok til annara fardaga. skylldi þratt nefnd margret eiga affall ok alla auaugstu a fyr grei(n)dum peningum suo leingi sem greint umbod stendur.

Ok til saninda hier vm settum vier fýr nefndir menn uor junciglі fyrir þetta bref er skrifath uar i sama stad ok ari degi sidar enn fyr seghir[4]).

---

332. 11. Juni 1463. i Hvestu.

Dómr Örnólfs Einarssonar kongsumboðsmanns og sex manna, að Deildará á Skálmarnesi skuli í haldi og meðferð Eyjólfs

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi; [2]) svo; [3]) hdr. lausaum [4]) þ. e. 25. Apr. eða á gangdaginn sjálfan.

Magnússonar, en Eyjólfr hafði með fororði gefið Dýrfinnu dóttur sinni hana til kaups við Gunnstein Klemensson.

Eptir afskript Gríms Thorkelíns í Ríkisskjalasafni Dana, er hann hefir gert eptir frumritinu, sem þá var í AM. XV, 22, en er nú glatað. Þá var fyrsta innsiglið fyrir bréfinu, en hin dottin frá.

Þath gerum uær Philippus Sigurdzson. Þordr Sigurdzson. Þorsteinn Jonsson. Sigurdr Halfdanarson. Narfe Petursson ok Jon Þordarson godum monnum uiturligt med þessu voru opnu brefi þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jesu Christi þusund .cccc. lx. ok þriu aar. in festo Barnabe apostuli j j huestu j Arnarfirde a þingstad rettum vorum vær j dom nefndir af ærligum manne Aurnolfe Einarssyne konungs vmbodhsmanne ath dæma þar vm huort Eiolfr Magnusson mætti nu[1]) retth taka ath sik jordina Deildaraa er liggr aa Skalmarnese j Mulakirkiusokn er þau[1]) hôfdu gefet Dyrfinnu dottr sinne til kaups vid Gunnstein Klemensson suo framth sem hann hefdi fiôgurra hundrada jord ok xx. ok suo mikla peninga adra sem hann talde ser ok hann sagdi bondinn Biorn Þorleifsson hefdi gefit ser. Nu saker þess ath þar kom fram fyrer oss bref bondans Biarnar med hans heilu ok oskoddu hanganda insigle suo hliodande ath hann sagdizt aunga peninga hafa afhent Gunnsteini heitnum ok aunga gefit framar enn svo sem hann hefdi hans lifdaga meint ath forlika med sinni þionustu ok þat annat ath Eyolfe Magnussyne adr handfest tueggia manna vitni suo latande ath Helga Þordardotter hafi ecki framar gefit Dyrfinnu dottr sinne med samþycke Eyiolfs bonda sins en þau skildu ser aptr jordina Deildaraa ef ei fram kæmi jord ok peningar þeir Gunnsteinn talde ser. Ok þui ath uær vissum ath hann hafdi litla[2]) peninga edr aungua dæmdum uær fyrnefndir menn Eyiolfi Magnussyni jordina Deildaraa til logligs hallds ok medferdar þar til laga vegr gengi aa ef nockr ma med rettu aakæra. Samþyckti fyrnefndr Aurnolfr konungs vmbodhsmadr þenna vorn dom. ok til sannenda her vm settum uær fyrnefndir menn vor jnsigle fyrer þetta domsbref er giôrt var j sama stad. aari ok degi sem fyr segir.

[1]) Svo; [2]) fyrst skr. »lvkta«, en síðan settir punktar undir og »litla« skr. yfir línunni.

333. 2. Juli 1463. á Þingvelli.

Skúli Loptsson selr Birni bónda Þorleifssyni jörðina Hlíð í Bolungarvík fyrir Meira-Vatn í Skagafirði.

AM. Fasc. XV, 20, frumrit á skinni. Af fjórum innsiglum, sem hafa verið fyrir bréfinu, eru nú þrjú eptir og eitt af þeim þó mjög brákað.

bref firir hlid j bolungarvik[1]).

þad giorwm vid aurnolfur einarsson ok brandr sigurdzson godum monnum kvnnigth med þessu ockrv brefe ath þar vorvm vid j hia sæm ok heyrdum æ ord þeirra ok handaband af einne alfv biorns bonda þorlleifsonar. af annare skula lopzsonar. ath suo fyrer skildv ath adrnefndr skuli sellde fyr nefndvm birnne jordena hlid er stendr j bolvngarvik j holskirkiv sokn med ollwm þeim gognvm ok gædvm rekvm ok renningwm ok ollum hlvnendum þeim sem fyrr nefndre jordv hefer fylt ath fornv ok nyiv ok hann vard fremzth eigande ath. hier j mote gaf adr nefndr biorn titt nefndvm skvla jordena meira vatn er stendr j skagafirde j mælefellz kirkivsokn med ollvm þeim gognvm ok gædvm er greindre jordv hefer fylt ath fornv ok nyiv ok hann vard fremzth eigande ath. skyllde hvor wm sig biornn þorlleifson ok skule lopzson svara lagariptingv æ þeirre jordv er hvor sellde audrum enn badir hallda til laga.

for þesse giorningr fram ok iardakaup visitacio sancte marie virginis æ þinguelle titt nefndra manna æ millum biorns þorlle(i)fssonar ok skvla lopzsonar.

Ok til sanninda hier wm settvm vid fyrnefndir menn ockr innsigli med fyrr nefndra manna innsiglum firir þetta bref skrifat j sama stad dege sem fyrr seger. anno domini m°. cd°. lx°. iij°.

---

334. 8. Juli 1463. i Kaupmannahöfn.

Bréf Kristjáns Danakonungs hins fyrsta til Íslendinga um sekkjagjöld kaupmanna, um birting stefnu og dóma og um vígsbætr.

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

Bréf þetta er til í fjölda afskripta, og þar á meðal á fjórum skinnbókum, þrem frá 16. öld og einni frá hér um bil 1600, en þó er eingin af öllum þessum afskriptum vel góð. Einna elzt eða jafnvel allra elzt hinna skárri afskripta, sem hafa bréfið heilt, er sú, sem stendr í Öxnafellsbók Bókmentafélagsins 309. 8vo og er ritað af Ara sýslumanni Magnússyni í Ögri nálægt 1620, og er sá texti prentaðr hér sem **A**, en borið saman við lagasafn Magnúsar Ketilssonar, sem látið hefir prenta bréfið í tvennu lagi, og hefir hann haft fyrir sér afskript samkynja Öxuafellsbók, en þau handritin eru fæst, sem svo eru, og sleppa þau flest síðustu greininni um bætr fyrir mannslag. Í þeirri mynd kemr bréfið fram í skinnbók Uldalls (322. 4to) og Thotts (2099. 4to), að þar er bréfið heilt að öðru en því, að slept er síðustu greininni í *A* og dag- og ársetningu. Er sá texti prentaðr hér sem **B**. En þá koma hinar afskriptirnar, sem mylja enn smærra, og gera þær nú tvö skjöl úr þessu bréfi, um leið og þær sleppa alveg greininni um vígsbætrnar (síðustu greininni í *A*). Láta þær þá annað bréfið hljóða um sekkjagjöldin (fyrsta greinin í *A*), en tilgreina hvorki ár né dag, hvenær það sé útgefið. Er sá texti til í tveim skinnbókum, og er bann prentaðr hér sem **C**. Hitt bréfið er svo látið vera um stefnubirtingar (önnur grein í *A*) og árfært rétt, en sagt, að það sé gefið út í Febrúar, ýmist hinn 1., 6. eða jafnvel binn 16. dag í þeim mánuði (sbr. lagasafn MKet. I, 55). Sá texti er prentaðr hér sem **D**. Hvernig það er komið til að dagsetja bréfið 6. Febrúar eða í Febrúar, er nokkurn veginn ljóst, eins og Magnús Ketilsson líka hefir tekið eptir. Það er auðsjáanlega ekkert annað en afbakan úr feria sexta (= föstudagr), sem upphaflega hefir i bréfinu staðið og enn stendr rétt í *A*. En bitt hefir aflagazt í Öxnafellsbók og eins þeirri afskript, sem Magnús Ketilsson hefir haft fyrir sér af *A* og ekki leiðrétt, þar sem stendr ante feriam(!) Margretæ virginis, fyrir: ante festum Margretæ virginis (= fyrir Margrétarmessu meyjar).[1] ) En föstudagrinn fyrir Margrétarmessu 1463 er 8. Júlí, og má það vera óyggjandi, að bréfið sé gefið út þann dag og það ár.

---

## A.

ÍBfél. 309. 8vo bl. 47a—b með hendi Ara Magnússonar í Ögri um 1620 (Öxnafellsbók). Þessi texti er prentaðr í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 51—54, og er sá texti hafðr hér til samanburðar og fyrirsögnin tekin eptir því.

Um̄ seckiagialld. um̄ Stefna og Doma avglysing. um̄ Vijgsbætur.

Vier kristian med gudz nad norgis[2]). suiarikis. danmerkur.

---

[1]) Það stendr rétt í ágripi (D) i MSt. 45. 4to; [2]) Noregis MK.

venda[1]) og gotta kongur. hertugi ut j slesuik. holsten. stormaren og[1]) ditmarskin. [Greife i Oldenborg og Delmenhorst[2]) beilsar[3]) ydur ollum vorum elskuliga almuga og vndirsatum sem biggia og bua up a vortt land Jsland kiærliga med gudi oc vorri nad.

[Eg giore[4]) ydur vitanligt ad oss er til vitanda ordit at vor oc krununnar rettugheit mioc forminkast og firir kemur j þui ad margir af ydur kaupslaga uid utlenska kaupmenn fir enn þeir [utgefit hafa[5]) þeirra seckia[6]) giolld. þui forbiodum vier ollum ad kaupa[7]) uid utlenska kaupmenn fir enn þeir [utgefit hafa[5]) [firnefnd þeirra[8]) seckia[6]) giolld sem gamall sidvane verid hefur. huer hier a moti giorer hefur forbrotid þat goss sem hann kaupir eda so goda peninga og[1]) viij ortog og[1]) xiij merkur j brefabrot.

Jtem er oss uitandi ordit at nockrer af ydur plaga at skiota sier undan rette oc eigi vilia heyra stefnur. doma edur urskurda[9]) vtan ganga helldur leiniliga j burt j skiol at geimast edur j sina garda nær þeir þat fornema. þui vilium vier oc biodum at þeir domar. stefnur edur urskurdar[10]) sem menn so upplesa j hanz gard ella[11]) annarstadar [nær þat lesist med vitnum j[12]) þann gard sem hann geimer sig firir jnnann oc vill eigi heyra. skal fast og stodugt halldast. [sem þad være lesed fyrer honum siálfum[13]).

Jtem vm bætur sem dæmdar [eller sæmdar[14]) verda epter manslag. þeim sem þat ber med rettu epter logum. beydum[15]) vier oc biodum at þat hier epter stodugt og fast þess af[16]) [hinz dauda erfingia[17]) halldist sem þat var til forna af dæmt og giort. enn[18]) þo at vort lanzuistarbref komi þar a moti hliodandi.

bidium vier oc biodum vorum logmonnum oc syslumonnum og almuga at hallda þessa vora skipan oc stirkia ef nockur uill bier a moti gera.

---

[1]) b. v. MK; [2]) [b. v. MK; [3]) heilsum MK; [4]) [Vier giørum MK; [5]) [hafa útgefed MK; [6]) MK; seckta 309; [7]) ecki b. v. 309, sem er ofaukið; [8]) [þeirra fyrrnefnd MK: [9]) urskurde MK; [10]) urskurder MK; [11]) edur MK; [12]) [edur hvorn MK; [13]) [b. v. MK; [14]) [edur samdar MK; [15]) bidium MK; [16]) sl. 309; [17]) [Erfingium þess hins davda MK; [18]) sl. MK.

Datum in castro nostro hafniensi[1]) feria sexta ante festum[2]) beate margrete uirginis Anno[3]) ꝏ⁰ iiijc lx oc iij.

## B.

Uldall. 322. 4to bls. 184a—b, skinnbók frá c. 1570. — Thott. 2099. 4to bls. 405—407, skinnbók, skr. c. 1580. — Texta samkynja þessum virðist Magnús Ketilsson ekki hafa þekt.

kristians ʀ(iettar) ʙ(ot)[4]).

Kristiern med Guds nad: Noregs:[5]) Danmerkur: Suiarikis [Vendis og Gotis[6]) konung: Hertugi[7]) j slesuik. [Greifi j[8]) holsten. Stormaren. j Oldinborg og Delmenhorst. heilsum ollum monnum a Jslandi med Guds kuediu og vorri.

[Er oss[9]) vitanligt ordit ad vor og krununar riettugheit mikit forminkast: fyrer þat: at marger af ydur kaupa vid vtlendska [kaupmenn[10]) fyr en þeir hafa vt giefit þeirra seckia[11]) giolld og riettugheit. og ei vilia þeiʀ þar epter giallda. Þui fyrerbiodum vier fyrer ollum og[12]) huerium fyrer sig at kaupa nockut vid fyrnefnda vtlendska kaupmenn fyr en þeir hafa vt giefit oc golldit fyrnefnt þeirra seckia gialld sem gamall siduandi[13]) er til. Enn huer þar j mot giorir hafi forbrotid þat gods sem hann kaupir edur suo goda peninga og viij ortuga og xiij merkur j brefabrot.

Jtem er oss og[14]) [kunnigt[15]) ordit at marger af ydur plaga ad skiota sier vndan rietti oc vilia eigi heyra. Stefnur Domar edur: vrskurdi. helldur ganga leyniliga a burt j skiol eda garda til at geyma sig. Þui vilium vier og biodum ad þeir Domar: Stefnur edur vrskurdir[16]) sem suo wilia fordast oc wndan ganga j hus edur annarstadar. ad þat lesist j þann gard edur leyni sem hinn geymir sig fyrer jnnan oc vill ecki heyra: skal fast og stodugt halldast sem þat væri lesit fyrer honum sialfum.

---

[1]) hafniensiz(!) 309; [2]) þannig leiðrétt eptir MSteph. 45, 4to skr. á 18. öld; ferium(!) 309; feriam(!) MK: [3]) b. v. MK; [4]) sl. 2099; [5]) kongur b. v. 2099; [6]) [Vinlandz oc Gautlandz 2099; [7]) Hertug 2099; [8]) [sl. 2099; [9]) [oss er 2099; [10]) [Ꝏenn 2099; [11]) 2099; secka 322 hér); [12]) ydur 2099; [13]) siduani 2099; [14]) sl. 2099; [15]) [kunnugt 2099; [16]) wrskurdar 2099.

## C.

AM. 345. Fol. bls. 162—163, lögbók Einars Ísleifssonar á Reykjum, á skinni, skr. c. 1570. — Stockholm. membr. C8 bls. 237, skr. c. 1608. — Gl.kgl. saml. 1159. Fol. bls. 528—29, á pappír, skr. c. 1640 (bók höfuðsmannanna á Bessastöðum). — Dómabók úr safni Jóns Pétrssonar, kölluð Ƴb, skr. c. 1630—40. — Magnús Ketilsson virðist ekki hafa þekt þennan texta.

Riettar Bot Kongs Kristians.[1])

Wer Kristian med gudz [nad danmerkur. noregs. suiarikis[2]) [kongur et cetera[3]). heilsum[4]) ydur aullum vorum elskuliga[5]) almuga og vndersatum sem biggia og bva uppa vort land jsland kiærliga[6]) med gudi og vorri nad.

[Uier[7]) giorum[8]) ydur kunnigt[9]) ad oss er uitannligt[10]) ordit ad vor og krvnunnar riettugheit mikid forminkast[11]) og eidist[12]) j þui ad[13]) marger af ydur kaupslaga uid vtlendska kaupmenn fyrr enn [þeir utgefid hafa sijn[14]) seckiagiolld[15]) [og vanalega[16]) rentu og sijdann uilia þeir ei bitala sijn seckiagiolld[17]).

[Þui fyrirbiodum vier aullum ad kaupa nockru vid vtlendska menn fyr enn þeir vtgreitt hafa sijn[18]) fyrnefnd seckiagiolld[19]). sem gamall sidvani [hefur verit[20]). Hver hier j moti giorer hefur forbrotid þat goss sem hann kanper edur svo goda peninga og viij ortog og xiij merkur j brefabrot.

[Datum et cetera[21]).

---

[1]) R. B. K. C. ad einginn kaupi vid vtlendska fyr enn þeir hafa golldit sitt veniulegt gialld C8; Kong Christiäns Riettarbot. ad eingen kaupe vid vtlendska fyrr enn þeir haffa golldid seckttagiolld(!) 1159; [2]) [Noregis Suijrijkis(!) og Danmerckur C8; sl. 1159; [3]) [sl. 345, 1159; [4]) heilsa 345; [5]) elskulegum C8, 1159, Ƴb; [6]) sl. 345; [7]) og 1159; [8]) [Eg giori 345, 4b; [9]) vitanleg (viturligt) C8, 1159; [10]) kunnugtt C8, 1159; [11]) minkast 1159; [12]) Eydast 1159; [13]) af C8; sl. 1159; [14]) [þier utgeffid ydartt 1159; [15]) sektagiolld 345, C8, .Ƴb; seckttagialld 1159; [16]) veniulega C8; [17]) sektagiolld 345, C8, Ƴb; [sl. 1159; [18]) b. v. 1159; [19]) sekkttagiolld C8, 1159, Ƴb; [sl. 345; [20]) [verid hefur 1159: [21]) [sl. 345, 1159, Ƴb.

### D.

Bibl. Bodl. Oxford. FMagn. 127. 4to bl. 196—197, dómabók, skr. c. 1640. — AM. 211c. 4to bls. 58, dómabók skr. c. 1680—1700. — Lagasafn Magnúsar Ketilssonar I, 55—56.

R(éttar) B(ót) eður bréf k(ongs) Christians þess fyrsta með því nafni um menn, er eigi vilja stefnur né dóma heyra[1].

Vér Christian með guðs náð [Noreyis[2]). Svíaríkis og Danmerkur kongur[3]) gerum öllum viturlegt, að fyrir oss er komið, að[4]) nokkrir[5]) af yður, vorum undirsátum á Íslandi, plaga að skjóta sér undan rétti, og vilja ei heyra stefnur né[6]) dóma eður[7]) úrskurði, utan ganga heldur [venjulega í[8]) skjól og geymast, nær þeir það fornema, [að þeir skuli sækjast lagasóknum[9*]). Því [biðjum vér og bjóðum[9]), að þeir dómar, stefnur og[10]) úrskurðir, sem [mann eður[11]) menn svo [upp[11]) lesa í hans garð[12]) eður annarstaðar, [eður hvern þann garð[13]), hann geymir sig fyrir innan og vill[14]) ei heyra, skal fast og stöðugt haldast sem það væri lesið fyrir honum sjálfum.

[Gefið upp á vort slot[15]) Kaupinhafn[16]) [feria sexta ante festum beate Mariæ virginis Anno[17]) 1463.

[Undir vort signet[18]).

---

## 335. 1. August 1463. Hjarðarholti. 31. Juli 1478. á Brunnáreyum i Saurbæ.

Sigurðr prestr Brandsson og Finnr Pétrsson lýsa því, að þeir hafi ásamt sex dandimönnum verið tilnefndir af Helga officialis Þorkelssyni í umboði Jóns Krabba Stephánssonar biskups í Skálholti til að meta staðinn og kirkjuna í Hjarðarholti í Laxárdal.

---

[1]) þannig 127; sl. 211 & MK; [2]) 127; Noregs MK; [3]) [et cetera 211; [4]) það 211; [5]) nokkur 127; [6]) sl. MK; [7]) og 211; [8]) [í leynileg 211; [9*]) [b. v. 211; [9]) [bjóðum vér 211; [10]) eður 211; [11]) [sl. 211; [12]) garði 211; [13]) [nær það er lesið með vitnum í þeim garði, sem 211; [14]) vilja 127; [15]) [Útgefið á voru sloti 211; [16]) [Dat(um) Kaupmannah. MSt. 45; [17]) [MSt. 45; 1. dag februarij árum eptir guðs burð 211; 6. Februarij Anno, Bodl. 127; [18]) [b. v. 211.

AM. Apogr. 2276. »Ex originali Hiardarholt. accuratissime. Tvö innsigle hafa vered firir brefinu. Nu er eigi epter nema þad fyrra«. (AM.). »Brefed tekr miög so ad trosna« (AM.).

Þat giore ek sigurdur prestur brandzson. ok finnur petursson godum monum uiturligt med þessu ockru opnu brefi þa lidit war fra hingatburdi vors herra jehsu christi þusund fiogur hundrut sextiger ok þriu ar. a mänudaginn næsta epter olafsmessu hina fyrre wm svmarit j hiardarhollte j laxardal j breidafiardardolum worum uid tilnefnder med odrum sex dandimonnum lærdum ok leikum af ærligum manni sira helga þorkelssyni er þa war officialis heilagrar skalholltz kirkiu j millum huitar j borgarfirde ok hrutafiardarar. ok þa hafdi logligt wmbod af herra jone krabba stephanssy[ne m]ed gudz nâd biskup j schâlhollte til þess at lâta giora kirkiuna ok adur nefndan stad hiardarhollt huersu gott ad os uirdtizt þat wera huort wm sig. giordu wær kirkiuna sialfa firir halfan þridia tôg hundrada. enn forkirkiuna firir fimm hundrud at auki. husagardinn a stadnum med fiose ok hlödu firir þriatiger hundrada.

Ok til sanninda hier wm settvm uid fyrrnefnder menn ockur jnncigle firir þetta vitnisburdarbref skrifat æ brunnareyrum j saurbæ föstudaginn næsta efter olafsmessv ena fyrre. þa er lidit war fra hingatburdi wors herra iehsu christi þusund fiogur hundrud siötiger ok ætta ar.

---

## 336. 4. August 1463. á Ási i Holtum. 1. Juli 1468. á Þingvelli.

Vottorð tveggja manna um, að þeir hafi verið hjá, þegar Magnús Þorláksson seldi Birni bónda Þorleifssyni jörðina Oddgeirshóla í Flóa fyrir tuttugu kúgildi búlæg og tuttugu hundruð í öllum þarflegum peningum.

Bisk. Skalh. Fasc. XVI, 2, frumritið á skinni. AM. Apogr. 2480 með hendi Árna Magnússonar eptir frumritinu »accuratissime«. Þá var síðara innsiglið dottið frá. Það, sem hér er sett í hornklofa, varð ekki lesið á dögum Árna, því at dottin voru göt á bréfið, og fylti hann það út að ágizkan.

þat giorum vid sigurdr jonsson ok gizur biornsson godum monnum witurl[igt med] þessu ockru opnu brefi at þa er lidet uar fra hingadburd vors herra jesu christi. þusund fiogur hundrud sextiger ok þr[iu] ar. j asi j holltamanna hrepp fi[mtu]daginn næsta epter olafsmessu furre voru vit j hia saum ok heyrdum ꝍ ord ok handaband þess[ar]a manna af einne alfu biarnar bonda þorleifssonar. Enn magnus þorlakssonar af annare alfu. at suo firir skildu at adr nefndr mag[nus] selldi furgreindum birni bonda jordina halfa er oddgeirsholar heita er liggr j floa j hraungerdis kirkiusokn med aullum þeim gaugnum ok gædum sem greindri jordu fylger ok fylgt hefer at fornu ok nyiu ok hann uard fremst eigande at til æuenlegrar eignar undan sier ok sinum erfingium enn unnder hann ok hans erfingia. hier j moti gaf furnefndur biorn þorleifsson fioretigi hundrada med þessum fridleika. xx. kugillde bulæg ok. xx. hundrud j aullum þarfligum peningum. samþyckti þenna giorning jngibiorg bryniolfsdotter kuinna adr nefndz magnus med fullu jayrde ok handabande. skyllde optnefndr biorn hallda til laga. enn tittnefndr magnus suara laga riptingium ꝍ furgreindri jordu oddgeirsholum.

Ok til sanninda her um settum uid adrnefnder menn ockur jncigle firir þetta jardakaups bref skrifad á þinguelli faustudagin næsta epter petursmessu. anno domini ᴍ⁰. cd⁰. lx⁰. octauo.

---

337. 14. August 1464. i Arnarholti.

Henrik Kepken, umboðsmaðr Kristjáns konungs hins fyrsta, kvittar Björn Þorleifsson hirðstjóra sunnan og austan á Íslandi fyrir hálfu öðru hundraði nóbila og þrettán betr, er Björn geldr sem fyrsta sal upp í eignir Guðmundar Arasonar.

AM. Fasc. XV, 27, frumritið á skinni, og er innsiglið fyrir. Gat er á bréfinu, en það má fylla eptir Fasc. LXV, 12, sem er transskript á skinni frá c. 1485.

Kvittvnarbref af henrek firir gudmundar peningum[1]).

Þath giore ek henrek kepken godum monnum witur-

[1]) Utan á bréfinu með hendi Björns ríka. »Hier greiner huat golldit var j fyrstv savl kong(s)ins vmmbodzmanni henrek kepkenn« LXV, 12.

legth[1]) med þessu minu brefe ath eg medkenunzth ath ek hefe wpp borith ok medtekith wpp a mins herra kongs[2]) kristierns[3]) wegna af birni þorleifssyni hirdstiora sunnan og austan æ jslande suo marga peninga j silfri.

J fysstu grein fim krossar. tueir silburlindar forgyllter [ein sylgia[4]). wegr þetta alltt samañ xij merkur ok halfur annar eyrer.

jtem huitur silfurlinde ok wegr halfan þridia eyri ok xx. anar huitur silfrlinde ok wegr fim[5]) aura ok xx peninga. ed þridia huitt silfurbellte ok wegr x a[ura].

jtem ogylltur kros festarlaus. wegr xv peninga oc vij aura.

jtem ij stiettar ker med silfur ok wega bæde samtt [ij merku]r ok ij avra.

Jtem niu silfurskaler forgyilltar æ botninvm ok wega allar saman halfa x maurk. viij silfurskaler huitar ok uj silfurstaup. wegr þat allt saman halfa xi maurk. huitt silfur af fim hornum ok uegr fiorar merkr ok vij aura ok eitt silfurbellte huitt ok wegr xv aura. silfur af einne spiru ok wegr halfan xj eyrir ok lesst skreidar. reiknazth þesser aller peningar fyʀ greinder firer halft anath hundrat nobil ok þrettan nobil betur.

lysste fyr greindr biorn ath þessa fyʀ greinda peninga lykte hann j þath sama gialld er hann var lofande kong kristiern firer peninga gudmundar heitins arasonar.

ok þui giorer eg adr greindr henrek fyr greinda(n) biorn aullungis kuittan ok œkærulausan wpp æ mins nadug[6]) herra kongs[7]) kristierns[8]) wegna ok firer aullum hans erfingium ok eptter komendum riettvm formonnum krununar j noregi af suo myklu sem ek hefer wpp borith ok fyrr skrifath stendr.

for þessi giorningr ok kvitan fyʀ greindra mana j milli henreks ok biarnar fram j arnarhollte j borgarfirde med fullu handabande maurgum dandemonnum hiæ weraundum.

ok til sanninda hier wm setta eg mitt insigli firer þetta bref skrifad j fyʀ saugdu arnarholltte sunnudagin næssta firer

---

[1]) vithanligt LXV, 12; [2]) kong LXV, 12; [3]) kristiarnns LXV, 12; [4]) [eitt niste eda sylgia LXV, 12; [5]) ix, LXV, 12; [6]) nadogs LXV, 12; [7]) kong LXV, 12; [8]) kristiarns LXV, 12.

mariumessu[1]) þa lidet war fra hingatburd wors herra ihesu christi ϻ° cccc ok vj tiger arū ok iij betur.

---

338. 2. September 1463. á Skinnastöðum.

Jón Eyjólfsson selr Ólafi kiskupi Rögnvaldssyni til fullrar eignar jörðina í Guðmundarlóni á Langanesi með rekaparti í Dritvík, en Ólafr biskup láti kenna syni Jóns tólf vetra gömlum til prests; kvittar og biskup Jón um rekatöku, en Jón galt fyrir sex málnytukúgildi.

AM. Fasc. XV, 19, frumritið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu. Þrjú af þeim eru nú dottin frá.

vm jordina gudmundarlon[2]).

Þat giorvm uier sveinbiornn prestur þordarson officialis heilagrar holakirkiu. hallr arnason. oddr gudmundzson. petur hannisson. prestar. pall brandzson ok olafr ionsson leikmenn godvm monnum vitvrligt med þessv voro opno brefue at uier uorvm þar i hia saum ok heyrdum a midkudagin[3]) nęsta fyrer egidivsmessv[4]) i gudmundarloni a langanesi ord ok handaband uors nadvga herra olafs med gvds nad biskups a holum ok ions eyolfssonar at suo firer skildv ath ion eyolfsson feck biskupinum til fvllrar eignar alla iordina i gvdmundarloni er liggr i savdanes kirkiu sokn med ollvm þeim gognvm ok gędvm sem greindre iordu fylger ok fylkt hefer ath forno ok nyo ok hann uard fremzt eigandi ath med svo vordnum skildaga at biskupin skylldi taka at sier son ions tolf uetra gamlan ok lata kenna honum til prestz. kynni pilzins vid ath missa þa skylldi ion setia annan sinn son aptur i kenzluna þar til allz tolf ara vęri lidin hedan fra en iordin skylldi obrigdilig eign biskup(s)ins ok kirkiunnar a holum hedan fra. suo eige sidr feck adr greindr ion fyrr sogdvm biskup olave ok kirkivne a holvm til fullrar eignar allan þann rekapart sem atti i dritvik a langanesi ok þar til feck þrattnefndr ion fyrskrifudum biskup olave vj mal-

---

[1]) mun vera Maríumessa fyrri, 15. Aug.; [2]) utan á bréfinu með fornri hendi; [3]) mikdkudagin. frbr.; [4]) þ. e. 31. Aug.

nytukvgilldi til fvllrar eignar fyrer þa akęru er biskupinn kęrdi til hans ath hann hefdi gripit holastadar uidv rangliga. skylldi hann þar vm kvittr. ath þessv avllv fyrskrifvdv haulldnv skylldi ion svara laga riptingum a greindre iordu en biskupinn hallda til laga.

ok til saninda hier vm settum ver fyr nefnder menn vor incigle fyrer þetta bref skrifat a skinnastodvm i avxarfirdi a faustudagin nęsta epter egidivsmesso anno domini ꝏ⁰ cccc⁰ sexagessimo tercio.

---

339. 2. September 1463. á Skinnastöðum.

Ólafr biskup Rögnvaldsson selr Oddi Þorbjarnarsyni jörðina Haldórustaði í Ljósavatnsþingum fyrir Leifstaði í Öxarfirði.

AM. Fasc. XV, 23, frumritið á skinni. Fimm innsigli eru fyrir bréfinu, en eitt er dottið frá. Apogr. 3171, 2923—24.

bref vm jordina leifstade[1]).

Þat giorum vier sueinbiorn prestr þordarson officialis heilagrar holakirkiu. petur hannisson. prestar. magnus magnusson. olafur jonsson. ellendur gunlaugsson oc hauduar arnason. leikmen[n]. godum monnum viturligt med þessu voru hrefe at þar voru vær j hia saum ok heyrdum æ æ leifstaudum j auxarfirde. ord ok handaband vors naduga herra herra olafs medr guds nad biskups æ holum oc oddz þorbiarnarsonar at so fyrer skildu at biskupen sellde adur greindum odde jordina halldorisstade er lig(g)ur j liosavatzþingum med aullum þeim gognum ok gædum sem greindre jordu fylger oc fylkt hefer at fornu ok nyu ok kirk(i)an æ holum vard fremst eigande at.

Hier j mot sellde adr greindur oddur fyr saugdum biskup olafe jordena leifstadi j auxarfirdi j skinnastada þingum med aullum þeim gognum ok gædum sem greindre jordu fylger ok fylkt hefer at fornu ok nyu oc hann vard fremst eigande at. skyllde huor suara lagariptingum œ þeirre jordu er sellde. en hallda þeire til rettra laga sem huor keypte.

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

oc til sannenda hier vm settum vier fyr nefndir menn vor jncigle fyrer þetta jardakaupsbref skrifat a skinnastodum j auxarfirde faustudagen næsta epter egidiusmessu. anno domini m°. cd°. lx°. tercio.

---

**340. 16. September 1463. á Ytri-Laugum.**

Arngrímr Þórðarson selr séra Þorsteini Jónssyni jörðina Presthvamm í Grenjaðarstaðarþingum með Kristfjárómaga, fyrir tuttugu hundruð í fríðum peningum.

AM. Fasc. XV. 26, frumritið á skinni; innsiglið er dottið frá.

vm jordina presthwam[1]).

Þat giorir eg arngrimur þordarson godum monnum uiturlikt med þessu mino oppnv brefi at eg hefi feingit sira þorsteine jonssyne til fullrar eignar jordina halfan presthvam er liggur j greniadarstadar kirkivsokn med ollvm þeim gognvm ok gædvm sem greindri halfri jordo hefir fylkt at fornu ok nyo. skal hann suara kristfiar omaga fyrer halfa jordina sem mier hefer borit at suara. hier j mot skil eg mier af sira þorsteine fyrer sagda halfa jord tuttugu hundrud j fridum peningum ok friduirdum. skal ek suara lagariptingum a iordune en sira þorsteinn hallda til laga. ok til sannenda hier um sette eg arngrimur þordarson mitt jnsigli fyrer þetta bref er giort var a ýttrum laugum j reykiadal faustudagin næsta epter krossmessu a haustid. anno domini m° cd° lx° tercio.

---

**341. 16. September 1463. 25. Februar 1464. á Grýtubakka.**

Samningr Eyjólfs bónda Arnfinnssonar og Odds bónda Þorkelssonar um arf þann, er Eyjólfi hafði fallið eptir Guðrúnu Arnfinnsdóttur systur sína.

AM. Fasc. XV, 28, frumritið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá. Bréfið er frá Staðarhóli. Apogr. 1483 (eptir frumritinu).

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

Same Eiolffs Arnfinssonar Riddara og Odds Þorkelssonar um̄ arf og peninga effter Gudrunu Arnfinnsdotter Sistur Eyolfs Arnfinssonar[1]).

Þat giorum vær steingrimur isleifsson. ion magnusson. þorstein branzson. ion haugnason. grimr þordarson oc þorbiorn sigurdzson godum monnum kunnict. ad þa er lidit var fra hingat burd værs herra iehsu christi. ᴍ. cd. lx. oc iij ꝛr vorum vær j hia sꝛm oc heyrdum ꝛ faustodagin næsta firir mattheusmesso ewangeliste ꝛ grytobacka j haufdahuerfui ord oc handaband þessara manna odz bonda þorkelssonar oc eyiolfs bonda arnfinzsonar. at þeir vrdu ꝛsꝛtter vm allan þann arf sem fallit hafdi greindom eẏiolfui efter gudruno arnfinzdottur systur sina med þessum skilldaga sem her seger. ad fyrr nefndr oddr skylldi eiga þriꝛr iarder er suo heita þorodzstader. gauzstader j sualbardzþingum oc yztu vik j laufæs kirkiu sokn oc þar med iij kugilldi oc xx er þar stendr med ꝛdrgreindum iordum j þær giafer er gudrun heitin hafdi gefit fyrrnefndum oddi bonda sinom. Ꞓn oddr þorkelsson ædrnefndur feck aptur med handabandi eẏiolfui arnfinzsyni fyrrnefndum til fullrar eignar iij iarder er suo heita gazuik j sualbardzkirkiu sokn. nes oc miduik j laufæs þingum er greind gudrun hafdi gefit honum. Gaf tittnefndur eyiolfur fyrrnefndan odd quittan vm allar iarder þær er hann hafdi selt oc optnefnd gudrun ætti firir sier oc sinom efterkomendum. Ꞓn alla peninga adra sem fallit hafdi nefndum eyiolfui firir nordan land i greindan arf skal hann eignazt oc ad sier taka j kuico oc daudu. fa[ustu] oc lausu. huar sem hann kann vpp ad fretta huort sem þeir hafua verit lener eda bygder vndan tecknum smiorum þeim sem inn voro flutt til sualbarz. feck opttnefndr oddr tittnefndum eyiolfi iardernar suinærnes oc midhus j grytubacka þingum til fullrar eignar oc skylldi fyrrnefndr eyiolfur luca x kugilldi er efter stod oluct j iardar verd firir suinærnes. Skal oftnefndur eyiolfur eignaztt oc ad sier taka allar landz skyllder af greindum iordum ad næstum fardaugum oc suo kugillda leigur huar sem efter stædi. oc allar adrar skulder er þessum peningum til heyra. Oc hier efter gaf eyiolfur odd kuittan firir þurd af ollum peningum oc

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

greindum arfui oc porcio kirkiunar æ grytobacka er fallit hafdi suo leingi sem hann hiellt. Suo oc ei sidr gaf ofttgreinndr oddur eyiolf quittan oc ækærulausan firir allar þær giafer sem gudrun þrattnefnd hafdi honum gefuit oc baurnum hans þo ad lauggiafer mætti frecari verda. Skylldi ædrnefndr oddr luca alltt testamentum firir sunnan land er gudrun heitin hafdi þar gefit j skalhollzkirkiu biskupsdæmi oc eignazt hennar þing oc klædnat er þar var efter oc allt lausafe.

Oc til sanninda hier vm settum vær fyrnefnder menn vóór inscigli firir þetta bref er giort var æ grytubacka laugardagin j imbruviko næstan firir sancte iohannes holensis episcopi æri sidar en fyr segir.

---

342. 20. September 1463. undir Ási.

Kaupbréf fyrir staðnum undir Ási í Fellum með tilgreindum eignum og ítökum kirkjunnar.

AM. 263. Fol. bls. 19, skr. 1598 (máldagabókin forna frá Skálholti). — Biskupsskjalasafn Skalh. Fasc. X, 4; er það transskr. gert í Skálholti 11. Nóv. 1662 af Oddi skólameistara Eyjólfssyni, Torfa kirkjupresti Jónssyni, Ólafi locator Jónssyni, Þórði presti Sveinssyni, Gísla Sigurðssyni og Sigurði Björnssyni, (eptir AM. 263. Fol.). Afskript af því transskr. er meðal fornbréfaafskripta Árna Magnússonar 2611. AM. 274. Fol. 133, bréfab. Brynjólfs biskups, eptir transskr. 11. Nóv. 1662.

KaupBrief firir stadnum vnder Äse huar avijsar vmm kirkiu eignn. [er þetta bref þar med tvejmur hangande innsiglum[1]).

Þad giorum vier Benedict Sæmundsson. Gudmundur Biarnarsson. Sigurdur Hallvardsson. Helgi Gudmundsson. Suerer Einarsson godum mönnum viturligt med þessu voru opnu briefe þä lidid var frä hijngadburd vors herra Jesu Christi þusund fiögur hundrud sextiju oc þriu är þridia dag hinn næsta fyrer festum Matthei Apostuli et Evangelistæ. vnder Ase j fliotzdalzhieradi. vorum vier j hia. säum oc heyrdum ä ad Magnus

---

[1]) [bætt við með hendi Odds biskups.

arnason selldi þorgils finnbogasyne. med handabandi til fullrar eignar jordina vnder äse j fellum j fliotzdalshieradi med ollum þeim gognum oc giædum sem greindri jôrdu fylger oc fylgtt hefur ad fornu oc nÿiu oc hann vard fremzt eigandi ad med lôgum. med fullu vpplæge oc samþycki solveigar jonsdottur konu sinnar. Enn hier j mot gaf fyr greindur þorgils adrgreindum Magnuse jarder er so heita. liotzstader er liggia j vopnafirdi j hofsþijngum. og halfa breidamyre oc aland j þistilsfirdi j sualbardz þijngum. med ollum þeim gognum oc giædum sem greindum jordum fÿlger oc fylgt hefur ad fornu oc nÿiu oc hann vard fremst eigandi ad med lôgum. Luckte optnefndur Magnus kirkiunne vnder äse v$^c$. j jordunne krosse er liggur j fellum j äsþijngum. enn selldi tijdtt nefndum þorgils j$^c$. j fyrnefndri jôrdu. med ôllum þeim gôgnum oc giædum sem greindri jôrdu fÿlger oc fÿlgt hefr ad fornu oc nyiu. skylldi þrattnefndur þorgils suara portio Ecclesiæ medan Magnus hafdi halldid þui sem fallid hafdi. oc v. kugilldum. enn Magnus ij. kugilldum. bænhusinu a Liotzstôdum: sagdi þorgilz bænhus skÿlld a älandi. lofadi Magnus ad luka kirkiunne vnder äse v. kyr ad næstum fardôgum oc þar til iij$^c$. sagdi optnefndur Magnus ad kirkian under äse ætte fiordung j ossrekum aullum bædi huals oc vidar. fiordung j sledbriotzreka j fimm hundrudum bædi huals oc vidar. Sagdi Magnus landamerki ad stadurinn ætti vt ad ormastadaä. oc nordur a heidi med ormastadaä. sem hun fellur til. enn j mille hofs oc stadarens vr þorvardzvôrdu oc ofan j foss firi framan Asgerdi. oc vr fossinum sionhending j midtt skarfanes oc ofan j fliot. jord vt med heidi frä næsta læk. firir framan fiallssel oc vt j ytre grænur. eingiteig j medalness jord j Hlôdugeil. skogar partt j medalness land. fyrer vtan kolageil. Skogar partt j Hrafnsäse firi nedan gôtuna. Skogar partt j eckiufells jôrd. fyrer vtan einhleypingsvad: hundrad lamba beit vt a vestureÿar: j kijla merke. Skylldi huor suara lagariptingum a þeim jôrdum er selldu. enn hallda til laga þeim er keyptu. Skilde Magnus sier aptur xx hundrada jôrd oc viij kugilldi ef af geinge jardernar. Ok til sanninda hier vm setium vier fyrskrifader menn vor jnsigli fyrer þetta Brief. Skrifad j sama stad. deigi oc äri sem fyrr seiger.

343. 10. Októher 1463. í Skörðum.
10. April 1466. á Munkaþverá.

Björn Sæmundsson gefr með samþykki Sigurðar sonar síns Halli Jónssyni til kaups við Guðnýju Ólafsdóttur jörðina Dattstaði (Daðastaði) í Einarsstaðaþingum.

ÍBfél. 67. 4to bl. 46, »Iclis« með hendi séra Eyjólfs á Völlum (d. 1745).

[Utskript] af Giafabrefi Biarnar Sęmundssonar.

Þat giorum ver Brodir Einar med Guds næd æboti æ Munkaþveræ. Stigr Yngimundarson og Eyrekr Stephansson prestar. Hækon Hallsson. Stephan Einarsson ok Bergr Sigurdsson leikmenn. godum monnum kunnigt med þessu voru brefi. ad sub anno gratiæ ϖ. cccc. lx. iij. i Skôrdum i Reykiahverfi mænadaginn nerstan fyrir festum Reliquiarum. vorum ver j hiæ sæum og heyrdum (æ) ad Biorn Sęmundsson gaf med handabandi Halli Jonssyni til fullrar eignar jordina Dattstadi er liggr j Einarsstada kirkiusokn. med ôllum þeim gôgnum og gędum. sem greindri jôrdu fylgir og fylgt hefr ad fornu ok niu og greindr Biôrn vard fremst eigandi ad. fyrir. xxxc. til kaups vid Gudnyiu Olæfsdottr. Sagdi Biôrn Sęmundsson ad gardr sæ. sem liggr j mirinni fyrir sunnan Hola og gengr upp æ æsinn nedan fra ænni. redi landamerkium midlum jardanna Hola og Dattstada. Skildi optnefndr Biôrn Sęmundsson sier ad kaupa fyrstum aptr jôrdina fyrir. xxxc. ef ædurnefndr Hallr villdi selia.

Samþykti Sigurdur Biôrnsson þessa giôf med handabandi.

Og til sanninda hier vm settum vier vor innsigli fyrir þetta bref. skrifad æ Munkaþvera i Eyiafyrdi fimtudaginn næstan fyrir festum Tiburtii og Valeriani þrem ærum sidar en fyr segir.

---

344. 24. Októher 1463. á Reynistað.

Þorsteinn prestr Jónsson lofar að lúka Ólafi biskupi og heilagri Hólakirkju sextigi hundraða fyrir þann reikningskap, er hann átti honum að standa og Hólakirkju í ráðsmannsstarfi síðan Gottskálk biskup deyði, og leggr séra Þorsteinn þá þegar

tvær jarðir í skuldina, en alt sé lukt á þrem árum, og gefr þó biskup tíu hundruð kvitt fyrir bón abbadísarinnar (á Reynistað) og hústrú Margrétar (á Möðruvöllum).

AM. Fasc. XV, 18, frumritið á skinni. Fjögur innsigli eru fyrir, en tvö eru dottin frá.

bref vm jordina j holte ok presthwam[1]).

Þat giorum ver jon prestur broddason radzmann a holum. sigurdr jonsson. petur hannisson. jon þorsteinsson. steingrimur steinmodzson. prestar ok eÿolfur teiztson leikman. godum monnum uiturligt med þessv vorv brefi. ath þar vorum ver j hia sæum ok heÿrdum æ ord ok handaband virduligs herra ok andaligs faudurs herra olafs med gvds nåd biskups æ holum af einne alfu. En sira þorsteins jonssonar af annare j kapitulahusinu a stod j reynesnesi manadagin næsta firir festum apostolorum simonis et iude. anno domini m° cd° lx°. tercio. ath suo firir skilldu at sira þorstein lofade. ath lvka fÿr nefndum biskup olafe ok holakirkiu. lx. hundrada firir þann reikningskap er hann atti honum ath standa ok heilagri holakirkiu j radzmanz starf sidan biskup gotbskalk deÿde. handlagde hann biskupinum til fullrar eignar ok holakirkiu. þa strags. xiij. hundrud j jordunne j hollte er liggur j hunavazþingi j hialltabacka kirkiusokn. ok halfan presthvam. er liggur j greniadarstadar kirkiv sokn med ollum þeim gognum ok gædum er greindum jordum hefer fylgt ath fornnu ok nyiu. skal biskupin svara kristfiar omaga j greindvm halfum hvammi til mozt vit þann er greinda jord eigr til halfs vit hann. ok þar til frid ·xvij. hundrvt ath vorlagi. lofade ok títtnefndr sira þorstein. ath luka her til biskupinum innan þrennra. xij. manada. xviij. hvndrut epter þvi sem þeir ÿrde bader asatter. gaf biskupin honum kuitt ath auk. x. hundrut firir bæn abbadissarinnar ok hvstrv margretar. skal sira þorsteinn svara laghariptingum æ jordunum en biskupin hallda til laga.

Ok til sanninda her vm settvm ver fÿr nefnder menn vor incigle firir þetta bref skrifat j sama stad deigi ok are sem fÿr seger.

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

345. 10. Nóvember 1463. á Hofi á Höfðaströnd.

Brandr Jónsson lögmaðr norðan og vestan á Íslandi úrskurðar, að Ólafi biskup Rögnvaldssyni skuli gjaldast allir skattar, skyldur og sakeyrir um Hegranessþing, samkvæmt bréfi Kristjáns konungs (frá 29. Nóv. 1459, Nr. 187).

AM. Fasc. XV, 25, frumritið á skinni og er innsigli lögmanns fyrir bréfinu; Fasc. XV, 24, transsskript á skinni frá 29. Apr. 1469.

wrskurdarbref brandz laugmanz[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra sender brandr jonsson laugman nordan ok vestan æ jslande kuediu guds ok sina kvnnigt gerande ath þa er lidit var fra hingath burd wors herra jehsu christi þusund fiogur hundrvt sextiger ok þriv ær. æ hofue æ haufdastraund æ þingstad Rettum fimtudagin næsta firir marteinsmessu æ almenniligv þinge. kom firir mic olafur bonde grimsson er þa hafdi sÿslv j hegranes þinge ok birte firir mer opit bref vars naduga herra kong kristierns med gudz nad noregs kongs med hans hanganda jnsigli huar vtj stod ath hann hefde vnt virdiligvm herra olafue med guds nad er nv er biskup æ holum alla skatta. skylldur ok sakeÿre til fullrar eignar j skagafirde sem almvgin er skyll-dugur vpp æ krvnunnar vegna.

beidde ok krafd(e) greindr olafur mic laga vrskurdar vpp æ ok sva hefer biskup olaf æ holum beitt mic adr optliga vrskurdar vpp æ huortt hann skillde eiga alla skatta. skÿlldr ok sakeyre j adr greindu hierade skagafirde epter þvi sem minn herra kongrin hafde honum vntt ok feingit. ok nu saker þess ath mer lizt minn herra kongrin mega gefua ok selia sinn skatt skylldur ok sakeyre huerium sem hann vill. þess ok annars ath eg veit eigi ath minn herra kongrin hafe hier adra skipan æ giortt. J þridiu grein ath almugen j skagafirde hefer efanligur j verit huortt biskup olaf hefde skattin att ath tacka edur eigi. Þui ath til kaulludum þeim beztum monnum sem hia mier woro ok mer samþyckiandvm ok ath sua profudu male sem þa kom firir mic sagda eg j gvds nafne amen med fullum laga vr-

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

skurde ath optnefndr biskup Olafr ætti oc hefde att ath tacka til fullrar eignar alla skatta skylldur oc sakeyre i Skagafirde epter þui sem vors naduga herra kong kristians bref þar vm giortt vtvisar ok þeir aller kvitter kongdomsins vegna er honum giallda edr golldit hafua skatta skýlldr ok sakeyre eda þeim sem hann til skipar med ath tacka sinna vegna.

Ok til sanuinda hier vm[1]) setta eg mitt jnsigle firir þetta vrskurdarbref skrifat j sama stad dag ok ær sem fýrr seger.

---

346. 1463.

Afhending staðarins í Hólum í Hrunamannahrepp (Hrepphólum), þegar séra Hreinn Bjarnarson slepti, en séra Jón Ólafsson tók við.

AM. 262. 4to bl. 1b, skr. c. 1600. — AM. 66. 8vo skr. c. 1600.

Sietti māldagi.

Anno domini 1463 voru suo mykler peningar oc suo mykil innstæda kyrckiunnar j Holum þa sijra Hreinn biarnarson afenti. Enn sijra Jon Olafsson medtok.

xv kyr og viij asaudar k(ugilldi).
xx og iiij sauder veturgamler firir xij ær.
item iiij kalfar og iij hestar. vij agilldum huer.

---

347. 1463.

Skrá um eignir Reykholtskirkju, þegar séra Hrafn Gilsson meðtók, en Einar bóndi Ormsson afhenti.

AM. 257. 4to skb. samtíða. — AM. Apogr. Nr. 2219, afskript með hendi Árna Magnússonar »epter fornre māldagabok skrifadre ā kalfskinn« gerð í Skálholti 25. Júlí 1711.

Peturs kirkia j Reÿkiahollti a heimaland allt. luktuz þar anno domini ꝏ°. cd°. lx°. iij. þa sira hrafn gilsson medtok enn einar bondi ormsson afhenti.

Jn primis. xx. kyr heima en halft xvij. kugillde j asaud. v. aurar ens tiunda kugilldis. j gelldfee. x. kalfar oc ij. sauder weturgamler firir ij. hundrud.

[1]) XV, 24; sl. XV, 25.

Jtem suo maurg kugillde med stadarens jordum. med hofstaudum v. kugillde.

Jtem med nordr Reÿkium ix. kugillde.

med breidabolstad. v. kugillde.

Jtem med grimsstaudum. v. kugillde.

med kopa Reykium vj. kugillde.

En kiauluararstader oc hraunsas woro j eÿde oc ecki kugillde med.

Jtem woro þar ix. hundrud j metfee woruwirt.

Jtem ornamenta ecclesie.

Jn primis graduale per anni circulum. pistlabok. gudzspiallabok. ordobok. sequenciubok. ottusaunguabækur ij. per anni circulum. iiij lesbækur oc er einge neyt. Missale de sanctis per anni circulum. lagasaungva bok. kiriale wont. psalterium. kapitularius wondr oc xiiij. adrar skræd[u]r wondar. jtem vij. manna messuklædi med godum oc wondum oc fimm hauklar lauser. eirn sloppur wondr. iij altarisklædi. oc war eitt af þeim med dukum. eiirn(!) stor kalekur oc ij litler. ein dalmatika wond. glodarker brokad(!) oc wont oc þriar kantarakapur.

Jtem woro þar. v. hestar. iij. hross Rosken.

Jtem luckti[1]) einar oddzson greindri reykholltz kirkiu. v. kugilldi firir halfkirkiu skylld a Rey[k]jium.

Jtem standa audsstader halfer j pant firir xviij. aura kalek.

---

348. [c. 1463—c. 1470].

Máldagi Maríukirkju á Kroppi í Reykholtsdal.

AM. 257. 4to skb. samtíða. AM. Apogr. 2223 með hendi Árna. Hvað af þessum máldögum, sem hér fara nú eptir ártalslausir, er frá dögum Jóns biskups Stephánssonar eða Sveins biskups, er óvíst að vita, en frá þessum tímum eru þeir.

Thorlaks kirkia ok hin[nar] helgu katrinar a kroppi a x hundrud j heimalandi. Mariuskript. kross med wnderstaudum. altarisstein wigdan.

---

[1]) Hér hefir staðið sera á bókfellinu, en verið dregið út, segir Árni.

349. [c. 1463—c. 1470].

Máldagi Thomaskirkju á Varmalæk í Borgarfirði [er Jón biskup Krabbi Stephánsson setti].

AM. 257. 4to skbl. frá tíma Jóns Krabba; AM. Apogr. Nr. 2224; AM. 263. Fol. bls. 70 skr. 1598.

gamall maldagi[1]).

Thomas kirkia erchibiskups æ warmalæk æ land j þordisararhollte. lagdi þorlakur þorkelsson til kirkiunnar þar eingi er kallad er breidafit er liggur j skeliabrecku jordu. oc ein Messoklædi. thomas skrift [med alabastrum[2]). mariuskript. watzkall litill oc glodarker. alltarisklædi.

---

350. [c. 1463—c. 1470].

Máldagi Bæjarkirkju í Borgarfirði.

AM. 257. 4to skb. samtíða. — AM. Apogr. Nr. 2225 með hendi Árna Magnússonar; JSig. 143. 4to bls. 359—60 skr. c. 1600. Máldagi þessi er æfaforn að stofni, frá c. 1180 (sbr. Bps. I, 286—287), en eins og hann liggr hér fyrir, mun hann þó ekki eldri en frá 15. öld ofanverðri.

Bæiarkirkiu Maldage i Borgarfirdi[1]).

Þessa kirkiu hefir vigt en helgi Thorlakr biskup. hun er helgut fyst i upphafi allzualldanda gude oc sælle guds modur marie. petri postula. olafi kongi. martini biskupi. agnete virginis. maricij sociorumque eius.

hann leggr til kirkiu [land] i kalfanesi. stedialand oc mula. lx. asaudar oc kyr xiij. hestar fim.

kirkia æ afrett uppi i nordurærdal oc annann meira þan er boduar[4]) gaf til. oc laxueidur i flokadalsæ til motz vid uarmlækinga at helmingi medan land þeirra liggur vid. enn hun æ ein upp þadan. hun æ oc sandaskog upp til laxagotu. hun æ

---

[1]) AM. 263; [2]) [yfir linunni í 257; [3]) 2225; Bær j Borgarfirde 143; [4]) Böðvar Þórðarson í Bæ d. 1264 og mun þetta vera hann eða Böðvar eldri í Görðum, sem dó 1187.

skog med stedialandi. oc kalgiord upp i nordurærdal. hun æ afrett ungneyta tueuetra oc yngri sudur i skoradal i suanga oc þar einn skog. selfor i faxadal.

kirkia æ sio manna messufot oc uij. sloppa. ij. kantarakapur. smellta krossa tuo. messubækur tuennar oc musica grallara. lesturbækur ok per usum bækur tuennar. alltarissteinn buinn ok plenarium. messufata kistu ok alltarisklædi fern oc eitt stact. oc stolklædi. glodarker oc elldbera. silfurkaleka iij. oc er einn gylltur. rodukrossa tuo. oc kluckur iiij. oc biollur iij oc skript oc merki tuo. tiolld sæmilig oc vmbunad vm fontlinstack undir messufotum at hafa oc ij. ullstacka. uteklucku.

hier skulu vera prestar ij ok messudiakn. vera heima at ollum hatidum. enn syngia sidar i burtu ef þarf. gefa kirkiupresti þuilikt kaup sem ad odrum graptarkirkium.

firir fe þetta oc land skal reida hundrad hundrada ef skipti ganga æ eda sie sellt.

---

351. 1463—1470.

Afhending staðarins í Miklaholti, þegar séra Helgi Magnússon tók við, ásamt porcio-reikningi um næstu sjö ár.

AM. 257. 4to skb. samtíða. — AM. Apogr. Nr. 2226 með hendi Árna.

Anno domini ꝏ⁰. cd⁰. lx⁰. tercio. tok sira helgi magnusson vid so felldum peningum kirkiunnar i mycklhollte i myckl-holltzhrepp.

Jn primis ij. kum. voru þær badar metnar fyrir xij. aura annars kugilldis.

þrevetrum heste oc odrum fullrosknum.

kugilldi [i me]tfe. oc xx. alnum betur.

Jnnan kirkiu.

messuklædum vondum oc silkihokle vondum.

tveimur corporalum.

einum kalek.

kertesstikum. ij. med kopar.

jarn kertesstika fyrir mariu.

Messubok de tempore oc de sanctis. fra paskum til adventu. oc ottusongvabok æ sumarit.
grallare per anni circulum de tempore.
ottusongua bok uond æ vetrin.
lagasongua bok.
messubok samsett æ sumarit de tempore.
kiriall.
processiunall.
salltare.
brefer. sumarhlute allur.
ij. sermonsbækur vondar i norrænu. oc viij skræd[u]r.
glodarker.
bokaforme.
upphalldzstika.
lektare litell.
dukur oc yferdukur æ alltare fanyter bader.
alltarisklædi roted.
Mariuskrift sæmelig. litel.
ij. likneske sancte johannes baptiste sæmelig.
Trinitatis [likneske] sæmeligt.
smelltur kross med vnderstodvm.
paxblad.
ij. kluckur godar.
ein bialla. oc. j. kluckubrot.
Hafdi sira are gunnsteinsson tekit vid halfu niunda hundra[d]i oc xl. greind[r]ar kirkiu i myklhollte. en afente eigi meira en fyrr seger i reikninge sira helga.
[hefer hier fallit porcio þessa vij. vetur sem sira helgi hefer halldit. iij. merkur upp a huert ár[1]).

---

352. 1463.

Staðarreikningr á Gilsbakka, þegar Guðmundr prestr Narfason slepti, en Þorbjörn prestr Ámundason tók við.

AM. 257. 4to skb. samtíða. — AM. Apogr. 2230 leiðrétt

[1]) [er viðbót Sveins biskups frá 1470.

með hendi Árna, en afskriptin staðfest í Skálholti 22. Júlí 1711 af Árna Magnússyni, Ormi Daðasyni og Þórði Þórðarsyni. Biskupsskjalasafn Skalh. Fasc. XII, 5, sem er transskr. Odds officialis Pétrssonar frá 25. Júní 1491 (afskript þar af í afskriptasafni AM. 2446), sem nú er mjög gallað af fúa. JSig. 143. 4to bls. 328 skr. c. 1600.

[g]ilsbacka maldagi[1]).

Anno domini ꝏ⁰. cd⁰. lx⁰. iij. lukust suo fellder peningar a gilsbacka stad þa sira gudmundr narfason afenti. en sira þorbiörn prestur amundason med tok.

Jn primis xviij. kyr. oc x tigir asaudar. tuęuetur hrutur. forustu saudr gamall. tuæuetur gradungur. fiorir hestar hundrad hverr. ccc. uðrvuird j stadarspiöll.

atti kirkian jnnan sig. þrenn ꝏessoklædi ath öllu oc uoru ein af þeim vond. ij. höklar lauser. ij. kapur. vondr slop[p]r. misale samsett de tempore fra aduentu til paska oc er hon ecki eptir ordu. en önnur betri med kollectum pislum oc gudspiöllum. siekuenciubok sæmilig per anni circvlum. lagasöngvabok. gradall per anni circvlum. lesbok de tempore a uetrin. processiunall. de sanctis bok med les fra niuuikna föstu til paska. messubok utlendsk per anni circulum. einn salltari forn. oc xx. skræd[u]r edur faneýtar bækr. fontzklædi. oc glodarker.

a kirkian þar heimaland allt. biarnarstadi oc kollstadi.

Jtem a kirkian nicbulas sögu oc lesbok de tempore per anni circulum.

---

353. [c. 1463—c. 1470].

Sámstaðamáldagi í Hvítársíðu.

AM. 257. 4to skbl. samtíða; AM. Apogr. Nr. 2231; AM. 263. Fol. bls. 70 skr. 1598; JSig. 143. 4to bls. 329 skr. c. 1600.

gamall maldagi[2]).

Halfkirkian a samstödum er helgut hinum helga bartolemeus.

---

[1]) 143; [2]) AM. 263; Samstader 143.

354. [c. 1463—c. 1470].

ÞORGAUTSSTAÐA máldagi í Hvítársíðu.

AM. 257. 4to skinnbl. samtíða; AM. Apogr. Nr. 2232; AM. 263. Fol. bls. 70 skr. 1598. JSig. 143. 4to bls. 329 skr. c. 1600.

þorgavtzstader [gamall maldagai[1]).

Halfkirkian æ þorgautstaudum er helgut jomfrv Mariu.

Hun æ. x. hundrud j heimalandi. Mariuskript sæmilega oc adra forna. barthalameus[2]) likneski. ij. biollur.

þar eigv æt takazt heima tollar oc tiunder bonda oc husfreyiv oc alra[3]) þeirra sem þar eru heimilisfaster.

skulu þar syngiazt. xx. Messur æ huerium tolf manaudum.

---

355. [c. 1463—c. 1470].

MÁLDAGI Norðtungukirkju í Þverárhlíð.

AM. 257. 4to skinnb. samtíða; AM. Apogr. 2234 með hendi Arna. JSig. 143. 4to bls. 329—30 skr. c. 1600.

Nordtunga[4]).

kirkian i nortungu er helgut gude oc sælli mey katerine. æ hun iordena æ haugnastadinn(!) oc halfan aurnolfsdal. vj. kyr oc iij. hross oc fiogr hundrut voru. selfor æ þverærdal med itaki. elldividar hris i hamarsiord ens litla. tveg[g]ia manada beit i þorunnarhollt saudfie æ veturin. hris aull i þorunnarhollti i millum gatna. al[l]an skog i kirkiuhollti i hamarsiord. manadarbeit i blesamyre i sleggiulækiar iord.

a kirkian innan sig. tiolld. iiij. kluckur oc biollu. katerinar likneski. mariuskript. kross med undirstodum. kertistikur. iiij. ein messuklædi vond. slopp oc kapu. font med vmbuningi. ij. paxblod steind. spialld med hurdum oc gullfarg æ. messubok de tempore fra paskum oc til adventa. ælltarisbok vond. glodarker. ij. alltarisklædi. annat steint. ein kaleikur. merki. j. oreiknat porcio uppæ[5]).

---

[1]) [AM. 263; [2]) Bartholomeus 263; [3]) allra 263; [4]) 143; [5]) endar svo.

356. [c. 1463—1470].

MÁLDAGI hálfkirkjunnar á Lambastöðum á Mýrum.

AM. 257. 4to skbl. samtíða; AM. Apogr. Nr. 2237; AM. 263. Fol. bls. 70 skr. 1598; Landsb. 268. 4to bl. 81b; Biskupsskjalasafn 2. 4to skr. c. 1750 (eptir bréfabók Sigurðar lögmanns Jónssonar).

gamall maldage[1]).

Hælfkirkian a lambastödum er helgut gudi oc[2]) jungfrv marie [oc[3]) michaeli oc öllvm gvds hellgum monnum[4]). hon a. x. hundrut j heimalandi[5]). v. hundrud fridlavgd. kolvidarhollt er liggr j midhusa jördu oc tungu skog fra læknvm þeim sem fellur firir innan buder til þess lækiar sem þar er næstur.

[kirkian a kalek. iiij kluck[u]r godar[6]). marivskript. steindan kross. klemens likneske sæmeligt. litel brik yfer alltari. sequenciubok uonda[7]). paxblad. kertis stikur ij[8]) med kopar[9]).

---

357. 1463.

LOPTR Ormsson afhendir í umboði Jóns biskups Stephánssonar Sigurði presti Jónssyni staðarfé í Hítardal í fardögum (26. Mai og næstu daga).

AM. 257. 4to skb. samtíða. — AM. Apogr. 2240 með hendi Árna.

Anno domini ∞°. cd°. lx°. tercio. epter skipan herra jons stefanssonar afenti loptur ormsson sira sigurdi jonssyni i hitardal i fardogum suo fellder peningar[10]) sem hier seiger.

in primis. xxx. kua.

xx. asaudar kugildi.

voru . . . kugilldi af þessum peningum med þessum iördum stadarens.

li. gelldfiar kugilldi.

---

[1]) AM. 263; Lambastader 268; [2]) sl. 263, 268; [3]) hinum heilaga b. v. 263, 268; [4]) [sl. B2; [5]) oc, b. v. 263, 268; [6]) sl. 263; [7]) vondtt 263; voñd 268; [8]) iij. 263, 268; [9]) [sl. B2; [10]) svo.

uj. hesta.

iiij. hross fullroskin oc ij. þrevetr.

xl. alna hins setta hundradz metfe u[or]uuirt. er hier med talt eitt kugilldi er rodukrossinn a a uǒllum.

Jnnan kirkiu.

in primis messoklædi tvenn oc eru ǒnnur stlitin[1]).

ij. hǒklar lausir slitnir.

ij. kantarakapur. oc er onnur vond.

j. sloppur.

ij. alltarisklædi.

ein brun.

tvenner fordukar.

j. dukur glitadr. uondr.

ij. korporalshus god.

iiij. adrir korporalar vonder.

ij. stol[u]r lausar.

Jtem bækur.

graduale godr med kirial.

ij. ottusaunga bækur oc hin þridia de sanctis er tekr fra Jonsmessu baptista oc framan til luciv virginis.

ij. lesbækur.

orda.

ein messubok med pisla oc gudspioll de tempore et de sanctis per anni circulum. utlendzk. vond.

god kananum bok med saluᗰessu.

breuer utlendzkt de sanctis faneytt.

j. salltari.

prima lestrabok.

kapitularius.

ij. sermonsbækur.

viij. skræd[u]r med latinu.

ij. sequenciuskræd[u]r.

einn kalikr godr. annar felitill. en þridi brotinn.

iiij. kertistik[u]r med kopar.

ij. kluck[u]r. onn[ur] rifen. þridia brotin.

ij. biǒll[u]r.

bokaformi.

skrudakista.

---

[1]) Svo.

kistell uondr.
bockastoll.
bakxturiarn.
fondz munnlaug vond oc fonzt umbuningr uondr.
sæmilig brik stor med alabastrum.
skros(!) smelltr.
mariuskript. fornt.
kristuforus likneski brakat.
trinitatis likneski brakat.
kross med understôdum forn.
smelt skrin med helgum domum.
vigds vazs ketill.
ij. alltarissteinar. annar brakadr.

paxblad. ampli. ij. merki. burdarstikur tvær. eitt glodarker.

[Let herra suein giôra kirkiuna xij. hundrudum. þa hann var i sinni uisitacio anno domini ɱ⁰. cd⁰. lxix⁰.

Jtem reiknadist porcio fallit hafa a þeim vij vetrum sem sem sira sigurdr jons[son] hafdi balldit mörk. annars hundrads[1]).

---

358. [c. 1463].

Máldagi Hvanneyrarkirkju í Borgarfirði.

AM. 257. 4to skb. samtíða. — AM. Apogr. 2241 með hendi Árna; Landsbókas. 108. 4to bls. 426, séra Jón í Hítardal, og segir: »þessi máldagi sýnist vera Magnúsar Ao 1478«, en það er þó ekki. Sá máldagi er samhljóða það, sem þessi nær, en hinn heldr meira.

Mariukirkia a huanneyri a tunguland allt. asgard. kistuausu. horn oc drageyri. liggia þessar allar i hennar kirkiusokn.

hon a xuj. kugilldi bulæg. halft h[u]lôrt asaudr edr kyrfiogr geldfiar kugilldi. ij. hesta.

Reik[n]ast hier med mortalia fra þui at uermundr heitinn kolbeinsson med tok til þess et nu er. er med kistu eitt kugilld[i] er rodan a þar.

---

[1]) [Þetta er viðbót frá Sveini biskupi.

kirkian a alla fiskveidi i andakilsarfossi ofan at hrafnagili. en attung laxueidar i grimsa. skogarpart [i grioteyrar skog].[1]) hon a selför i jndridastada land.

kirkian a innan sig tuenn messuklædi at öllu. alltaraklædi tuenn. glitadan duk vondan. mariuskrift. olafskrift. þorlaksskript. smeltan kross. kertisstikur tuær med kopar oc tuær med iarn. tuo lektara. kantarakapu. slopp. kalik. iiij. kluckur. tuær biöll[u]r. salltari. likakrak. fons umbuningr. glodarker. paxspialld. ampla. lagasaunguabok. ij. kapitularius. alabastrum brik sæmilig stor yfir alltari.

---

359. [c. 1463—1470].

MALDAGI kirkjunnar á Hofstöðum á Mýrum.

AM. 257. 4to skb. samtíða. — AM. Apogr. 2242 með hendi Árna.

Kirkia a hofstodum a. v. kugilldi bulæg. oc allt landit at mel. er þar half iordin til leiguburdar. iij. merkur. ok rekinn at auk.

---

360. 29. Januar 1464. i Glaumbæ.

ÞORLEIFR bóndi Árnason selr Sveini Guðmundssyni jörðina Nýjabæ í Eystrumdölum í Skagafirði með tilgreindum landamerkjum og kvittar Svein um andvirðið.

AM. Fasc. XVI, 7, *frumritið á skinni og er innsiglið fyrir.*

(Vm) Nyabæ i Abæar kirk(iusokn)[2]).

Þath giorer egh þorleifur bonndi arnnason godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefui. ath ec seldi sueine

---

[1]) »hier eru i bokfellinu oskrifader. 2. þridiungar af linu. sem eitthvad hefur sidan ätt ä ad skrifa. þeir ²/₃ linu i bokfellinu, giöra nærri 3 linur i þessari copiu« (AM. við 2241). Hér er fylt eptir máldaga Magnús biskups Eyjólfssonar; [2]) utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

gudmunssyni til fullrar eignar halfua jordina nýiabæ er liggur j abæiar kirkiusokn j eýstrum dẻlum. med aullum þeim gaugnum ok gædum sem greindri jordu fýlger og fýlgt hefer ath fornu ok nýiu. med suodañ jardar eign. ath tinnæ. ok suo langt æ fioll fram sem votn dragha. ok egh uard fremst eigandi ath. hier j mot gaf fyrrnefndr sueinn. xx. gelldinga gamla ok þreuetran vxa. skýlld(i) fyrnefndur þorleifur bondi arnnason suara lagha Riptingu æ halfri jordune nýiabæ. en suein hallda henni til lagha. suo ok medkennizst ec þratt nefndr þorleifur arnnason. at ec hefi fulla ok alla penninga vpp dregit af sueine gudmunssyni firir halfua jordina nýiabæ. ok þui gefur ec hann aullungis kuittan ok ækærulausan fýrer mier ok aullum minum epterkomendum.

Ok til sannenda hier vm setta ec mitt jncigli firir þetta jardarkaups bref scrifuat j glaumbæ j skagafirde sunnudagin næsta fyrer purificacionem beate virginis marie[1]). anno domini ꝏ⁰ cd⁰ lx⁰ quarto.

---

## 361. 5. Febrúar 1464. á Hólum.

Vitnisburðr Ketils prests Grímólfssonar um tíundagreiðslu Þórunar Finnbogadóttur af Valþjófsstöðum í Gnúpasveit til Presthóla.

AM. Fasc. XVI, 5 frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

bref vm valþiofsstadi[2]).

Þath gerir egh ketill prestur grimolfsson godum monnum uiturligt med þessu minu opno brefi ath þorunn finnbogadotter er saugd er hefer luckt ok luka latit presttiund ok kirkiutiund af valþiofstaudum er liggur j nupasueit til kirkiunnar j prestholum upp a. v. aar samfleýgt er eg hefer halldit stadin. luckti fýrst finnbogi jonsson ij aar tiundirnar vegna þorunnar modr sinnar ok j hennar umbodi. et þridia arit luckti fýr nefnd þorunn sialf tiundirnar ok setti sinn buskap a jordunne. sidan luckti jon finnbogason er sagdr er tiundirnar um ij aar

---

[1]) maria, frbr.; [2]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

vegna þorunnar finnbogadottur systur sinnar ok aunguan heyrda eg annan þa eigna sier jordina þessa fim uetur.

Ok til sanninda hier um setta eg mitt jnsigli firir þetta vitnisburdarbref er gert var a holum i hialltadal a sunnudaginn næsta efter purificacionem sancte marie uirginis anno domini ꝏ⁰ cccc⁰. lx⁰. quarto.

---

362. 6. Marts 1464. i Skálholti.

Jón Krabbi Stephánsson biskup í Skálholti býðr að fylgja orðubók erkistólsins í Niðarósi við tíðagjörð í Skálholtsdómkirkju og úr tekr nokkurar venjur hinna fyrri biskupa í messusaung, sem honum þykja ekki skjalleg rök til.

AM. 679. 4to bls. 59 skinnbók; þetta skrifað samtíða. — AM. 680. 4to bl. 1. skbl. skr. samtíða. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 483—84 í nótu.

Wíj jon med guds nad biskup j skalholltti oc prelatus ecclesie stafangrensis. heilsum aullum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. kiærliga med gvd oc sancte olaf konong [kvnigt gerandi[1]) med þessu vorv opnv brefi[2]). at víj hofum glog(g)liga athvgat þann setning æ tidagiord oc audrum hlutum sem hafdur er j domkirkiunni j skalholltti.

Jtem samuleidis hofum uíj med vorum prestum jnuirduliga skodat ordinarium kirkiunnar. kunnum víj at forsta. at hann er[3]) j avllum sinum[4]) greinum svo latande sem j domkirkiunne j nidarose. liztt oss hann j morgum hlutum vel halldinn. Enn j sumum greinum syniztt oss hann eigi skiallega[5]) halldinn uera sem tilheyriligt er. En til lagt annat margt oc micit j saung oc audrum lesningi þat sem uíj uitum eigi huertt skial til er. suo sem er commendaciones og kantica graduum. kunnum uíj vel at[4]) unndirstannda at þeir godu biskupar. sem verit hafa mvnkar ok regerat hafa domkirkiuna[6]). hafa suodan

---

[1]) 679 sl. hér; [2]) 679 bætir hér inn: kunnugtt(!) [3]) 679 bætir hér inn: j allann(!); [4]) b. v. 680; [5]) 680; skialiga, 679; [6]) domkirkiunar 679.

til lagtt. fur þan skulld at þeir hafa uiliat hallda sinum sidum. nu af þui at uíj kunnum hier onngar greiner edur raugsemder til at finna, at uíj seum skyllder at hallda. framar enn ordinarius utuisar ok nidaros domkirkia helldur. þæ uilium uíj lata syngia j domkirkiunni j skalhollti sem ordinarius [utvisar ok[1]) bydur. enn þat annat sem uíj vitum eigi huer skyllda til er. þat ma lesa huer som vill. heimaugliga. Giðrum víj þetta fur þan skulld at oss litz skiallegra[2]) [vera[1]). at þat se sungit med godum setning sem skylldan bydur. enn auka margtt ok micit oc se þar fur sungit [skynsamligar[3]) þat sem med rettu æ at syngiazt. Enn suo sem eru vor fru tider ok uigilias defunctorum. þat þikir oss vera godur sidur ad heidra [ok uegsama[1]) jungfru Mariam næst almattigum gudi ok bidia fyrir kristnum salum einkanliga þeim sem elft hafa ok reist guds kristneþann[4]) sama godan vana vilium uíj giarna samþýckia. Jtem vm festa sanctorum þau sem ecki stannda in ordinario suo sem er festa sancte thorlace eda johannis holensis ok sancti magni edur a(u)nnur þau sem god rauksemd er til þau uilium víj giarna lata syngia ok hallda eptter þui sem godur gamall kirkiunnar vane er til.

Samþyckttu þenna vorn gerning vorer prestar.

Meistari sueinn prestursson officialis heilagrar skalhollzkirkiu.

eirekur arnason kirkiuprestur j skalhollti.

halldor ormsson.

petur þordarson.

þorsteinn jonsson.

sueinn jonsson.

knutur nicholasson.

brandur teizson.

Ok til saninnda hier vm settum víj uortt jnsigli ok fýr greinder prestar sin jnsigle. fur þetta bref skrifat j skalhollti. þridia daginn nęsta fur gregorius messo. anno domini M°. cd°. lx°. quarto[5]).

[1]) [sl. 680; [2]) 680; skialigra 679; [3]) [þui oskynsamlegar 680; [4]) þenna 680; [5]) Aptan á blaðið hér í 679 er párað mart. Þar á meðal: »Ærligri personv sira eireki jonssyni heilsar ek . . . . ande kærliga med gudi«.

363. [1464].

SKIPAN Jóns biskups Krabba Stephánssonar um nokkrar breytingar á kirkjusöng og tíðalestri í Skálholtsbiskupsdæmi frá því, sem áðr hafði tíðkazt.

Af bréfi Jóns biskups frá 6. Marts 1464 má sjá, að hann vildi afnema nokkrar venjur hinna fyrri biskupa í tíðasöng og lestrahöldum í Skálholtsbiskupsdæmi, og verða þessar forsagnir um söng og lestrahöld, sem hér fara á eptir og ritaðar eru á orðubók Niðarósserkistóls, er hann samþykti fyrir Skálholtsbiskupsdæmi, ekki auðveldlega skildar öðruvísi en svo, að þær sé einmitt um það, sem hann gerði nýja skipan á. Hvernig á því stendr, að sínar hverjar forsagnir eru í orðubókunum (AM. 679. 4to & 680. 4to) læt eg ósagt, og eins hitt, í hverju sambandi biskupar þeir og klerkar, sem taldir eru síðast í *A*, standa við þessar forsagnir.

**A.**

AM. 679. 4to bl. 1a skinnb. (orðubók Niðarósserkistóls). Er þetta ritað á fremsta blað orðubókar þeirrar, er Jón biskup Krabbi samþykti 1464.

Hýstoria. deus enim byreazt upp jn dominica prima post octauam corporis christi ok standa ýfir vij. dominicas.

Jn principio. v.

Si bona. ij ok skal j þeirri uiku hallda ok ymbrudaughum.

adonaý et domine rex eina. ok skal lesazt in primo nocturno de iudith. jn secundo de hester. ok hafa fiogur Responsoria af huorri hýstoria.

Ad aperiat fiorar.

Vidi dominum. v.

Alleluia skal leggiaz j kuelldsông nersta laugarkuelld eptir festum juliane virginis.

De sancto barnaba skal sýngia æ mæanadagh.

De domina skal sýngia in dominicis infra octauas assumpcionis et natiuitatis beate virginis.

De sancta agnete skal syngia sem berr.

annunciacionem sancte marie æ manadagh.

de sancto magno æ laugardag ante palmas.

de sancto johanne holensi æ manadagh eptir paschauiku.

de sancto marco æ nersta miduikudag eptir.

de sancto johanne ante portam latinam æ manadag.
de sancto barnabo æ faustudag fẏrir hvitasunnu.
vatna fyrer olafs ᗰesso fyrri. ᗰariu ᗰesso fyrri. allra heilagra messu.
Jon biskup sigurdarson.
gẏrdr biskup.
þorarinn biskup.
Othgeir biskup þorsteinsson.
magnus prestr haralldzson.
þorgrimr prestr valgardzson.
Joan[1]) prestr gudlavgsson[2]).

---

## B.

AM. 680. 4to á skinnblaði framan við orðubókina, því hinu sama, sem á er hinu megin bréf Jóns biskups Stephánssonar 6. Marts 1464 um tíðabreyting. Er þetta með samtíða hendi.

Versus valentes ad inchoandum psalmos evang(e)licos.

Primus cum sexto fa sol la semper habeto
tercius vt re octauus atque secundus
vt re sic vt fa sol fa septimus esto
la sol la quartus. vt. nu. sol fa ter quintus.

Þa andress ᗰessu ber aa midvikudag þa byriazt iolafasta sunnudag næsta fyrer festum barbare þat sem in secunda dominica skal færa aa manudagenn hafa commemoracionem af adventu. Ɛnn aa midvikudag j sælu viku skal sujngia[3]) laudes ok responsa þa sem fall(a) aa thomas ᗰesso cum a(ntiphona). ad Beatus ᗰissus ad nonam þan sama dag ante ponent deus.

---

[1]) mjög óljóst og ekki alveg víst. Mart er páraö á þessa blaðsíðu, svo sem:

gud geyme oss sagdi jon fes
pater meus maistus meus.

[2]) Hér virðist vera máð af heil lína og mótar dauft fyrir staf og staf, og hafa hér staðið nokkur fleiri nöfn, má hér og lesa . . . . allsson, að því er virðist; [3]) Svo.

a faustudæginn þar epter laudes ok Responsar þeir sem eru aa þorlak(s) ꝳesso cum an(tiphona) ad Bonus. Ex quo sancta est. laugardægen j sæluviku byriast istorioat(!) clama med eigenligv in vita et capitilis[1]) an(tiphona) ad bonus. Omnis vallis. ad ix°z an(tiphona) ecce concípies. aa þeim sama deigi ath aptansaung byriazt vpp o sapenciam. a fiordu[2]) dag j þeirre viku er[3]) vigilia sancti thome oc skal hamessa vera af vigiliu ok nonam af koma skulandi halldi. aa thorlaks ꝳessso skal hafa commemoracionem af aduentune cum hac an(tiphona). Dies domini. huer finnazt ma faustudag j fyrerfarande vikv.

---

364. 24. April 1464. á Möðruvöllum.

Kaupmálabréf Björns Sæmundssonar og Snjófríðar Björnsdóttur.

AM. Fasc. XVI, 17, frumrit á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu; fimm af þeim eru dottin frá.

Myrka[4]).

Jn nomine domini amen.

lystyz ok stadfestiz suo felldr kavpmali j mille biarnar sæmunzsonar og sniofridar biornsdottur a þeirra festingardegi a ꝳyrka j haurgardal. þessum uottum hia uerundum þorgrimur jonsson. ion jonsson. prestar. Eirekr bondi lopzson. þorkell þorkellson. þorsteinn palsson. jon atlason. þordr atlason. andres gúdmunzson. leikmenn. at nefndr biorn sæmunzson hafdi til kavps vid sniofridi biornsdottur kuinnu sina þriatigi hvndrut ok t(v)av hundrut hundrata. hier j mot skylldi hvn hafa adra peninga jafnmikla. var þar j myrka firir segstigi huudrut ok þriar tuttugu hundrata jarder myrkardal ok budarnes j haurgardal ok kross j liosauazskardi. Jtem gaf fyr nefndr biorn sniofride kuinnu sinne sextigi hvndrata upp j jordina einarstadi j reykiadal svo sem hann mætti þat framaz giora med laugum. en ef þat uæri eigi laug þa gaf hann heni sydri lauga ok dazstadi

---

[1]) Svo; [2]) fyrst ritað: þridiu, en því svo breytt í: »fiordu«; [3]) tvískrifað; [4]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

er ligia i einarstada kirkiv sokn j reykiadal ok þui reiknadiz j gard optz nefnz biarnar sæmunzsonar niutiger hundrata ens þridia hvndradz hundrata hennar mali.

Og til sannenda hier vm settum ver fyr nefnder menn uor innsigli firir þetta kaupmalabref er giort uar a Modruvollum j eyiafirdi næsta dag epter jons messu holabiskups um uorit þa er lidit uar fra hingatburd vors herra jehsu christi þushundruþ fiogur hundrut sextiger ok fiogur ar.

---

365. 1. Mai 1464. á Þingeyrum.

Skúli bóndi Loptsson handleggr Skúla Jónssyni jörðina Njálsstaði í Höskuldsstaðaþingum og kvittar hann fyrir andvirði hennar.

AM. Apogr. 464 »Ex originali monasterii Thingeyrensis accuratè. 4. innsigle hafa fylgt brefenu. eru nu öll burtu« (AM.).

Nialstadabref.

Þat giorum vær oddur brandzsson. sygurdr helgason ok benedict jonsson godum monnum uiturlickt med þessu voru opnu brefui at þa er lidit uar fra hingatburd vors herra jhesu christi þusund fiaugur hundrut sextiger ok fiaugur ar a þingeyrum j hunauazþinge tueggia postola messu philippi oc iacobi vorum uær j hia saum ok heyrdum a ord ok handaband þessara manna skula bonda loptzsonar af einne alfu enn skula jonssonar af annari at suo fÿrer skildu at fÿrr greindr skule loptsson handlagdi adr nefndum skula jonssyne til fullrar eignar jaurdina nialstadi a skagastrond er liggur j hauskolldstada kirkiu sokn med aullum þeim gaugnum ok gædum hlutum ok hlunnendum sem greindri iaurdu fylger ok fÿlgt hefer at fornu ok nÿiu ok skule loptsson hafdi fremzt eigandi at ordit undan sier ok sinum erfingum enn skula jonssyni til frials forrædes ok æuenlegrar eignar at sier taka ok bÿggia ath næstum fardaugum eda sialfur med fara sem hann vill ok hans erfingar epter hann. lofuadi þrattnefndr skule loptzsson at suara lagariptingum a fÿrgreindre jaurdu nialstaudum enn oppt greindr skule jonsson hallda til laga. hier med medkendizst titnefndr skule loptsson ath hann hefdi fulla peninga vpp borit fyrer

adur greinda jaurd suo sem honum vel anægdi. Ok til sanninda hier vm setti ek skule loptson mitt jnnsigle med fyrr greindra manna jnsiglum fyrer þetta bref skrifat j sama stad. deigi ok ari sem fyrr seger.

---

366. 9. Mai 1464 á Þingeyrum.

Prófentubréf Árna Jónssonar við Jón ábóta og klaustrið á Þingeyrum.

AM. Apogr. 4067 »Ex originali« með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. »Brefed er ä kälfskinn, hafa vered fyrer 4. Jnnsigle, eru j burt þad fyrsta og fior[d]a, enn epter þveingerner« (J. M.). Lýst þeim tveim innsiglum, sem fyrir voru bréfinu.

Jn nomine domini amen.

giordizt suo fellt profeñtukaup a millum herra jons abota a þingeýrum med vitand oc samþýkt þess sama klausturs conuentu brædra af einni alfu. enn arna jonssonar af annare med þeim skilmala sem hier seger.

Þat i fýrstu at adrnefndr arne gefur med sier til þingeýra til æuenligrar vistar jaurdina j miouadal firir fioratigi hundrada er liggr j hlidar kirkiu sokn oc þar til tiu malnýtu kugilldi er skyllde ut uera lukt at næstum fardaugum. en hier i mot skilde arne sier af stadnum sæmiligt bordballd epter þui sem beztu profentumen hefde oc tuituga vod arliga oc þionustu oc vera heima a stadnum. skyllde arne giora sier hus a stadnum ef hann villde en aboti fa vid til. skyllde arne hafua med sier til stadarins sæng oc kistu. skal stadrinn hallda sængina ferduga en eignazt huort tueggia epter hans dag. skýllde titt nefndr arne koma ꝺ̃ profentuna a næstum fardaugum. skýllde stadurinn eiga alla peningana epter hañdabandit.

Voru þesser kaupvottar sigurdr helgason. benedict jonsson. leikmen. huerir til sanninnda hier um settu sin innsigli med innsiglum abota jons oc conuentu firir þetta bref.

for þesse giorningr fram ꝺ̃ þingeýrum miduikudagin næstan efter krossmessu um vorit. anno domini. ꝏ°. cd°. sexagessimo quarto.

---

367. 10. Mai 1464. á Grýtubakka.
23. Januar 1471.

**Þorsteinn** Brandsson selr Guðmundi Magnússyni jörðina Skarð í Fnjóskadal, með tilgreindum skógi, fyrir jarðirnar Hamar og Hól í Laxárdal, Tungu í Bárðardal og Þernusker í Höfðahverfi.

AM. Fasc. XVI, 18, frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú er að eins eitt af þeim eptir.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heẏra senda Raugñualldur ꝍsgrimsson. bergfinnr iussason. prestar. arne sigurdzson. þorbiorn sigurdzson. oblaudr sigmundzson leikmenn quediu gudz ok sina kunnikt giorandi med þessu voru opno brefui at þa er lidit var fra hingatburd værs herra iesv christi ꝏ cd lx oc iiij ær æ grytubacka j haufdahuerfi æ vppstigningardag vorum vær j hia sæum ok heẏrdum æ ord oc handaband þessarra manna gudmundar magnussonar af einni alfuo enn þorsteins branzsonar af annarri. at suo firir skildu at ẏrrnefndur þorsteinn selldi ædrgreindum gudmundi iordina skard er liggr j hnioskadal j laufæs kirkiu sokn oc gudrun sẏmonardotter cona hans erfdi epter faudr sinn ꝏed ollum þeim gaugnum oc gædum er greindri iordu hefer fẏlgt oc fẏlger at fornu oc nyio oc hann vard fremzt eigandi at. allt land oc skog at þui diupa gili er næst er firir vtan iordina þuera er þar liggr j sama dal. Hier j mot skal gudmundr opttnefndr giallda fiorar jarder er suo heita hamar oc holl er liggia j laxærdal j þueræar kirkiu sokn. hier til litlu tungu er stendr j bærdardal j lundarbrecku kirkiu sokn oc þennusker j haufdahuerfui j grẏtubacka kirkiu sokn med ollum þeim gognum oc gædum er greindum iordum hefer fẏlgtt at fornu oc nyio oc hann vard fremzt eigandi at oc þar med iij kugilldi oc tuitug vóód. skal oc huorr þeirra fẏrgreindra manna suara lagariptingum æ þeirri iordu er selldi oc huorr halldi til laga sinni iordu er keẏpti ef nockur vill ækæra.

Oc til sanninda her vm settum vær fẏrrnefnder menn vor inscigli firir þetta iardakaupsbref j sama stad giortt sem fẏrr

seger ᛘiduikodagin næstan firir conuersio pauli apostoli. anno domini ᛘ⁰ cd⁰ lxx⁰ j⁰.

---

368. 15. Mai 1464. á Möðruvöllum.

Jón Ólason selr Einari ábóta og klaustrinu á Munkaþverá jörðina á Stokkahlöðum í Eyjafirði með fjórðungskirkju skyld og lambsfóðri til klaustrsins, en ábóti leggr í mót jarðirnar Snartarstaði og Brekku í Núpasveit, fráskilr allan reka, en áskilr klaustrinu skipstöðu í Snartarstaði og hússtöðu og eldivið í Brekku og segir þar til bænhússkyldar; hér til leggr ábóti og tuttugu hundruð í lausafé.

AM. Fasc. XVI, 8, frumritið á skinni. Sjö innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, nema þrjú. Apogr. 175. Frumritið fékk Árni frá séra Skúla þorlákssyni.

kavp vm stockahlade[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra senda seningr magnusson. magnus einarsson. prestar. magnus benediczson. steingrimr jsleifsson. helgi sygurdzson ok gudmundr juarsson. leikmenn. kuediu guds ok sina kunnigt gerandi med þessu uoru brefi ath þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi þusund .cccc. lx. ok fiogr ær. æ modruuollum j j eyiafirde manvdagen næsta fÿrer halluardzᛘesso[2]). uoru uær j hia saum ok heÿrdvm æ ord ok handaband abota einars ath munkaþuera ok hans conuentubrædra af einne alfu. enn jons olasonar af annare. ath suo fyrer skilldu ath jon olason selldi abota einare ok klaustrinu æ munkaþuera iordina stokahlader j eÿiafirde er ligr j hrafnagils kirkiu sokn med ollum þeim gognum ok gædum er greindri jordu fÿlger ok fÿlgt hefer ath fornu ok nÿiu ok hann uard fremz eigandi ath ok hans kuinna þorlaug arnadotter. hier j moti gaf adr nefndr aboti einar klaustrsins uegna tuær iarder snartarstader ok breku er ligia j nupasueit j hola kirkiu sokn. med ollum þeim gognum ok

---

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi; [2]) þ. e. 14. Maí.

gædum sem greindum jordum fyllger ok fyllgt hefer ath fornu ok nyiu ok klaustrid uard fremzt eigandi ath. fra skilldum reka paurtvm kirknanna. mvnkaþuerar. modruuallaklaustrs ok hola j gnupasueit epter þui sem utt ujsar adrskrifat registrum kirknanna. hier til gaf titt nefndr einar aboti optnefndum jone olasyne xx hundrut. skylldi þat uera x malnytu kugilldi. v. hundrut frid ok fim hundrut j þarfligum penningum. skillde abote einar fyrer klaustrit a munkaþuera skipstaudu j snartarstada jordu enn huss staudu ok elldiuid j breckujord firer skips æhaufniña. lysti þratnefndr jon ath saugd ueri fiordungs kirkiu skylld æ jordunne stokahlaudum. en aboti sagdi bænhus skylld ueri a jordune breku ok skilldi huor af sier ath svara fyrnd ok reikninge þar vm sæ er selldi. jtem sagdi jon olason ath lambselldi uæri a jorduni stokahlaudum fra klaustrinu æ munkaþuera. skilldi huor svara laga riptingum æ þeim jordum er selldi. enn sa hallda til fullra laga er keypti. Ok til sanninda hier um settum ver fyr nefnder menn uor jnzsigli fyrer þetta bref er skrifat uar j sama stad ok ære deigi sidar enn fyr seger.

---

369. 18. Mai 1464. á Munkaþverá.

Konventubræðr á Munkaþverá samþykkja jarðakaup Einars ábóta við Bjarna Ólason, að klaustrið keypti Kasthvamm í Laxárdal fyrir Jódísarstaði og Höskuldsstaði.

AM. Fasc. XVI, 13, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

kasthuam¹).

Samþikt uppa Jardakaup Einars aboota²).

Þat giorum vær conventubrædr munckaþverær klausturs godum monnum uiturligt med þessu voro brefi ath vær haufum samþykt þau iardakaup sem vor andlegr fader herra einar abote sama klaustrs hefer haft vith biarna olason. ath hann selde greindum biarna klaustursens vegna jardernar jodisarstade

¹) Utan á bréfinu með fornri hendi; ²) utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

ok hauskuldzstade er liggia i munckaþuerærþingum. En biarne olason gaf klaustrino i mote eina jord er heiter kasthuamr ok liggur i laxardal i þuerærkirkiusokn ok þar til þrettan hundruth efter þui sem jardakaupsbref þar vm gert vottar. Ok til sannenda hier vm settum vær vort capitula innsigle firir þetta bref er skrifat var æ munkaþuerærklaustri friadaginn næsta firir huitasunno. anno domini ꝏ°. cd°. sexagessimo quarto.

---

370. 29. Juni 1464. á Skinnastöðnm.

Þóra Guðmundsdóttir samþykkir sölu Jóns Eyjólfssonar bónda síns á jörðunni Guðmundarlóni til Hólakirkju í Hjaltadal.

AM. Fasc. XVI, 16, frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu; eitt af þeim er dottið frá.

bref vm gudmundarlon a langanesi[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heÿra senda oddr prestur gudmundzson. þorgils gutormsson. oddr gudmundzson. hiallte steinmodzson leikmenn guds kuediu ok sina kunigth giorandi ad þar vorum uer i hia sæm ok heyrdum æ handaband þeirra sira hallz arnasonar er þa hafde umbod heillagrar hola kirkiu ok þorv gvdmundardottur ath svo firir skildv ad greind þora samþÿkte firir sig ok sina erfingia þat sama kavp statt oc stodvgth oc æ ·allan matta obrigdelegth sem ion eÿulfsson bonde hennar hafde sellt iordena gudmundarlon er ligr i saudanesþingum heilagri holakirkiv til fullrar eignar suo framarlega sem fÿr greind þora matte þat fremstz med logum giora.

Ok til sanenda hier um setta ek fÿr nef(n)dur hallr prestur arna(son) mitt insigle med þesara manna insiglum firir þetta bref skrifat a skinnastodum i auxarfirde a tuegia postula mesv petri oc pauli anno domini ꝏ° cccc° lx° quarto.

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

371. 10. Júli 1464. á Barði.
22. September 1465. i Hvammi.

Eignaskiptabréf þeirra Barðsbræðra Haldórs, Hrafns og Snjólfs Brandssona.

AM. Fasc. XVI, 12, frumritið á sinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá.

Skiptabref þeirra Brædra Halldors Brandsonar Hrafns og Sniolfs[1]).

Þath gerum Ver sira gudolfr prestr magnusson. þorsteinn magnusson. arne þorsteinsson. jlluge helgason ok þorsteinn ketelsson leikmenn godum monnum kunnigt med þessu voru brefi ath þa er lidit var fra burd cristz þusund fiogur hvndrot sextigir ok fiogur ær. þridiadagin næsta firir translacio benedicti æ bardi j fliotum voru vier j hia saum ok heyrdum æ. ord ok handaband þeirra brædranna halldors brandzsonar ok hrafns brandzsonar ok snioolfs brandzsonar at þeir skiptu med sier eignarskipti þessu jardagozi.

skridu j reykiadal j mulaþingum firir tííu tigi hundrada. skylldi hrafn hafa hana j sitt hlutskipti.

þar j mot skýlldi halldor brandzson hafa bard j fliotum firir sextigi hundrada ok þar til tuær xx hundrada jardir er suo heita hol ok akrar er liggia j bardz þingum.

suo ok skýlldi snioolfur hafa j sitt hlutskipti osland firir sextigi hundrada ok þar til sýdri brecku ok hol firir tüttügu hundrod. ligia þessar jarder allar þriar j mycklabæiar þingum j oslandzhlid. ok þar til xx hundrud j illugastavdum j hollzþingum.

skylldu þeir brædurnir halldor ok sniollfr hafa þessar fýrgreindar jarder sem þeim baru til skipta firir tiutigi hundrada huor firir sig. vnder batt fýrgreindr hrafn sig j sama handabandi at luka bardz kirkiu. v. hundrod frid ok þar til bleikan hest gradan er socki gaf kirkiuni. luckti jon grimsson þessi fyrgreind v hundrod j halfkirkiu skylld af nesi ok at auk þessa skylldi hrafn suara porcio kirkiunar a barde upp æ suo morg

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1600.

ær. sem hann hiellt jordina. Enn þau kirkiugoz sem fiellu a medan brandr halldorsson fader þeirra hiellt jordina bard j fliotum ok þar til hann deydi vnderbundu þeir sig med handabandi at suara allir til lika epter rettu erfdatali vid systr sinar. skildi halldor brandzson sier annat havfudbol aptr ef af geingi jordin bard ok suo huer firir sig. skylldi huer firir sig hallda til laga þeim jordum er feingu ok suo suara lagariptingum allir til lika.

samþýkti þenna þeirra gierning ok feskipti ragna hrafnsdotter moder þeirra. ok helga einarsdottir. kuinna halldors brandzsonar.

Ok til sanninda hier vm settu Vier fýr nefndir menn vor insigli firir þetta bref skrifat j huammi j fliotum sunnudagin næsta epter matteusMesso. vm haustit. æri sidar en fýr seger.

---

372. 13. Júlí 1464. á Eyrarlandi.

Dómr Ólafs biskups á Hólum og tólf presta um halld Þórunnar Finnbogadóttur á jörðunni á Valþjófsstöðum í Gnúpasveit, er biskupinn reiknaði eign Hólakirkju í Hjaltadal.

AM. Fasc. XVI, 1, frumritið á skinni. Tólf innsigli hafa verið fyrir bréfinu; átta af þeim eru enn fyrir, sum nokkuð bráknð. — Fasc. XVI, 2 transscript frá 18. Sept. 1466. — Fasc. XVI, 3, transscript frá 20. Aug. 1464. — Fasc. XVI, 4, transscript frá 4. Marts 1466. Afskriptir af dómi þessum eru i Apogr. 3180, 3181, 3182 eptir frumritinu og tveim af transscriptis.

bref vm valtiofstade 1464[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heýra senda sigurdr jonsson. sigmundr steindorsson. hallur finnsson. þorsteinn jllughasson. magnus jonsson. jon broddason. magnus einarsson. þorgrimur jonsson. magnus asgrimsson. jon halldorsson. hellge magnusson ok þoruardr oddabiarnason[2]). prestar holabiskupsdæmes. quediu gudz ok sina kunnikt giorande. ath þæ er lidit var fra hingatburd uors herra jhesu christi þus-

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi; [2]) oddabiarnarson XVI, 2 og XVI, 4.

und fiogr hundrut sextiger ok fiogur ær. faustudagin næsta firer þorlaksmessu æ almenneligri prestastefnu æ eýrarlande j eyiafirde. vorum vær j dom nefnder af vorum naduga herra biskup olaf æ holum ath dæma vm þæ ækæru er hann kærde til þorunnar finnbogadottur. ath hun hafdi ath hallda jordina valþiofstade er liggur j nupasueit. enn biskupinn Reignade[1]) kirkiunar eign æ holum vera ok verit hafa firrgreinda jord. var þar suarit af tueimur vottum ath firrnefnd þorunn var þangat stefnd. Suo ok ei sidur sor þar sira hallur arnason ok stefan einarsson ath hakun kalfsson hafde suarit fullan bokareid ath sira jon heitin biarnason[2]) hafde lyst fýrer sier ath hann hafde feingit heilagri holakirkiu[3]) jordina walþiofstade til fullrar eignar ok hakun kalfsson tok þessa somu jord walþiofstade til leigu af helga biarnasyni[4]) er þæ hafde holastadar vmbod. ok hann bio suo tiu vetur æ adr greindri jordu. at vmbodsmenn holakirkiu býggdu ok toku landskýlld aarliga ok ei visse hann annat sannara enn hun væri holastadar eign. Jtem sor sira sueinbiorn ath hann hafde býgt firr greinda jord æ holakirkiu vegna[5]) ok landskýlld vpp borit þæ hann hafde holastadar vmbod. Jtem j þridiu grein sor fyrr nefndr sira hallur ok einar jonsson ath firr nefnd þorunn hafde sinn buskap æ fyrr greindri jordu, ok henne var hun eignud. Þvi dæmdum vær firr nefnder prestar optnefnda[6]) þorunne lögliga firerkallada ok adr greinda jord walþiofstade kirkiunar eign æ holum vera ok verit hafua. vtan títnefnd þorunn sýne med logligum[7]) vitnum jnnan tueggia[8]) manada fyrer biskupinum edr hans vmbodzmanni. ath þratnefnd jord walþiofsstader hafe med logum geingit vndan holakirkiu.

Ok til sanninda hier vm settum vær fyrr nefnder prestar vor jncigli fyrer þetta domsbref er scrifuat[9]) var j sama stad. dagh ok aar sem fyrr seiger.

---

[1]) þannig XVI, 1, 2 og 3; reiknade XVI, 4; [2]) þannig XVI, 1, 3, 4; biarnarson XVI. 2; [3]) þannig XVI, 2, 3, 4; -kirku XVI, 1; [4]) biarnarsyni XVI, 2; [5]) vegn XVI, 1; [6]) opnefnda XVI, 1; [7]) liogligum XVI, 1; [8]) tuggia XVI, 1; [9]) scrifua XVI, 1.

373. 14. Juli eða 22. December 1464. í þórunarey.

Margrét Gamladóttir lýsir því, að hún hafi sagt nei þar til, að séra Jón Pálsson skyldi eiga nokkurt veð í jörðina Klifshaga, þá er hann seldi Þórði Magnússyni bónda hennar.

AM. Fasc. XVI, 10, frumritið á skinni, komið frá séra Skúla Þorlákssyni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, nema hvað brot er eptir af því fyrsta. Apogr. 630.

vm klýfshaga[1]).

Þat geiarvm uær sueinbiorn prestr þordarson ok sira berdor halldorsson. magnus geirsson ok broddi sygurdzson godum monnum uiturlikt med þessv vorv opnv brefi at þar vorum uær j hia j haga j greniadarstadar kirkiv sokn at margret gamladotter lysti þui fyrer oss kvinna þordar magnvssonar at hun hefdi alldri samþykt en sagt nei til at sira jon palsson skylldi nackut ued eiga j iordena klifshaga þa er hann selldi hana þordi bonda hennar ok adr greindr þordr hafdi gefit hennar malajord uid as j kellduhuerfi. ok her uppa handfesti adr greind margret einari abota a munkaþueræ at sueria fullann bokareid epter þessi sinne lysing ef þurfa þætte.

Ok til saninda her um settvm uær fyr nefnder menn uor jnzsigli fyrer þetta bref er skrifat uar j þorunnarey j eyiafirdi laugardagin næsta fyrer þollaksmessv anno domini mº. cdº. lxº. quarto.

---

374. 21. Juli 1464. í Skálholti.

Dómr sex presta útnefndr af Jóni biskupi Krabba, um að Árni bóndi Pétrsson í Hjálmholti sé skyldr að greiða Skálholtsráðsmanni þá »ískyldarsauði«, er eigi hefði verið luktir í níu eða tíu ár af jörðunni Hjálmholti.

AM. Fasc. LXVII, 13, transskr. á skinni frá 5. Febr. 1548. — AMagn. Apogr. Nr. 2135 »Apographum Transscripti mambranei, qvod asservatur apud templum Oddense Rangarvall.«, og kemr á eptir Oddamáldaga (sama og í Vilchinsbók).

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

Ollum monnum þeim sem þetta bref siæ edur heyra, senda meistare Sveinn Petursson officialis heilagrar schallholtz kirkiu. sira Snore Jngimundarson. Sira Eirikur Arnason. kirkiuprestur i Skalhollti. sira jon Sigmundzson. sira Halldor Hauksson. og sira Sveinn Jonsson. prestar Skalholltz biskupsdæmis. kvediu gudz oc sina. kunnigt giaurandi at þa er lidit war fra vors herra hingat burd. ꝏ. cd. lx. og íííj. ær laugardaginn næstann epter translacionem sancti Thorlaci episcopi j Skalhollte vorum wier j dom nefnder af virduligum herra og andaligum faudur hera jone med gudz næd biskup j skalhollte. ad dæma vm þa sauk. sem sira Halldor ormsson radzmann j Skalhollte kærdi til arna peturssonar ad hann hefde halldit vpp a ix. ær eda x. þeim jskylldar saud er lukazt atte af jaurdvnni hialmhollte j floa. Nu saker þes ad greindvr arne. var þar þa laugliga firir kalladur. enn huorki kom hann þar þa nie nockur lauglig afsakan. honum til gagns ędr afbatanar. þui in nomine domini amen dæmdvm vier firnefnder prestar adur greindann arna skylldugan ad luka stadnvm j skalhollte fýr sagda jskylldarsaudi alla med alldri vppa svo maurg ær. sem hann hefir buid a fýrsagdri jaurdu hialmhollte og iij. merkur vpp a hvert ær j fesekt oc olaugligt halld a fýr sogdvm jskylldarsaud. nema hann kunni ad sýna laugliga afsakan firir sig innann halfs manadar ad heyrdvm dominvm. Jtem ad sama domi dæmdvm wier opt nefndann arna sekann maurk j stefnvfall. Skulu fyrgreinder peningar svo lukazt ad eirn þridiungur af greidizt innann halfs manadar. ad heyrdvm dominvm. enn annar ad ꝏikaelsmessv j haust oc hinn þridia ad næstvm fardaugvm. Og til sanninda hier vm settum vier fýr nefnder prestar vor jnnsigle firir þetta doms bref. Skrifad j sama stad deige og are sem fyrr seiger.

---

375. 22. Juli 1464. á Grenjaðarstöðum. 4. Juni 1465. i Húsavík.

Ólafr prestr Þorgeirsson lýsir því, að hann hafi eptir skipun Ólafs biskups ætlað að lesa á Grenjaðarstöðum dóminn frá 13. Júlí 1464 (Nr. 372) um Valþjófstaði yfir Þóruni Finnbogadóttur, en séra

Jón Pálsson hafi ruskað sér og blótað, og ætlað að ná í bréfið, og Þorgils Gunnlaugsson hafi gripið í það og rifið, og haft með sér mestan parta þess.

AM. Fasc. XVI, 6, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Valþiofstadar[1]).

Þad giore ek sira olafur þorgeirsson godvm monnum vitvrligt medr þessv minv opnv brefe ad svb anno gracie ꟾ⁰ cd⁰ lx⁰ qvarto svnnvdagen næsta firir jakopsmessv a greniadarst(a)vdvm j reykiadal þeinkta ek ad lesa þad sama domsbref firir þorvnne finbogadot(t)ur sem dæmt var vm jordina æ valþiofsstavdvm vegna heilagrar hola kirkiv epter þvi sem byskvp olaf hafde mig til skipad ok er ek bar mig til ad lesa brefed greip sira jon palson til min ok rvskade mier svo ek hvrvade[2]) vndan svdur epter hladenv ok sotte til ad gripa af mier brefed ok nade j þad med mier. firirbaud ek havnvm ad rvska mier eda legia hendur æ mig en hann blotade ok sagdestz þa svo skildv rvska mier. þvi þeinke ek ad hann giorde þetta med fvllre heipt ok epter þetta kom ad mier þorgils gvnlavgsson ok greip j brefed med mier ok reif j svndur ok hafde med sier mestan hlvta brefsens ok sum jnsiglen ok hier epter vil ek sveiria fvllann bokareid ef þvrfa þiker.

ok til sannenda hier vm set(t)a ek mit(t) jnsigle firir þetta vitnisbvdarbref skrifad j hvsavik æ tiornese þridiudagen j hvitasvnnvvikv are sidar en fyr seger.

---

376. 30. Júli 1464. í Hjarðarholti.

Dómr sex klerkmanna, útnefndr af séra Helga Þorkelssyni, officialis heilagrar Skálholtskirkju millum Hvítár í Borgarfirði og Hrútafjarðarár, um staðarafhending í Hjarðarholti í Laxárdal milli séra Erlends Gunnarssonar og séra Böðvars Jónssonar, og um peninga Hjarðarholtskirkju og hvað mikið séra Erlendr væri henni skyldugr.

AM. Apogr. 2277 »Ex originali Hiardarholtensi. accuratissime«

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi; [2]) Svo = hörfaði.

(AM.), en það var transskript á skinni frá 28. Apríl 1478, grautfúið. »Innsiglen eru öll fra brefinu og brefed sialft so fued og meirnad, ad þad ecki saman hanger. helldur dettur i sundur þä med þad er fared. Er og eingenn von ad þad hier epter lesed verde. þad sem hier er understrikad[1]), er nu burtu nr brefene, og hier sett epter gätu, og epter contextus tilvisan« (AM.).

Það giorum uær magnus biornsson. olafur [tu]mason[2]). sigurdur brandzson. ion kolbeinsson. steingrimur gudmundzson. prestar. s[uein]biorn[3]) diakni palsson. godum monnum uiturligt med þessu uoru brefi þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jesu christi þusund fiogur hundrud sextiger og fiogur ær uorum uær i dom nefnder af ærligre personu helga presti þorkelssyni officialis heilagrar skalaholltz kirkiu millum huitar i borgarfirdi og hrutafiardarar j hiardarhollti j laxardal manudaginn nærsta epter [ol]afsmessu fyrri at dæ[ma mil]le þessara manna boduars prestz jonssonar og erlendz prestz gunnarssonar um þ[ær saker] og akæru er huor þeirra kærdi þar til annars. Nu sakir þess at sira erlendur gunnarsson sagdi at boduar prestr [jons]son hefdi lofad sier at hallda stadinn hiardarhollt j laxardal til næstu far[daga] upp a [jaco]bs messudag j fyrra sumar med hond og munn enn boduar prestr ionsson sagdi þar nei firir. nu med þui at þar [uar] suarit af tueimur skilrikum uottum at erlendr prestr gunnarsson uar þangat stefndur af boduari presti ionssyni þa dæmdum uær logliga stefnuna og hann þar logliga firir kalladan. so dæmdum uær adr greinder domsmenn boduari presti eid at sueria þann at hann hefdi alldri lofat erlendi presti gunnarssyni fyrnefndan stad hiardarhollt ath[4]) hallda til næstu fardaga ef hann er til fær. Nu saker þess at boduar prestr jonsson sor fullan bokareid þar firir at hann hefdi alldri þui lofat. þui dæmdum uær adrgreinder domsmenn boduar prest jonsson logliga at sier hafa tekit stad[inn]

---

[1]) Hér sett í hornklofa; [2]) »Tumason mun Olafur hafa vered, platsed er of stort i originalnum til þess ad þar skyllde Jmason staded hafa. aliud nomen non occurrit. Enn ma er skírt« (AM.); [3]) »platsed þad auda i orginalnum er of stort til þess ad þar skule Snæbiörn staded hafa. þo er ecki so uppä þad ad byggia. Annadhvert mun þesse diakni Snæbiörn eda Sueinbiörn heited hafa (AM.); [4]) Hér stóð í frumritinu ennfremr: at, en því er ofaukið.

hiardarhollt i laxardal epter biskupsens skipan j skalhollte og boduari presti jonssyni fÿrrgreindann stad hiardarhollt at hallda epter þui sem hans collacionisbref þar um giort ntuisar.

Jtem i annare grein beidde boduar prestr jonsson helga prest þorkelsson officialis doms [um] alla þa peninga er hann hafdi at sier tekit j hiardarhollti stadarins uegna þar frida og ofrida. Nu saker þess at hann hafdi þa at sier tekit stadarins uegna þar i hiardarhollti med dandimana uitordi og [samþycki][1]) þa dæmdum uer fyrr greinder domsmenn boduar prest jonsson rettliga hafa at sier tekit alla þa peninga er i hiardarhollti uoru frida og ofrida og þa alla stadnum j hiardarhollti ok kirkiuni til [fullrar] eignar j sina innstædu peninga so mikit sem þeir nema epter dandimanna giord at hæd og fridleika. enn ef nokkur uill ak[æra þe]ssa peninga þa dæmdum uær hann skyllduganu at hafa leitt [sig til] þeirra firir helga presti þorkelssyni officialis med suordum eidum og logligum uitnum innan tueggia manada enu næstu. Enn ef eingi uitni eda loglig prof kæmi fram um þenna tima þa dæmdum uær ecki afl hafa nockra akæru a þessa[2]) peninga upp þadan.

Jtem j þridiu grein dæmdum uer fyrrnefnder domsmenn erlend prest gunnarsson skÿlldugan at sueria bokareid firir helga presti þorkelssyni officialis huersu mikla peninga hann ætti kirkiunni og stadnum i hiardarhollti at giallda i sina innstædu peninga enn hann sor þan eid at hann ætti henni at giallda. iij. hundrud og fioratigi i sina innstædu peninga. dæmdum uær og fyrrnefnder menn honum[3]) i fyrgreindum eid at sueria at hann skylldi luka stadnum og kirkiunni i hiardarhollti alla þa peninga sem a brustu hennar innstædu peninga nær hann hefdi til enn hefde lukt at enum þridium fardogum med þeim at nu lidu i uor allt saman. enn uær reiknudum þat ellifu kugillde er epter stod og hann gat ongua grein firir giort. var þessi uor domr gior og upp sagdur og inn skriptis framborin i stofunni i hiardarhollti j laxardal og helga presti þorkelssyni

---

[1]) »radi er ofstutt ord til ad fylla þessa lacunam. kanske þar hafi stadit: samþycki«. (AM.); [2]) þe, stendr hér í frumritinu, en því er ofaukið; [3]) »plenis literis« (AM.).

officialis oss samþyckiandi. Og eg helgi prestr þorkelsson officialis heilagrar skalholltzkirkiu millum huitár i borgarfirdi eg hrutafiardarar seigi eg in nomine domini amen at eg urskurda þenna dom logligan uera med fullum laga urskurde og doms atkvædi. Og til sanninda hier um setta eg officialatus inzcigli med þessara fyrrnefndra presta inncigli firir þetta domsbref er giort uar a sama degi og are sem fyrr seigir.

---

377. 31. Júlí 1464. í Árbæ í Mosfellssveit.

Steinmóðr ábóti í Viðey og Jón Narfason votta, að Ólöf Loptsdóttir fékk Gerrek gullsmið í Hafnarfirði þrjú gull-nobil og sjötíu og þrjú nobil (í silfri) og tuttugu nobil í grottasilfri og þrettán merkr og fimm aurum betur í smíðuðu silfri, er skyldi koma uppí jarðir Guðmundar Arasonar, er Björn Þorleifsson hafði keypt, og lofaði Gerrek gullsmiðr að fá konungi þessa peninga fyrir hönd Björns og Ólofar.

AM. Fasc. XVI, 11, transskript á skinni gert á Skarði 13. Aug. 1465. AM. Fasc. LXV, 12, óvidimerað transskript á skinni frá c. 1485 og er hér tekið eptir transskriptinu frá 13. Aug. 1465.

Hier greinir hverier peningar at golldner vorv j anad sal firir sagdar skulder[1]).

Þat gerum vid brodir steinmodr. med gudz nad aboti j videy og jon narfuason godum monnum viturligt med þessu ockrv opnu brefi. ath vit vorum j hia j hafnarfirdi j islandi laugardagin næsta firir olafsMesso fyrri[2]). og saum og vissum. at gerek gullsmidr tok med suo vordnum peningum af olofu loptzdottur. at hon lysti þui firir ockur. adur greind olof. at þessa sama peninga luctti hun vegna biarñar þorleifssonar. hirdstiora yfer allt jsland bonda sins. j þa somu skulld. sem adrnefndr biorn var skylldugur minum herra konginum firir þa somu peninga sem hann hafdi keypt adr af minum herra kongínum. er gvdmundi bonda arasyni hafdi adr til heyrt. var þat fyrst .iij gullnobil og lxx og iij nobil og xx j grotta silfri og

---

[1]) LXV, 12; [2]) þ. e. 28. Júlí.

viij merkur silfurs j smidudu silfri og v. aurum betur. lofadi og adrnefndur gerek at færa þessa fyrskrifada peninga minum herra konginum. vegna fyrsagdra manna. biarnar bonda og hvstrv olofuar.

Oc til saninnda hier vm settum vid fyrrnefndir menn ockar jnseigli firir þetta bref j ærbæ j gufuness kirkiusoknn. jn festo germani episcopi et confessoris. anno domini ꝏ⁰ cd⁰ lx⁰ iiij⁰.

---

378. 18. August 1464. á Hólum.

Ólafr biskup á Hólum samþykkir staðaskipti þeirra séra Ólafs Þorgeirssonar og Magnúsar Ásgeirssonar, að Ólafr verði prestr á Bægisá, en Magnús í Húsavík.

AM. Fasc. XVI, 15, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

bref vm stada skipti millum sira olafs þorgeirssonar ok sira magnusar asgrimssonar[1]).

Víj olaf med guds nad biskup a holum gerum godum monnum uiturligt med þesso uoro opno brefi at víj hofum samþýkt þau skipti er sira magnus asgrimsson hefer unt sira olafi þorgrimssyne stadin bægisa med ollum hans gaugnum ok penningum til æfinligrar eignar. hier j moti handabandadi sira olafur þorgeirsson adr nefndum sira magnuse asgrimssýne stadinn husauik a teýrñesi til æfinligrar eignar med ollum sinum gognum ok penningum sem stadnum fýlger ok fýlgt hefer. skylldi huor afenda a næstum fardaugum. Suo ok ei sidr medr kennumz víj biskup olaf ath víj hofum unt og gefit sira magnusi asgrimsýne stadin husauik a teýrnesi til æfinnligrar eignar med ollum sinum gognum[2]) ok peningum sem fýr greindum stad husauik fylger ok fýlgt hefer ath fornu ok nýu lofade sira olafur at legia aptur sina collacionem er hann hafdi firir husauik. suo ok eigi sidr lofade sira magnus at legia aptur sitt skial er hann hafdi firir bægisa.

Ok til sannenda hier um setta vi vort jnsiglle firir þetta

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi; [2]) godnum, frbr.

bref skrifat a holum j hialtadal laugardagin næsta epter assumpcionem sancte marie anno domini ꝏ⁰ cd⁰ lx⁰ quarto.

---

379. 20. August 1464. á Hólum.

Transskriptabréf.

AM. Fasc. XVI, 3, frumtransskriptið á skinni.

vm valþiofstade[1]).

Þath giorum vid þorleifr magnusson. þorkel þorgeirsson prestar. godum monnum viturligt med þessu ockru brefui ath vid saum ok ẏferlasum suo uordit bref latanda ord epter ord sem hier scrifuat stendr med hæ(n)gandum ok oskavddum jnciglum. [Hér kemr dómr Ólafs biskups Rögnvaldssonar á Eyrarlandsprestastefnu 13. Júlí 1464 um Valþjófsstaði í Gnúpasveit, Nr. 372.].

Ok til sanninda hier vm settum vid fyrnefnder prestar ockur jncigli firer þetta transcriptarbref scrifuat a holum j hialltadal manudagin næsta epter ꝏariumessu enu firri anno domini ꝏ⁰ cd⁰ lx⁰ quarto.

---

380. 29. August 1464. í Launguhlið.

Helgi prestr Magnússon gefr Stulla Magnússyni bróður sínum til fullrar eignar jörðina Eyrarland í Eyjafirði.

AM. Fasc. XVI, 9, frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en ern nú öll dottin frá, nema eitt. Apogr. 227.

Eyrarlandz Bref[2]).

Þath gerum vier hallsteinn þorsteinsson ok joñ þorsteinsson. biorñ jonsson. joñ beinersson ok hallbiorn jonsson godvm monnum vitrligt med þessu voru brefi at þa er lidit var fra burd kristz þusund fiogr hundrut sextiger ok fiogr ār j longuhlid nedri j horgardal a hofuddagin johannis baptiste vorum (vier) j hia saum ok heyrdum a ord ok handaband þeirra sira

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. Þar stendr og með gamalli hendi »Vm valtiofstade«; [2]) utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

helga magnussonar af einne alfu ok stulla magnussonar brodr hans af annare at sua firir skildu at sira helgi gaf stulla brodr sinum til fullrar eignar jordina eyrarland j eyiafirdi er ligr j hrafnagilsþingum med aullum þeim gognum ok gædum sem (henne) hefir fylgt at fornu ok nyiu ok hann vard fremzt eigandi at ok honum hefir til erfda fallit eptir fodr sinn ok modr. skal þessi jord vera akærulaus eign ok obrigdulig adr greindz stulla magnussonar firir titt nefndum sira helga magnussyni ok hans erfingium.

Ok til sanninda hier vm settvm vier fyr nefnder menn vor jnsigli firir þetta bref skrifat j sam̄a stad degi ok ari sem fyr seger.

---

381. **2. Október 1464.** **á Svínavatni.**

Dómr sex manna útnefndr af Brandi Sigurðssyni, kongs umboðsmanni í Húnavatnsþingi, um lambatoll af Eyvindarstaðaheiðum.

AM. Fasc. XVI, 19, frumrit á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú er að eins eptir brot af þremr. Dómr þessi er til víða í pappírsafskriptum, og er elzt afskript séra Gottskálks í Glaumbæ Add. Brit. Mus. 11, 242. 4to bl. 19b.

domvr vm lambarextvr a eyuindarstodum[1]).

Þad giorvm vęr brandr arnnoztson. einar hallfridarson. olafur biavrnson. hrafn jonsson. are bavdvarsson ok arnne geirson godum monnum kvnnegt med þessv vorv opnv brefe ad suo sem var anno domini ◯⁰ cd⁰ lx⁰ qvarto a þridivdagen nęsta epter mikelsmessv æ svinavatne æ asvm æ þingstad rettvm vorv ver j dom nefnder af ęrlegvm manne brande sygrdzsyne er þa hafde kongsens syslv j hvnavazþinge ad dęma millum þeira egels grimssonar ok magnvs jonssonar. kięrde egell þat til magnvs ad hann hefde ecke reked lambfe sitt æ eyvindarstada heidar edr toll gollded epter gavmlvm vana. nv saker þess at oss leízt adr nefndr magnvs þar lavglega firir kalladur hins anna(r)s ad fyr-

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi.

nefndr egell let lesa þar transkriptarbref af vrskvrde einars gilssonar lavgmanz nordan ok vestan æ jslande med heilvm ok oskoddvm godra manna jnnsiglvm sno latanda ad fyrr nefndr einar hafde vrskvrdat alla bęndr j mille gavngvskarzar j skagafirde firir vestan votn̄ ok laxar æ skagastrond firir nordan blavndv þa sem eige tiu lavmb ędr fleire frialslega j heimild ad reka sinn lambfenad vm svmar j eyvindarstada afrett enn lvka at hæsti eitt lamb af rextre eyvindarstadamonnnm er af fialle kemr sno framt sem þeir vilia fordazt þa sektt sem vid ligr ad rivfa lavgmanz nrskurd ok þvi dęmdvm vęr optnefndan magnvs skylldvgan at lvka fyrnefndan fialltoll opt nefndvm egle ok alla bęndr adra j fyrr savgdv takmarke at frialsv reka ok lvka optt nefndan toll til eyvindarstada epter þvi sem fyrr skrifad stendr at heyrdvm þessvm vorvm dome.

Ok til sannenda hier vm settvm vęr fyrr (nefnder) menn vor jnsigle firir þetta domsbref skrifad j sama stad dege ok are sem fyrr seiger.

---

382 17. December 1464. á Hólum.

Prófentubréf Sveins Guðmnndssonar, er Ólafr bisknp tekr i prófentn á Hóla stað.

AM. Fasc. XVI, 14, frumrit á skinni. Brot af innsigli biskups er fyrir bréfinu.

proventubrief Sveins gndmnndzsonar[1]).

Víj olaf med guds náád bisknp áá holum giorum godum monnum viturligt med þessn vorn brefue. ath ví haufuum tekit sveiñ gudmundzson til æuinligx profuentnmanz heima áá stadnum áá holnm j hialltadáál. hefner hann lukt ok gefuit j profuentu med sier xx. máálnýtn kngildi ok. vij. betur. xiij. gel(d)fiar kugilde ok jordina halfua nýabéé er leigit hefuer j áábæiar kirkinsokn j skagafirde med aullum gǫgnum ok gædnm sem þeire halfre jordu fýlger ok fýlgt

---

[1]) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

hefuer ath fornu ok nyio. ok hann vard fremst eigande ath ok þar til gaf hann til hola kírkiu .x. aura káálek af silfur. ok skal han(n) lukt hafua hann jnnann þriggia áára. hier j mote skilde áádr greindr sueinn sier af stadnum æuenligañ kost. epter þui sem goder gamler prouentumenn hafua haft firir honum. suo ok skal hann hafua huss af stadnum þau sem standa sudur j tune fra báádstofune ok kaullud eru sueinshuss ath fornu. skal hann hallda husum vpp enn stadurin fáái til vid ok veltu ok eldiuid sem honum þarfuazt j husit. suo ok skal hann hafua áárliga vod af stadnum ok skæde sem honum vel henntar. skal hann hafua sess ok sæte epter þui sem dandemanne ber ath hafua. skal hann hafua þionustumann j husi sinu vpp a sinn eigiñ kost. suo leinge sem vor náád til seiger. kann vor vid ath missa þáá skal hann hafua mannen obrigdeligha. Skal optnefndur suein hafua sæng ok kistu til stadarins. ok skal stadurin halda sængine ok eignazt huortueggia epter hann daudan.

Ok til sanninda hier vm heingium ví vort jncigli firir þetta profuentubref er scrifuat var áá holum j hialltadáál þridiudagin næsta firir festum thome apostoli anno domini ꝳ° cd° lx° quarto.

---

383 **4. Janúar 1465.** **á Hólum.**

Vitnisburðr að séra Loðvík Hallsson sór fyrir Ólafi biskupi á Hólum, að Skúli Loptsson hélt og reiknaði sina eign jörðina Syðra-Vallholt í Skagafirði.

**AM. Fasc. XVI, 20, frumrit á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá.**

vm valdholt[1]).

Þath giorum vid þorleifur prestr magnusson ráádzman áá holum ok jon þordarson leikman. godum monnum viturlikt med þessu ôckru brefui ath þar voru vid j hia sáágum ok heyrdum áá. ath sira loduik hallzsson soor fullan bokar-

---

[1]) **Utan á bréfinu með fornri hendi. Þar stendur og með 17. aldar hendi: „Bref V~m~ Vallhollt“.**

enn j alla fyr nefnda jord stoxeyre. Ok til sannennda hier vm þa settum vær fyr nefndir menn vor jnsigli fyrer þetta uitnesburdarbref er skrifad var j klofa j landmannahrepp þridiadagenn næsta fyrer jonsmessv battista(!) a sama are sem fyr seger.

---

411. 20. Júní 1466. á Víðivöllum.

Dómr Ólafs biskups á Hólum og tólf presta um sira Jón Pétrsson fyrir það, að hann hafði þjónnstað Finnboga Jónsson og hans fólk og messað yfir þeim í biskupsins forboði.

AM. Fasc. XVII, 4. Frumritið á skinni. Tíu innsigli, sum mikið bráknð, eru enn fyrir bréfinu. Hin eru dottin frá. Apogr. 3198.

Doomsbref vm sira jon petursson[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda semingur magnusson. jon broddason. kettill grimolfsson. olafur þorgeirsson. þorstein gudmundsson. arnbiorn amundzson[2]). kár jonsson. þorkkell[2]) þordarson. þorarin þordarson þorkell þorgeirsson. oddr þorkellsson ok nicholas kalfsson. prestar holabiskupsdæmis. kediu guds ok sina kunnigt giorande. ath þa er lidit (var) fra hingatburd vors herra ihesu christi þusund. cccc. lx. ok vj ár. favstudagin næsta fyrer jonsmessu baptiste a almennelegre prestastefnu a viidevollum j skagafirdi. vorvm ver j dom nefnder af vorvm nádvga herra biskup olaf a holvm. ath dæma vm þa akærv. er hann kærdi til sira jons peturssonar. ath hann hefde þionostad finboga jonsson ok hans folk ok messat ýfer þeim j biskupsins forbodi ok heilagrar kirkiu. var þat svarit af tueimur vottum at fýr nefndr sira jon petursson var þangat stefndr. þui dæmum vier fyr nefnder prestar optnefndan sira jon logligan(a) fyrer kalladat[3]) ok mork j stefnvfall. nema sira jon sýni loglig forfaull ath hann mætti eigi koma. j annare grein dæmdvm ver biskupin skýlldugan. ath lata

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Þannig. [3]) Svo.

sveria t(v)av lavglig vitni innann halfsmanadar. ath tíjt nefndur sira jon hefde þionostad finboga ok hans folk. en ef hann fær eigi þessi vitni. þa skýldi biskupin sveria lata med gangne[1]) eda vittnvm. ath sira jon petursson hafde messat j kirkinnne a greniadarstodum sidan þat var forbodit. ok at þessv gangne[1]) eda vitnum leid(d)vm. dæmdvm ver þrattnefndan sira jon skylldan ath sveria settareid. at hann hefdi eigi þionostad finboga edr hans folk. felz honum eidurin. þa dæmdum ver nefndan sira jon fallen j bann af sialfn verkinu. ok skýlldugan ath luka. iij. merkur biskupinvm fyrer huern þann mann er hann hefer þionostad j greniadarstadarþingnm j moti biskup(s)ins skipan. en sex merkur fyrer alla þa er biskupin getur sýnt ath j samneyti hafi uerit vit gisla gunlavgsson medan hann var j forbodi. luka þessa pening(a) heima a holum ath næstum fardogum bisknpinvm edr hans umbodsmanni ef til eru. en svare elligar epter þvi sem lavgbok giorir rad fyrer um aureiga. ok skylldngan ath fara heim til hola innan halfsmanadar. ath heyrdnm dominum. ok taka þar lausn ok skript af bisknpinvm fyrer sin brott ok missa svo lei(n)gi messusavng sem biskup(s)ins nader tilsegia ok kirkiunnar lavg uttvisa. Ok til sannenda her um settum ver fyrnefnder prestar vor incigle fyrer þetta domsbref skrifat j sama stad degi ok a̋re sem fýr seger.

---

**412. 21. Júní 1466. á Flugumýri.**

Vitnisburður tveggja presta, að það hafi verið svarið fyrir Sveinbirni officialis Þórðarsyni, að Jón Hildibrandsson hefði svarið það, fyrir honum, að síra Jón Pétrsson hefði messað í Grenjaðarstaðakirkju á dýradag.

AM. Fasc. XVII, ad. 4. Frumrit á skinni læst saman við dóminn um síra Jón Pétrsson frá 20. Júní 1466 (Nr. 411). Apogr. 3199. Bæði innsigli bréfsins eru heil.

Þat geyrvm vit ketell grimolfsson ok þorkell þorgeirsson prestar godum monnum viturligt med þessv ockrv opnv brefi at þar vorvm vid j hia savm ok heýrdum æ at þat

[1]) Svo.

var suaret af tueimur skilrikvm vottvm fyrer sira sveinbirne þordarsyne officiale heilagrar holakirkiv at jon hilldebrandzson hafde suaret fyrer honum at sira jon petursson hafdi messat j greniadarstadar kirkiu æ dýradag. ok til sanninda hier vm settvm vid fyrnefnder prestar ockur jncigle fyrer þetta vitnesburdarbref skrifat æ flvgvmyre j skagafirde lavgardagen næsta fyrer jonsmessv baptiste anno domini ɱ.º cd.º lxº. sexto.

---

**413. 25. September 1466. á Hólum.**

Transskript.

AM. Fasc. XVI, 2, frumtransskriptið á skinni. Tvö innsigli bráknð eru fyrir bréfinu, en eitt er dottið frá. (= 19. Sept. 1471?).

valþiofstader.

Þat giorvm ver einar benedictzson. magnus halldorsson. beion[1]) þorsteinsson prestar godvm monnum viturligt med þessv vorv opnv brefe at ver savm ok ýferlasvm sua ordat domsbref med hangvndvm jnciglvm suo latanda ord efter ord sem hier seger. [Hér kemr dómr Ólafs biskups Rögnvaldssonar á Eyrarlands prestastefnu 13. Júlí 1464 um Valþjófsstaði í Gnúpasveit, Nr. 372].

Ok til sannenda hier vm settvm vær fyrr[2]) nefnder prestar vor jncigle fyrer þetta transkriptabref er skrifat uar æ holvm j hialltadal fimtvdaginn næsta efter festvm ɱatthei apostoli og ewanngeliste anno domini ɱ.º cdº lxº vi.º [3]).

---

**414. 13. Oktober 1466. á Snartastöðum.**

Jón Ólason lykr Þorlaugu Árnadóttur konu sinni jörðina Ærlæk í Öxarfirði fyrir Stokkahlaði í Eyjafirði, er hann hafði selt, en hún hafði haft til kaups við Jón.

---

[1]) Þannig = Björn. [2]) tvískrifað.

[3]) Krullað, og er eins og fyrst hafi verið ritað „XIº", en svo farið med pennann ofan í það aptr til þess að gera úr því „VIº". Utan á bréfinu stendr og „1466 vel 1471".

AM. Fasc. XVII, 3. Frumrit á skinni. Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá. Apogr. 3002.

vm ærlæk 1466[1]).

Þat giori ek brodir einar med gnds nad æboti æ munkaþueræ. olafr magnusson ok stefan einarson godum monnum viturligt med þessn vorn brefi at þa er lidit var fra hingadburd vors herra jhesv christi þnsund cccc sextiger ok sex ær jn festo Reliquiarum. a snartastödum j nupasveit vorum vier j hia sanm ok heyrdum æ at jon olason lukti þorlangu arnadottr koñu sinni med handabandi til fullrar eignar jördina ærlæk j öxarfirdi med öllum gögnum ok giædvm sem heni hefer fylgt at fornu ok nyu sem hann vard fremz eigandi at fyrer jördina stockahladi j eyiafirdi er hann hafdi sellt ok greind þorlang hafdi haft til kanps vid sagdan jon olason. ok til sannenda her vm settvm vier vor jnzsigli firir þetta bref skrifat j sama stad degi ok æri sem fyr seger.

---

## 415. 30. Október 1466. í Oddgeirshólum.

Einar Erlendsson selr Brynjólfi Jónssyni jörðina Oddgeirshóla í Flóa fyrir jörðina Tún í sömn sveit og nokkurt lausafé, og samþykkja konur þeirra kaupin.

Bisk. Skalh. Fasc. V, 2. Frumritið á skinni. — AM. Apogr. 2558 með hendi Árna Magnússonar sjálfs eptir frumritinu: „2 innsigle hafa vered fyrer brefenn, enn nu eru bædi þar fra. Þetta fyrer framan skrifad bref, er nu tekid miög so at trosna, er þo enn, so ad kalla, alæst. Medan eg þad nppskrifade hafde eg vid hönd 2. Copiur ritadar þá brefed var læselegra. þá fyrre hafde skrifad Sira Biarne Hallgrimsson i Odda[2]), þá hann var i Skalhollte, þá sidare þordur þordarson 1702. bar þeim badum saman“ (AM.).

Kaupmalabref Einars Erlendzsonar og Bryniulfs jonzsonar Vm Tun oc Oddgeirshola.

Þat giorum vier sigurdnr jonsson. þordur jonsson ok eilifur þordarson godum monnnm viturlikt med þessu voru brefi ad þa er lidit uar fra hingatburd vors herra jhesn christi þusund fiogur hundrud sextiger ok vj. ar i hrann-

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Séra Bjarni er vígðr 1678.

gierdi i floa fimtudagenn næsta fyrer allra heilagra messo vorum uier j hia saum ok heyrdum á ord ok handaband þessara manna einars erlendsonar af eini alfu enn bryniolfs jonsonar af annari. ad svo fyrer skildu. ad fyrnefndur bryniolfur selldi adurnefndvm einari jordena halfa er oddgeirsholar heiter ok[1]) liggur i floa i hraungerdishrepp. med ollum þeim gaugnum ok giædvm sem greindri jordu fylgdi ok fylgt hefdi at fornu ok nyiv ok hann hafdi fremzt eigandi at ordit. Hier j mot gaf fyrnefndur einar adra jord er tun heiter er lig(g)ur j floa j hraungerdis kirkiu sokn med ollum þeim gognvm ok giædum sem þeirri jordu fylgdi ad fornv ok nyiv ok hann vard fremzt eigandi at. ok þar med fimtan hvndrud med þessum fridleika. vij kyr ok v asandar kugilldi. hundrads hest. halfa þridin vod[2]) ok xij fiordunga smiors. skylldi fyrnefndur einar hallda fyrgreindri jordu oddgeirsholum til laga. enn adurnefndur bryniolfur svara lagaripting. en ef adurnefnd jord tun kynni med logvm af ad dæmazt. þa skylldi þratnefndur einar fá titnefndvm bryniolfi adra jord jafngoda ad langligre virdingu. samþycktu þenna giorning kvinur fyrnefndra manna er svo heita steinvn sigurdardotter ok marin brandzdotter med fullu jayrdi ok handabandi. Svo ok medkiendizt þratnefndur bryniolfur j sama handabandi ad hann hefdi nt tekit ok uppborit af einar(i) erlendsyni fyrer jordena oddgeirshola alla fyrrsagda peninga svo honum vel anægdi. þvi giordi hann fiolnefndan einar ollvngis kvittan ok ákiærulansan vm allt fyrsakt jardarverd fyrer sier ok ollvm sinvm efterkomendvm.

Ok til sannennda hier vm settvm vier fyrnefnder menn nor jnnsigli fyrer þetta bref skrifat j oddgeirsholum á sama ari degi sidar enn fyrr seger[3]).

---

[1]) „Þetta z sem punctar standa under, er nu ølldungis burttrosnad. enn so hafa þad ritad, bæde sira Biarne og þordur þordarson, enn ecki er“ (AM.). [2]) „vo. i ordenu vod eru nu helldur enn eigi litt læser. Enn bædi i sira Biarna og þordar copium stendur vod. og epterlits verdur þad nocknrnveigenn so enn nu i brefenu lesed“ (AM.). [3]) Þ. e. 31. Október.

416. **28. December 1466. í Kaupmannahöfn.**

Kristján Danakonungr hinn fyrsti lýsir því, að Björn Þorleifsson, „vor elskulegr þénari“, hafi goldið sér fjögur hundruð nóbila fyrir eignir Guðmundar Arasonar, er Björn hafði keypt, og kvittar konungr Björn með öllu fyrir endrgjaldi þessara eigna.

AM. Fasc. LXV, 12, óvídimerað transskript á skinni frá c. 1485. AM. Fasc. LXVI, 12, eptir transskripti frá 26. Júní 1467.

[Jtem pañ(!) þridiu savlen voro greidd. þa sem kuittanarbrefit var sogtt. af arnore finnzsynne. vegna hvstrv olofar og kongur s[i]alfur medkennezt j sinv brefe. at greind skuld sie golldit. er biorn lofade[1]).

Vij kristiarn[2]) med gudz nad Danmarks. sviarikis. Noregis. wendis[3]) og gavtes[4]) konvng. hertöge[5]) j slesvik og j holstenn stormaren. og Dithmersken. Greife j oldennborg. og Delmenhorst. Giorvm ollvm vithanligt.[6]) at þenna velbvrdig[7]) man Biornn þorleifsson wor elskulegur þienare og vmmbodzman vpp æ vortt land jsland hefur til [goda Reidn gefit[8]) og fornægtt oss fiogur hunndrvd nobil. af þeim fiorum hundrvdvm nobilum. sem hann oss skylldvgur vard. firir gvdmvndar ærasonar godz. þat sem hann til oss og krvnvnar j noregi forbrotid vard[9]) og hann at oss keyptt hefer. firir fyrnefntt gialld. þui gefvm vij fyrnefndan biornn þorleifsson og hans hvstrv. og þeirra bavrnn og erfingia. kvitta og lidvga og laus. fyrer alltt framar meira tilthal. krafer edur aamaningar[10]) vm fyrr skrifvd fiogur hvndrvd nobil af oss edur norvmm erfingivm og epterkomandvm konnvnnga j norige. edur nockur anar[11]) vpp æ vorra vegnna.

Jn cuius quitthancie testimonivm secretvm nostrvm presentibus dvximvs appensum.

Datum jn castro nostro kaupmanahafnn Die[12]) sanctorum jnnocencivm. anno domini ɱ.º cccc.º lx.º vj.º [13]).

---

1) [Quittantija Kongz Kristians Vm Betalnijng firer Gudmundar Gots LXVI, 12 (utan á með hendi frá 17. öld). 2) kristiern LXVI, 12. 3) Wendes LXVI. 4) gotes LXVI, 12. 5) hertuge LXVI, 12. 6) witurligt LXVI, 12 7) welburdug LXVI, 12. 8) tvískr. gefit LXV, 12; [Reidt gefit, með öðru bleki i LXV, 12. 9) þannig. 10) ææmaning LXVI, 12. 11) annar LXVI, 12. 12) dies LXVI, 12. 13) octavo (!) LXVI, 12.

**417.** 8. Janúar 1467. í Skálholti.

Jón bóndi Ólafsson ráðsmaðr i Skálholti og Ingibjörg Eiríksdóttir húsfreyja hans, gefa Eiríki heitnum syni sínum til friðar, (f)arnaðar og sáluhjálpar, jörðina Sandlæk í Eystrahrepp og fimm kúgildi búlæg kirkjunni og staðnum í Skálholti.

Bisk. Skalh. Fasc. V, 7. Frumrit á skinni stórlega skemt. — AM. Apogr. 2562 með hendi Árna Magnússonar sjálfs „Ex original. Skalholt. accuraté.“ „Originallinn af þessu brefe er illa skrifadur, og er af brefenu burtrifin frä ofanverdu og nidur j gegnum hin hægre rönden sem svarad mun hafa hier um fimtungi af breidd brefsins, og er hier j þoss burtrifna stad af gätu (sett) þad sem nnder er strikad[1]), og ætla eg ad þad mune riett vera. ad visu hefur meiningeñ sama verid j þvi burtrifna og þessu. Jnnsiglen hafa vered 3, eda 4. ern nn öll burtu. Þetta bref hefur eins rifid vered þä sira biarne Hallgrimsson þad nppskrifade sem audsíed er af hañs ntskrift“ (AM.).

Vm Sandlæk.

Þath geiorum wær oddur prestur petursson bacalarius arcium uikarius genera[lis yfer allt ska]holltzbiskupsdæmi ok officialis íí millum huitær íí borgarfirdi ok helkun[dubeidar skalholltz]biskupsdæmis. augmvndur andresson ok halldor ærñason prestar. pal kolbeinsson. þ..... [son ok jn]ggeialldur þorbeiarñarson. leikmenn. godum monnum witanligt med þessv woro brefe. a[t þa er lidit var fra] hingathburd drottens wors íihesu christi. m.º cccc. sextier ok .uíí. ær. fimtu-[daginn næstan] epter hinn þrettanda dag iola ii kirkiunne íí skalholltti íí biskupstungum [vorum vær þar] íí hia ok heÿrdum æ þæ ath ioñ bonde olafson rædzman íí skalhollti [med samþycke] ingebiargar eirikzdottur hvspreÿiv sinar. gaf eiriki heitnum sÿne [sinum til fridar. (f)arna]dar[2]) ok saluhialpar halfa iordina sanlæk er liggr íí hola kirkiu s[okn í eystra hr]epp med ollum þeim gognum ok gædvm sem greindre iordu fÿlger ok fylk(t) h[efer at fornu] ok nÿu epter þui sem hann ward fremst eigandi ath. ok þar med fim kugilldi bulæg kirkivnni ok stadnum ii skal[hollti til æfin]legrar eignar ok fridoms. Ok til sanenda hier wm

[1]) Hér í útgáfunni í hornklofum. [2]) eða: [fagn]adar, sem Árni ritar yfir línuna.

setti fýrgreindur ioñ bo[ndi sitt inn]sigle med vorvm insiglum fyrer þetta bref skrifath íí sama stad deig[i ok æri sem] fýr seiger.

---

418. 13. Janúar 1467. á Munkaþverá.

Þuríðr Haldórsdóttir gefr með sér til prófeutu staðnum á Munkaþverá jörðina Uppsali hálfa í Eyjafirði.

AM. Fasc. XVII, 16. Frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en þau eru nú öll dottin frá, nema eitt. Apogr. 3003.

um npsale 1467 gefuer j proventu[1]).

Ollum monuum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda þorgils prestr augmundzson. steingrimr jsleifsson. olafur Magnuss son. stefphan einarsson ok þosteinu ioussou leikmenn kuediu guds ok sina kunnigt geraude ath þa er lidit var fra hiugath burd vors herra ihesu christi þusund fiogur hundruth sextiger ok vij ær æ munckaþveræ i eyiafirde geisladaginu epter iol vorvm vær i hia saum ok heyrdum æ ord ok handabaud herra einars abota med samþyckt hans conueutubrædra af eiuue alfo ok þuridar halldorsdottur af annarre ath svo fyrer skildo ath saugd þuridur fieck stadnum æ munckaþueræ til fullrar eignar iordena upsali halfa i eyiafirde er liggur i munckaþveræar kirkiu sokn med aullum þeim gaugnum ok gædum sem greiudri halfri iordo fýlger ok fylgt hefer ath fornu ok nýio ok huu vard fremzt eigande ath. sagde hun ath þar ætte ath halldazt æ omagi. svo ok sagde hvn ath þaugath væri itaulur tolf fedmings skurdur torfs ærliga fra klaustrino æ munkaþueræ ok ala þadan lamb at helmingi. hier i mote skýllde þrætt uefnd þyridur[2]) halldorsdotter hafa framfærslo. mat ok klæde æfiuliga af stadnum svo huu mætte vel vera vith. skyllde huu ok þiona medan huu væri fær. skilde herra aboten þar helzt til tvskap[3]) ok ath fara med bu þar sem honum hentade. gaf hun ok þar iayrdi til. samþyckte ok þenna gioruing

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Svo. [3]) Þ. e. tóskap.

gunulaugur halldorssou son hennar. skilde tidt nefnd þuridr ser legstad ath klaustrino hvar sem hun sæladizt ok suo ath vera heima æ staduum upp fra þui huu væri til aungrar vinno fær. ok til sanuiuda hier vm̄ settum vær vor inncigle fyrer þetta bref skrifath i sama stad. deigi ok ære sem fyrr seiger.

---

419. 23. Marts 1467. á Víðivöllum.

Vitnisburðarbréf um landamérki, ítök og ítölur Víðivalla hinua ytri í Fljótsdal.

Afskript gerð í Berunesi 30. Maí 1704, staðfest af Þorsteini Hálfdanarsyni og Brynjúlfi Þórðarsyni eptir afskript Jóns Björnssonar gorðri 4. Febr. 1591 á Skriðu í Fljótsdal eptir frumritinu.

Þad giaurum vid Olafur Teitsson og Biörn Benedictsson goodum mounum kuuuugt med þessu ockru opnu breffe. ad þa er lidid var fra guds burd ∞. cccc. sextijger og vij aar mauadagenn i helguviku um̄ wored á wijdevöllum ýtrum i fliotsdal. haudfestu wid Hallsteiue þorsteinssyne svo felldañ vitnisburd. ad wid vissum firer full sauuiudi. og sua heyrdum wid ockur ellre menn lysa firer ockur. ad wijdeveller ytre ætte allañ Hwsholma firer haudañ kielldá. og alla þá holma sem þar eru yffer ad þeim árgranda sem geingur uti Jökulsá firer handañ Hwsholma. og svo wissum wid ad wijdeveller ýtre áttu skog ut wid Gilsá i rana. og añañ skogarpart fram̄ á Stullaflaut. og upp á x hesta letorf árlega i Skridu jaurd. og fim̄ stodhrossa beit á vetrum. og taka ecke[1]) fololld frá. Teig med um̄merkium firer framañ skogargoturnar offañ frá skridu. og effter þessum Jtaulum wilium wid sveria sem þurffa þiker. ad ockur elldri menu hafa þessar Jtaulur hafft og halldid og eiguad wijdevöllum. og setium wid ochar inncigle firer þetta breff skriffad i sama stad. deige sijdar[2]) eun firr seiger.

---

[1]) misskr. í afskr.: ecka eda reka (!). [2]) Þ. e. 24. Marts.

**420.** 31. Marts 1467. á Hólum.

Kaupmálabréf þeirra Hallvarðs Ámnndssonar og Valgerðar Keneksdóttur, frændkonu Ólafs biskups Rögnvaldssonar, en kaupmálinn fór fram á Hólum 23. Nóv. 1466.

J. Sig. 66. 8vo með hendi Grunnavíkur-Jóns 1741. „Ex originali pergameno", og var þá að eins fimta (síðasta) innsiglið fyrir bréfinu. — AM. Fasc. XVII, 11, transskript á skinni frá 25. Apr. 1467, skemt af fúa.

Kaupmala Bref[1]).

Þad giorum vær Þorleifnr magnnsson. biorñ þorsteinsson prestar. benedickt asgrimsson. magnns magnnsson og jon þordarson. leikmenn. godum monnnm vitnrligt med þessv voru brefe. ad snb anno gracie ᴍ⁰ cd⁰ lx⁰ sexto. vornm vær j hia. sæm og heyrdnm a. sunnvdagenn næsta fyrir katrinar ᴍesso[2]) ad holum j hialltadal. ad lystizst og stadfestizst svo felldr kanpmale. hallvardzs amundzsonar og Valgerdar kenegsdottnr. a þeirra brnllanps dege ath[3]) nefndr hallvardr hafde til kaups med greinda valgerde þriv hvndraud gyllene. hier j motj hafde fyr nefnd valgerdr til kaups med adr greindañ hallvard. jordena tvngv j nvpsdal. j nvps kirkiu sokn fyrir fioratjge hvndrada. og þar til tvttngv hundrand ȷ þarfligum penjngnm. er bisknp Olaf gaf greindri Valgerde frændkonv sinne. kom jorden sno til. ad biskup Olaf lyste og samþyckte. ad biskup gothskalck godrar minnjngar. hefde gefit tjttnefndre Valgerde adr greinda jord. kiore bisknp Olaf opttnefnda Valgerde malakonv j gard hallvardzs amnndzssonar. Gaf hallvardr valgerde konv sinne hvndrad gyllene j beckiargiöf. morgengiöf og j allar sinar lǫggiafer. vard þa male hennar allr saman sextiger hvndrada og hvndrad gyllene. Og til sannjnda hier nm settum vær fyr nefndir menn vor jncigle fyrir þetta kaupmala bref. skrifat a holnm ȷ hialltadal. þridia dag ȷ paskum. arj sidar enn fyrr seger.

---

[1]) Utan á transscripto með hendi frá 17. öld. [2]) Þ. e. 23. Nóv. 1466. [3]) XVII, 11; adr, JOlGrv. (þó með eforði).

421. 1. Apríl 1467. í Vatnsfirði.

Björn bóndi Þorleifsson kvittar Jón Ásgeirsson um andvirði jarðarinnar í Efstadal í Ögrsþingum, er hann hafði selt honum.

Eptir afskript frá c. 1700, sem er staðfest eptir „sínum original“ af Steini Þorkelssyni og Jóni Bjarnasyni.

Þad giore eg Biörn Bondi Þorleifsson godum monnum kunnugt med þessu mijnu brefe ad eg hefe feinged Jone Asgeirssyne til fullrar eignar Jördena Efstadal er liggur i Augur kirkiusokn med ꝍllum þeim gögnum og giædum og landa um̄merkium er greindre jördu fylger og fylgt heffur ad fornu og nyu og eg vard fremst Eigande ad. hef eg og fulla og alla peninga uppbored firer greinda Jörd svo mier vel ꝺ́ næger. og þvij giöre eg fyrrnefndr Biörn Þorleifsson ꝺ́durgreindan̄ ȷon ꝺ́sgeirsson ꝍllungis kvittan̄ og akiærulausan̄ firer mier og öllum mijnum Erfingium. riettum efterkomendum. um̄ ꝺ́durgreinda Jörd og Jardarverd. og til sannenda hier um̄ sette eg mitt innsigle firer þetta kvijttunarbref er skrifad var j Vazfirde i Jsafirde ꝺ́ fiorda dag pꝺ́ska. þꝺ́ er lided var frꝺ́ hingadburd vors ħerra Jhesu Christi þusund. fiögur hundrud. sextiger og vii ꝺ́r.

---

422. 7. Apríl 1467. á Munkaþverá.

Einar áboti á Munkaþverá kvittar Bjarna bónda Ólason um þá peninga, er hann skyldi gefa í millum Kasthvamms og Jódísarstaða og Höskuldsstaða.

AM. Fasc. XVII, 21. Frumrit á skinni. Eitt innsigli hefir verið fyrir bréfinu, en það er nú fallið af. AM. Apogr. 3203.

bref vm kasthuam[1]).

Þath giorer ek broder einar med guds næd abothe æ munckaþueræ godum monnum viturligt med þesso mino brefi ath ek medkennum̄zt ath biarne bonde olason hefer

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

lukt mier ok klaustrino suo fellda peuningha sem hann lofade i millum jardanna kasthuamms er hann sellde mier en iodisarstada ok hauskulldzstada er ek sellda houum. voru þath fimm maluýto kugillde ok fimm gelldfiar kugillde ok þriu hundruth i ofrido. þui gefur ek hann aullungiss kuittañ vm̃ þesse þrettan hundruth ok akiærolausañ fýrer mier ok aullum minum efterkomeudum. ok til sannenda hier vm̃ sette ek mitt innsigle fýrer þetta kuittuuarbref er skrifath var a muuckaþuera i eyiafirde þridiadaginu uæsta epter festum sancti am̃brosij episcopi auno domini ꝏ⁰ cd⁰ sexagessimo septimo.

---

423. 7. Apríl 1467. í Vatnsfirði.

Björn bóndi Þorleifsson selr Örnólfi Einarssyni jarðirnar Álfadal á Ingjaldssandi og Hraun, og að auk tvö málnytu kúgildi, fyrir Hvalsá, Tannstaðabakka og Útibliksstaði, og eru þær jarðir í Hrútafirði og Miðfirði.

AM. Fasc. XVII, 17. Frumritið á skinni. Fimm innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en tvö af þeim eru nú dottin frá. Apogr. 951.

Ollum mounum þeim sem þetta bref sia edr heyra seuda jon narfuasou. halldor sumarlidasou. eirekur biaruarson. sueiu þorgilsson. kuediu guds oc siua kuunigt gerandi. Þa er lidit var fra hiugatburd vors herra iesu christi þushund cccc sextigir oc siau ar. j vatzfirdi j isafirdi þridiudagiu næsta epter paska viku vorum vær j hia saum oc heyrdum a ord oc haudabaud þessarra manna biorns bonda þorleifssonar oc aurñolfs einarssonar. at suo fyrer skildu at adr nefudr biorñ selldi fyrrnefudum aurñolfue til fullrar eignar jordina alla alfuadal sextan hundrot oc xx oc þar til jordina alla hraun fyrer xij hundrot oc þar til ij maluytu kugilldi. liggia þessar iardir a iugiallzsaudi j sæbols kirkiu sokñ. Med ollum þeim gogũum oc gædum. rekum oc ollum landznytium sem greiudum iordum hefuer fylgt oc att ad fylgia at forñu oc nyio oc haun vard fremst eigandi at. Hier j mot gaf sagdur aurñolfur jordina hualsá hinu mine

fyrer x hundrot er liggr j backa kirkiu sokn j hrutafirdi oc þar til jordina tannstadabacka iiij hundrodum oc xx er liggr j stadar kirkiu sokñ j hrutafirdi. oc þar til iordina wtiblikstadi fyrer sextan hundrot er liggr j melstadar kirkiu sokñ j midfirdi. skylldi huor vm sig suara lagariptingum æ sogdum jordum [þeim er selldi[1]) €n hallda til laga hnor þeim er keyptt hefuer. Oc til saniñda hier vm setti biorñ þorleifsson sitt jnscigli med vornm fyrr nefndra manna jnsciglnm fyrer þetta kanpbref skrifat j sama stad degi oc are sem fyr segir.

---

**424. 10. Apríl 1467. á Horni á Rogalandi.**

Sex lögréttumenn skýra frá jarðeignnm þeim, er hústrú Guðríðr og hústrú Ragna Ingimundardætr áttu á Rogalandi, og lýsa því yfir undir eið sinn svarinn, ef þurfa þyki, að hústrú Margrét Vigfúsdóttir á Íslandi sé réttr erfingi þessara eigna, því að þær hafi hvorki verið seldar né gefnar.

Dipl. Norv. I, Nr. 877 eptir transskripti frá 14. Okt. 1494 í Ríkisskjalasafni Norðmanna. Guðríðr Ingimundardóttir, sem hér getr, er kona Vigfúsar hirðstjóra Hólms, en Margrét Vigfúsdóttir, sem hér er nefnd, er dóttir þeirra, og var hún fyrri gipt Þorvarði Loptssyni á Möðruvöllum.

That gerum wer Stenar Thorgersson Jngemundnr Thorgersson Jndride Ereksson Jnar Suensson Audun Thorgersson ok Haralldur Saurckuesson snarne logrettumen godum monnum viturligt med thessu worn opnu breffe ad vær hoffum weret her j Ryiaffylcke lengzt worrar æffe ok thet wistum ver fullulega ad hustru Gudrid Ingemundardotter ok hustru Ragna Ingemundardotter attu helldu ok hoffdn ok landzskyllder wpp baru aff ollum thessum jordum er so heta. Wik. Biarger. Dale. Horn. er liggia j Renneseyin j Ryiaffylcke j Haudskeds kirkiu sokn. ok so mikit j yzta By j Talgu ad gengur æff pnnd korn. ok Maruik er liggnr j

---

[1]) [á spássíum.

Hialsu kirkiu sokn ok ffiogur mamota bol j Hellulande er liggur j Strandar kirkiu sokn. ok halfft mamotabol j Molldum j Saudasokn ledangur ok tinnder afflucktn fyr saugdnm jordum so sem aff sinum odrum rettffengnum peningum ok helldu til dodadags. Wissum wær ok alldre nœcknrn mann ækæra edur tilkall weta vpp æ adurgrenda peninga ok onguan annad segia enn thetta wære therra systra fyrgrendra rett erffdagoz ok eigi gaffu thær ne selldn so vær wissum. Witum wær eige annad sannara firi gude en hustru Margret Wigfusdotter j Jsland ege thessar somu opt neffndar jarder. thui ad vær vitnm thar engen lag til ad thesser peningar hafe vndan henne matt ganga. ok anngan witnm vær rettan erffingia tittnefndrar Raugnn Jngemundardottnr enn ffyrsagda Margretu Wigffusdottur. Hier epter vilium ver sueria eff thnrffa thiker. Og til sannenda her (nm) settum vær ffyrnefnder men wor jnnsigle firi thetta breff. skriffat æ Horne j Renneseynne ffredaginn næstan firi sancte Magnns dag. anno domini m. cccc. lx. vii.

---

425. 19. Apríl 1467. á Sjávarborg.

Björn Þorleifsson selr Eyjólfi Arnfinnssyni jarðirnar Voga á Rosmhvalanesi og Gunnólfsá í Ólafsfirði fyrir jarðirnar Þernuvík, Efstadal, Ós, Hanhól og Gil á Vestrlandi.

AM. Fasc. XVII, 13. Frumritið á skinni. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en tvö af þeim eru dottin frá. Bréf þetta er áðr prentað í IV, 575 eptir afskript með hendi Árna Magnússonar með ártali 1434, en það getr ekki verið rétt, því að „vij“ er skýrt í bréfinu, en „sex“ má heita ólesandi.

bref fyrer hose[1]) j bolungarvik. hanholi ok gili[2]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref siá edr heyra senda steindor jonson. gisle þorgilsson. eingemnndr þosteins-

---

[1]) Svo, en Jón Sigurðsson hefir skrifað „Ósi“ fyrir ofan. [2]) Aptan á bréfinu með fornri hendi. Árni ritar ártalið „1467“ aptan á bréfið, en setr þó punkta undir 6, sem merki þess, að hann hafi ekki verið alveg viss um það.

son. helge þorhallzson ok eigill magnusson kuediu guds ok sina kunnigtt giorandi þa lidit var fra hingadburd vors herra jhesu christi. ꝏ. cccc. hnndrot sex[1]) tiger ok vij ær. ꜳ sunnudagenn næsta fyrer jonsmessu holabiskups. ad þar voro vær j hiꜳ sꜳm ok heyrdnm ꜳ ꜳ siꜳuarborg j skagafirdi handaband ok ord þeirra biarnar þorleifssonar ok eyiolfs arnnfinzsonar ad suo fyrer skildu ad ædr greindr biorn sellde eyiolfi jarder tuær er suo heita vogar ꜳ ʀosmalanese er liggr j kalbatiarnar þingum fyrer .vj. tigi hundrada. gnnnolfsꜳ er liggur j olafsfirdi j kuiabeckiar þingum fyrer .xx. hundrot ok hier til fiogur kugilldi. hier j mot gefur eyiolfnr oftt nefndum birñe jarder fimm er liggia ꜳ vestfiordum er suo heita þerñuvijk ok efstidalur er liggia j ogurþingnm fyrer .xvj. hundrod ok .xx. os fiorum hnndrodum ok .xx. hanholl .xij. hnndrodum. gil .xij. hnndrodnm. er liggia j holsþingum j bolnngarvijk. Skylldu þrꜳttnefnder menn biorñ ok eyiolfnr hnor um sigh sinum jordum hallda til laga ok suara ʀiftingnm hnorar sem brigdazt knnna fyr greindra jarda. Ok til sanninda hier vm settum vær fyrr nefnder menn vor inzsigle fyrer þetta jarda kaups bref sem giortt var ꜳ sama ꜳre ok degi ok stad sem fyrr seiger. Ok til meire audsyningar ok sanz vitnisburdar setti eyiolfur arnnfinzson sitt innsigli med fyr greindra manna inzsiglum.

---

**426. 24. Apríl 1467. á Hólum.**

Hallvarðr Ámundsson selr Skúla bónda Loptssyni, með samþykki Valgerðar Keneksdóttur konu sinnar, jörðina í Tungu í Núpsdal fyrir þrjátigi hundraða í voðum og smíðnðu silfri.

AM. Fasc. XVII, 14. Frumritið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en fjögur af þeim eru nú dottin frá. Frumritið átti fyrrum séra Skúli Þorláksson, en Árni fékk það frá Haldóri sýslumanni Einarssyni. Apogr. 382.

Þeim godnm monnum sem þetta bref sia edr heyra senda þolleifur magnnsson. magnus halldorson. biorn þostein-

[1]) óskýrt.

son. nichulas þormodsson. prestar. jon þordarson ok jon arnbiarnarson. leikmenn. quediu guds ok sina. kunigt giorandi ath þa er lidit var (fra) hingatburd vors herra jhesu christi þusund fiogur hundrud sextiger ok .vij. ar. a holum j hialltadal næsta dagh fyrer festum marci ewangeliste vorum vier j hia saum ok heyrdum á ord þeirra ok handaband af einni halfo skula bonda loptzsonar. enn af annare alfu hallduardz amundzsonar ath adr nefndr hallduardr selldi fẏrnefndum skula med samþẏcki ok vpplægi valgerdar kenneksdottur konu sinnar. jordina tungu[:]er stendr j nupsdals kirkiu sokn j midfirdi med aullum þeim gaugnum ok gædum er greindri iǫrdu hefer fẏlgt ath fǫrnu ok nẏiu ok hann vard fremst eigandi ath. hier j mote gaf adr nefndr skuli fẏr nefndum hallduardi tiu hundrut j vadmalum. tvær voder j huǫrt hundrat. tuttugu hundruth j smidudu silfre. halfan þridia eẏre j huǫrt hundrath. skylldi þesser halfer peningar lukter ath jonsmessu baptiste nu er kemur. Enn halfer ath olafsmessu fẏre. ath audru are næsta epter komanda. skẏlldi hallduardr amundzson suara lagariptingum a adr greindri iordu. enn skuli loptzson halldi til laga. Ok til sanninda hier vm setium vier fyrnefnder prestar ok leikmenn vor jnsigli fyrer þetta jardarkaups bref skrifat j sama stad degi ok áre sem fyr seigir.

---

427. 24. Apríl 1467. á Hólum.

Ólafr biskup á Hólum selr Skúla bónda Loptssyni jörðina í Ási í Vatnsdal fyrir Uppsali í Skagafirði.

AM. Fasc. XVII, 20. Frumrit á skinni. Sex innsigli eru fyrir bréfinu og hafa aldrei verið fleiri, en þau eru öll nokkuð bráku̇ð. AM. Apogr. 3202.

bref vm vpsala ok aass[1]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda þolleifur magnusson. radzmann heilagrar holakirkiu.

---

[1]) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

einar benedictson. biorn þosteinson prestar holabiskupsdæmis. Magnus magnusson. jon þordarson ok sueinn gudmundsson leikmenn quediu gudz ok sina[1]). ath þa er lidit var fra hingatburd vors herra jhesu christi þusund fiógur hundrud sextiger ok vij. ar. a holum j hialltadal næsta dagh epter jons messu holabiskups vm vorit. vorum vier j hia saum ok heÿrdum á. ord ok handaband af einne alfu virduligs herra biskups olafs æ holum j hialltadal. Enn af annari alfu skula bonda loptzsonar ath suo firir skildu. ath adr nefndr biskup olaf selldi fÿr nefndum skula jordina æs er liggur j vazsdal. j vndenfellz kirkiu sokn med aullum þeim gaugnum ok gædum er greindri jordu hefer fylgt ath fornu ok nÿiu ok heilaug holakirkia vard fremst eigandi ath. Hier j mot gaf fyrnefndr skuli loptzson heilagri[2]) holakirkiu jordina vpsali er liggur j skagafirdi j silfrastada kirkiusokn med aullum þeim gaugnum ok gædum er greindri jordu hefer fylgt ath fornu ok nyiu ok hann vard fremst eigandi ath. skal huor vm sigh biskup olaf ok adr nefndr skuli suara lagariptingum á þeirri iordu er huor selldi audrum enn bader hallda til laga huor sinne iordu. ok til sanninda hier vm setium vier fyr nefnder prestar ok leikmenn vor jnsigli firir þetta jardakaupsbref. skrifat j sama (stad) degi ok ári sem fyrr segir.

---

## 428. 25. Apríl 1467. á Hólum.

Transskriptarbréf.

AM. Fasc. XVII, 11. Frumtransskriptið á skinni. Hafa verið fyrir því sex innsigli, en þau eru nú öll dottin frá, og bréfið sjálft er skemt.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heÿra senda þolleifur magnusson. magnus halldorson. biorn þosteinson. nichulas þormodsson. prestar. jon þordarson ok jon arnbiarnarson. leikmenn. quediu guds ok sina kunnigt gerandi. ath vier sáum ok heÿrdum yferlesit opit bref med godra ma[nna] hanganda jnciglum. suo látanda ord epter

---

[1]) Þannig. [2]) heilagrar, skbr.

ord sem hier segir [Hèr kemr kaupmálabréf Hallvarðs Ámundssonar og Valgerðar Keneksdóttur frá 31. Marts 1467, Nr. 420].

ok til sanninda hier vm settum vier fẏr nefnder prestar ok leikmenn vor jncigli fẏrer þetta transskriptarbref skrifat ꜳ holum j hialltadal jn festo marci ewangeliste anno domini ꝏ.° cd.° lx.° vij.°

---

## 429. 2. Maí 1467.

Oddr Ásmundsson, lögmaðr fyrir sunnan og austan á Íslandi, byggir Eyjólfi Andréssyni hálfa jörðina Mælifellsá í Skagafirði og lýsir landamerkjum hennar.

Add. British Museum 11, 080 (FM. 95.) 4to bl. 182, skr. c. 1770. MSteph. 27. 4to bls. 113—114, skr. c. 1730 (með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar).

[Biggingarbref
Odds Asmundssonar logmans fyrer halfre Mælefellsꜳ utgiefed Eyolfe Andressyne Anno M. cd. lx og vii[1]).

Eg Oddr Asmundsson lögmann firir sunnan og austan á Jslandi geri godum [mönnum[1]) kunnigt med þessu minu opnu brefi ad eg hefi bygt Eyiolfi Andressyni jordina halfa Mælifellsá j Skagafirdi til næstu fardaga og þad leingur sem eg geri ei adra skipan á til slikrar leigu sem vid hofum asatter orded ockar j mille. luka allar tiunder af jordunne og hafa þau leigulida skipte sem vid Eigill þa[2]) skiptum [hinum sydra hlut[3]) vallar og husa. enn ef nockur kærir a jordena med lögum selför edr beituteiga edr hrisrif þa skal eg sialfur eiga lagasuor þar fyrer. enn ei hann. a jorden Mælefellzá vti suartskard og riettsynis ofan vr lækiargilenu og ofan j vordu er stendur a markhole og ofan þadan j nautabuslæk. Rædur þa gardur sudur j mælefellzá (oc) sudur med mælifellzá sem vatn rennur til. alla jörd j þessu takmarke. nema Reykiareit. Vrdu uid Helge Gudnason[4]) asatter med handsolum ad selför skyllde vera

---

[1]) [MSt.; sl. 11080. [2]) sl. MSt. [3]) [sijdara hluta, MSt. [4]) Gudnason, MSt. Gudmundsson, 11080.

fra Hafgrimstodum j kidaskard [a sumrum[1]) enn sex hrossa beit a vetur j Hafgrimstada lande fra Mælifellsá. þessum mònnum hiaverande[2]). Arne[3]) Asmundsson[4]). Jon[5]) Gudmundsson[6]) og Teitur[7]) Andresson[8]). Steinþor[9]) Jonsson[10]). fyrerbyd eg hverium manne ad beita framar eda a ad ganga jordena enn lòg til standa. skal hann mega byggia jòrdena òdrum[11]) ad jafnfullu sem eg sialfur.

Och til sanninda skrifad a laugardaginn næstan epter petursmessu Anno ꝏ. cd. lx og vij. ar[12]).

---

430 15. Júní 1467. á Hólum.

Gottskálk Gottskálksson selr Ólafi biskupi Rögnvaldssyni jörðina Efstaland í Öxnadal, er Gottskálk biskup hafði gefið honum, og þar með tíu kúgildi, og kvittar hann Ólaf biskup fyrir andvirðinu, nema fimtán hundruðum, sem eptir stóðu.

AM. Fasc. XVII, 19. Frumritið á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, og fjögur þeirra eru það enn og örmul af því fimta (öðru í röðinni). AM. Apogr. 3201. Þó að bréf þetta sé norsknskotið, er þó ekki norskt handarlag á því.

vm efstalañd j auxnadal[13]).

Thet gørom wer swenbiorn þordarsson officialis heilegra holakirkio. þorleifuer magnuss son ʀadzman sama stadz. einar benediktsson. biorn þorsteinsson. prestar. kolle magnuss son ok ȷon þordarson leikmen godom monnum witerligt med þesso waro brefue at wıȷ warom j hia sagom ok hørdom aa ord ok handerband wyrdeligx herra Olafs med gudz nad biskups a holom j jslande aff enne halfuo Ɛn gotskalk

---

[1]) [sl. MSt. [2]) hiaverondnm MSt. [3]) Jone, MSt. [4]) — syne, MSt. [5]) Jone MSt. [6]) Gudnasyne MSt. [7]) Teite MSt. [8]) — syne MSt. [9]) — e MSt. [10]) — syne MSt. [11]) sl. MSt. [12]) hér bætir MSt. við sem undirskript:
Oddur Asmundsson
logmaun.

[13]) Aptan á bréfinu með hendi frá 15. öld. Þar stendr og með 17. aldar hendi: „Efstaland j Øxnadal giefeñ biskupe Olafe“.

gotskalcsson af adre halfno at swa fore skyldo at fornefnder gotskalker fek fornefndnm biskup olafue jordena efstaland j oxnardal j bacca kirkio sokn til fullrar eignar med ollum þeim gangnom ok gedom sem grendre jordo fylger ok fylkt hefuer at forno ok nyo ok han hafde fremst eigande maat at werda er han kallade biskup gotskalk hafua gifuit sig ok þer med .x. kwgille sem standa med jordena. kendist ader grender gotscalker for oss at han hafde wpborit fnlla ok alla pæninga af biskup olafne for ader grendre jord ok kwgille swa sem honom wel at nøgde j wadmalom ok adrom pæningom nema xv^c stodn epter olwkt. ok her efter handaband(ad)e trat nefnder gotscalker of(t)nefndum biskup olafne ollnngis quittan ok akeirolausan fyri ser ok sinom efterkomendum om adr grent jardar werd ok alla þa pæninga sem biskup olaff war honom skylduger eder hafde wordit j þeirre pæninga skiptom ok rekningskap þeirra j mellom for wttan þe xv^c sem for skrifnat star. Ok til sanninda her om hengiom wer war jnsigle for þetta breff er giort (var) a holom wppa sancte viti ok modesti dag anno domini ᴍ° cd° lx septimo.[1])

---

## 431. 26. Júní 1467. á Skarði.

Ttransskriptarbréf.

AM. Fasc. LXVI, 12. Frumtransskriptið á skinni. Af fimm innsiglum er nú eitt dottið frá.

Þath giornm wær Brandnr Jonson Langman. nordan og uestan ᾰ jslañde. Þordnr audnnarson. og finnur peturson. laugriettumenn. Þorarin arunson. Jon sueinsson og Brandr Þorulfsson. godnm monnnm witurligt med þessn woru opnn

---

[1]) Niðr í innsiglaþveingi þessa bréfs hefir verið rist norskuskotið bréf gert „a holom j jslande wppa sancti barnabe apostoli (= 11/6) anno domini ᴍ cd lx septimo“, þar sem Ólafr biskup Rögnvaldsson fær og afhendir Jeppe Jönissyni, að því er virðist, einhverja jörð („wy fengom ok affhendom for nef[n]d jeppe jönissyne(?)“). Ut úr bréfinu er ekki hægt að fá neitt samstætt.

brefi. At uær hofum sied ok heyrtt yferlesit opit bref konung kristierns med guds nꝍ̃d med heilun og oskoddu hanganda innsigli. suo latanda ord epter ord sem hier seiger.

[Hér kemr kvittunarbréf Kristjáns konungs fyrsta til Björns Þorleifssonar fyrir andvirði Guðmundarpeninga 28. Dec. 1466, Nr. 416].

Og til sanninda hier wm setta eg fyrrgreindr brandur jonsson logman mitt innsigli medr fyr greindra manna insiglum fyrer þetta trañskriftarbref. skrifat ꝍ̃ skarde æ skardzstrond fostudagin næstan epter. jonsmesso baptiste. þꝍ̃ er lidit war fra hingatburd wors hera jesv christi þusund. cccc. lx og siau ꝍ̃r.

---

**432. [1467].**

Sendibréf Björns ríka Þorleifssonar til Brands lögmanns Jónssonar um gripdeildir Lopts (Ormssonar), þjónnstulaun Brands hjá Birni og fleira.

AM. Fasc. LXIV, 13, frumrit á skinni með hendi Björns ríka Þorleifssonar. Apogr. 1508. Brandr Jónsson varð lögmaðr ekki síðar en 1452, en Björn dó 1467. Bréf þetta mun þó vera frá vorinu 1467. Sbr. bréf 26. Júní 1467, Nr. 433.

Welbornnm dandi manni Branndi bonnda langmanne er brefet sennth[1]).

[m]inn godann vin brannd bonda logman ydr heilsar eg biorn þorleifsson kærliga med gud og uor fru.

knnngiore eg ydur mer er sagt at lopt(ur) frænndi sie kominn vnder nup og víjli sitia þar sinn bnskap sem þat ma uel uera. Enn þo lizt þetta morgum skiot atferd og þier mnnid þo næst geta ef þier uilid sno sem þier nitid. Enn eigi þarf loptur at hafa snodan atburdi þui eigi ma uita huar onænnm gefur happ þar eg æ hlut at. Er mier hermt suo fra þeim at þeir segi sno. þeir uiti firir uist at þier munid ecke giora mier storann riett. stenndr þat til

---

[1]) Utanáskript bréfsins.

ydar. ennda kann vera þar standezt æ holda huger at þier þickezt ecki stor þionustulaun hafa feinget. Ennda þickiumzt eg ecki hafa feinget micinn rett af sumligum þar sem þier hafet att yfer at sia. og þui medkennumzt eg at eg hefi þar litin goduilia til haft at vnna ydr goduilia j moti aungum ydrum goduilia. Enn vita eg at þier vilit betra ydr til rettinda vid minn herra konginn og mic suo hans bodskapur og follkomligr giorningr sie eigi suo rofin og brotin at hans nad og suo ef uer megum uel fa riett æ þui sem ockr er misbodit. þa uil eg j aungan mata af fella ydur. yduari skulld edr þionustulaun. Enn fai eg hier aungann rett þa skal leita þangat sem gud vill. og eg bid ydur vpp æ gudz vegna og mins herra kongsins og suo epter minne bæñ at þier komet j motz vid mic og kennit mier god rad med annara dandi manna samþycki huersu eg skal bera mig at med þenna selskapinn eñgada[1]) sem haft hafa mina peninga. hastar mic ecki stort at gefa þar storyrdi æ huat sem mer þicki til stañda fyrr enn eg hefi ydur ord og annara dandi manna. Og þott loptur hafi nockurn kuækling firir mier þat er litils uert hia ollu odru. Enn huer hann er sem hann reyfar eda ræner heilaug klaustur eda firir saklausum monnum þat er olvcku uænligt. hofdu þeir firir klaustrinu þriu naut ur eyium og þar uar med eitt naut er jon jonsson ắ og hofdu þat med og ij saudi adra og suo toku þeir upp at buskapnum hans jons allt þat sem þeir gatu med komezt kuigt og dautt og enn bigirndu þeir at taka firir klaustrinu halfa þridiu lest skreidar og firir honum joni. xiij. hundrut eda betr og firir mier half lest og spyr eg ecki epter þui. þicke mier likligt at dandi menn muni eitthuert[1]) firir ser hafa þat þeir megi upp æ reida sig med suodan atburdum. vil eg hafa ydr god rad og annara danndi manna huad ydr þicker suarligazt huersu eg skal bera mic at her um.

Skulu þier og uita at eg hefi enn nockur bref þau sem eg þeinke at þier hafed eigi heyrt.[2]) wil eg giora ydr þau

---

[1]) þannig. [2]) Sbr. Nr. 323, 337, 377, 416.

heyrnm knnuig og odrnm dandi mouuum suo ydr komi þat eigi æ ouart hnert skial eg þickinmzt hafa firir þessum peningunum. wænti eg þier munid finna mic firir þingit sem eg hefi giort ydr bod til.

Eru þat mins herra kougsins bref sem eg uil ydr birta.

knomi þier og fyrr til skardz eun ydr þicke time til at rida til þingsius þa eru þier þar gndi uelkomner.

kann sueinninn segia ydur þat eg skrifa ecki.

ħier med bifal(a) eg ydr gudi j valld og haus modr mariu nu og allanu tid.

---

**433.** **26. Júní 1467.** **á Skarði.**

Bréf Þórðar Auðnnarsonar og tveggja annara manna, um lögmannskaup það, er Björn Þorleifsson hirðstjóri galt Brandi lögmanni Jónssyni.

AM. Fasc. XVII, 22, frumritið á skinni. Fjögur hangandi innsigli hafa verið fyrir bréfinu; er eptir stúfr af þveingnum frá hinu fyrsta, gatið eitt fyrir hinu öðru og þriðja, en hið fjórða er heilt og þó máð. Apogr. 808. Safn II, 178—79.

kaupbref fyrir Bæ. ut koperat[1])

Þat giorum vær þordr andunarson Jon sneinson ok þorariuu aronsou godum monnum vitrligt med þessu woru opnu brefi. æ skardi æ skardz strond fostn dagin næsta epter Jons Messo baptista þa lidit uar fra hiugat bnrd uors hera jesu christi þusnnd fiognr hundrut sextigir ok sio ar. worn uær j hia saum ok heyrdnm æ ord ok handaband welborinna manna af annari alfu biarnar bonda þorleifssonar hirdstiora um allt jsland. enn af annari brand[s] bouda jonssonar langmanz fyrir uordan ok uestan æ jslandi at svo fyrir skildu at greindr biorn þorleifsson med samþycki hustru olofar loptz dottr hustrn hans feck fur greindum brandi jonssyne langmanni jordina bæ j suganda firdi j stad-

---

[1]) Aptaná með nýrri hendi, og ártal 1467 með hendi Árna.

ar kirkiv soku med aullum þeim gognvm ok gædum sem adr greindri jordu fylgir ok fylgt hefer at fornu ok nyiu ok hann uard fremst eigandi at logum ok þar med sex kugilldi ok suo þott þar se fleire med til frials forrædis ok æuinlegrar eignar undan birni ok hans erfingium enn undir brand ok hans erfingia fyrir þa peninga sem opt nefndum birni bar at luka brandi jonssyni lavgmanni j sitt laugmanz kaup. skylldi opt nefndr biorn þorleifsson suara laga riptingu æ adur greindri jordv enn brandur hallda til laga. skylldi hann mega tak[a] at ser jord ok kugilldi at frialsu upp fra þeim degi er nu er komit ok allar gagnsemdir ok abata af hafa adr greindri jordu ok kugilldum æuenliga her eptir

Ok til saninnda her um at uær furnefndir menn Þordur Jon ok þorarinn saum æ þenna þeirra giorning furgreindra manna med fullu handabandi þa setium uær uor jnncigle med jnncigle þrattnefnz biarnar bonda þorleifssonar fyrir þetta jardar bref. skrifad j sama stad degi ok ari sem fyrr segir.

---

**434. 6. September 1467. á Þingeyrum.**

Dómr tólf manna útnefndr $^4/_9$ af Brandi Jónssyni, lögmanni norðan og vestan á Íslandi, um rán og gripdeildir Arnbjarnar Sæbjarnarsonar, er kærði Ólöf Loptsdóttir og Þorleifr Björnsson, og Eyjólfr Jónsson í umboði Jóns Jónssonar bróður síns.

AM. Fasc. XVII, 18. Transskript á skinni gert á Reynivöllum í Kjós 23. Aug. 1476. — Apogr. 5693b.

arnbiarnar bref. [Vm Hañs Rán. Hann dæmdur til dauda[1]).

Þat giorum uær bessi einarsson. gunnlaugur þorkelsson. eigill grimsson. philippus sigurdzson. þordur sigurdzson. gisle þorgilsson. þorarinn aronsson. finnur petursson. þordur aud-

---

[1]) Utan á bréfinu; frá [með hendi frá 17. öld.

unarson. jon narfuason. magnus jonsson. olaur[1]) þorvardzson. laugrettumenn. godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefe at þa er lidet uar fra hingatburd uors herra jhesv christi þusund fiogur hundrud sextiger ok siau ar. faustudagin[2]) næsta fyrer mariu Messu sidari vm sumarit á torfustaudum j midfirde a almenniligu þriggia hreppa þinge uorum uær j dom nefnder af ærligum manni brande jonssyne laugmanni nordan ok uestan a jslande at dæma um þær saker er olof lofdzdotter ok þorleifur biornson ok eyiolfur jonsson j laugl(i)gu umbodi jons jonssonar brodur sins. er þar uar suaret af tueimur skiallegum uitnum. kærdi þar til arnbiarnar sæbiarnarsonar er þar uar þa fangadur fyrer laug. at hann hefde griped ok rænt sinum peningum ok[3]) fullan styrk ok ok rad til gefet at þeim skylldi rænt vera. sierliga til greintt j mafahlid. sem suarit uar af tueimur skiluisum uottum. j fystu grein fiorar kyr. þriatige fiar ueturgamallt ok elldra. sextan ok. xx. laumb. þriu naut ueturgaumul. einn sexæring med reidsk(a)p ok þremur uodum med þeim fleirum ofridum peningum er þar uar um suarit. at fyr nefndr arnbiorn hefde burt reked ok lated flytia med sinum fleirum fylgiaurum sem hann kendizt þar ok sialfur at suo uæri um alla frida peninga. j annari grein kærdu þau fyr nefnder menn olof ok þorleifur til nefndz arnbirnar at hann hefde uerit uid klett ok rænt þar j burtt enn med sinum fylgiaurum storan tolfaring med aullum reidskap er tittnefndr þorleifur atte ok annat skip teinaring er biorn þorleifsson atte. ok hier med halfa þridiu lest skreidar er þeir attu fedgar biorn ok þorleifur huad er þar soruzt[4]) enn med skialligum uitnum at þesse fiartekt hefde suaren uerid adr fyrer ualldzmanne huad er [fyr greiudr arnbiorn med kendizt ath hann hefdi[5]) farit med þeim til ok fra er hann reiknade peningana haft hafa. þat uar ok þar suarit at allir þeir peningar sem burt uoru hafder ur mafahlid uoru

---

[1]) Þannig. [2]) dag dagin, skbr. [3]) j, skbr. [4]) Svo.

[5]) [Þetta er með annari og smágerðari hendi en hitt; þó er alt falslaust og samtíða. Annar hefir gripið í að skrifa, þegar skrifarinn hefir hlaupið frá.

eign biarnar þorleifssonar ok olofar loptzdottur. hier med kærde eẏiolfur jonsson j langligu umbode jons jonssonar brodur sins til optnefndz arnbiarnar at hann hefde med uerit j sellone þa er þar norn upp tekner peningar jons jonssonar epter þui sem þar uar suarit ok reiknad er greindr jon hafde att. frider ok ofrider. enn optnefndr arnbiorn sagdizt þar ecke uerit hafa ok sagdizt hafa smidat ut (æ)[1] skipe æ medan enn ledz[2]) þo nitad hafa at þeir forn burt ok suo er þeir kuomu aptur med peningana. birtizt þar ok suo. at fẏrst um uorit nc.o upp tekner peningarner j sellone. þa sidar i klett. enn sidazt j mafahlid. hier epter uændizt þrattnefndr arnbiorn mins herra kongsens brefe liggianda j norege. at hann þottizt fyrer honum sialfum sinnm malum suara eiga.

Þui j fẏstu grein leidzt oss þesse madur arnbiorn rett fanginn nerit hafa ok þat sama kongsins bref er hann j norige uændizt ecke afl hafa saker þess at þann uar einge hier innan landz er þat hefde heẏrt eda sied. j annarre grein þar er arnbiorn uisse fiar upptekt j sellone ok uar j styrk ok samhelld e uid þa er þat giordu lika epter sem fyrer þotte oss hann hylia[3]) ok samþẏckia þeirra fẏr skrifadañ giorning þui oss þotte honum þa borit hafa at taka sik burt ef hann uillde þar um saklaus vera. enn þar er hann for at sækia skipen ok skreidena j kl(e)tt þo ei giore aller jarnmikit at þotte oss hann þar fullum sektum eiga fyrer at suara. þa hier epter at hann for til mafahlidar med audrum sinnm fylgiurum rak þa sialfur frida peninga til skips. skar ok drap sem suarit uar þar æ þingenu. kom .oss þat ok saman at þeir peningar sem burt noro hafder ur klett ok mafahlid frider ok ofrider uære eigi minna uerder enn halfur fiorde taugur hundrada tinndaruirt godz ok þui dæmdum nær opt nefndan arnbiorn sæbiarnarson saker hẏllinga ferda ok rads ok styrks ok stiornar fullañ ok allañ ransmann epter þui fremdza sem logbok ut skyrer j rans kabetulum ok hier med liflat med

[1]) Vantar i skbr. [2]) þannig (ledz) = letz. [3]) Svo.

698. 22. Maí. 1475. undir Felli.
31. Maí. á Stað á Reykjanesi.

Úrskurðarbréf Jóns prests Jónssonar, prófasts og almennilegs dómara milli Geirhólms og Hrútafjarðarár, um tíundir og tollagjald frá Þrúðadal til Fellskirkju í Kollafirði.

Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 16, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2477, afskript gerð fyrir Árna Magnússon „Ex originalib. Scalholteñ. accuratè, etiam qvautum ad mendas“ (AM.). — AM. 382. Fol., transskript gert í Skálholti 2. Marts 1664 af Oddi Eyjólfssyni, Ólafi Jónssyni, Bjarna Eiríkssyni og Vigfúsi Magnússyni, og eptir því transskripti er afskript meðal Apogr. 2478, og saman við þá afskript hefir Árni borið trosnað transskript frá 20. Júní 1476, sem hann fékk frá Einari Einarssyni sýslumanni í Barðastrandarsýslu. Utan á Skálholtsfrumritinu stendr: „Urskurdarbref Sueins Biskups vm Þrudardal Til fellzkirkiu j Kollafirde. — Anno 1603. þann 10. Julij liet siera snæbiörn þetta bref epter hia herra Odde“. Sbr. bréf 5. Júlí 1475.

Um Þrudadal[1]).

Þat giore ek jon prestur jonsson profastur og almennelegur domare j millvm geirholms og hrutafiardarár godum monnum kunnigt med þessv minu opnu brefe at sub anno gracie. ꝏ.° cd.° lxx.° quinto. vnder felle j kollafirde. manvdaginn næsta fyrir festum corporis[2]) christi kom fyrir mic andres bonde gudmundzson. er þá atte jordina vnder greindv felle. og kærde þat fyrir mier at hann hefde hvorke feingit kirkiutiund ne prestz tiund upp æ tuo ær samfleytt af .xuj. hundrada jordv er þrudadalur heiter. er þangad atte at lykiazt til fyr greindrar kirkiv under felle. Medkennumzt ek og greindur sira jon at ek sá og yferlas maldaga optnefndrar kirkiu vnder felle hver er suo uar latande at gialldaz skyllde til þratt nefndrar kirkiu veturgamall saudur og lambselde á hueriu áre. Nu af þui at fyrskrifader tollar ok[3]) tiunder haufdu eigi lukter ueret upp æ greindann tima huoriga xij manuduna. af adur nefndri jordu þrudadal. enn greindrar sancte olaf(s) kirkiv maldage þat utuisar at þrattnefnder tollar og tiunder eiga at lykiaz æ hveriu

[1]) Með hendi Árna utan á Apogr. 2478. [2]) Apogr. 2478; corforis, frumritið. [3]) Svo hér.

are ꝩf greindri iordu þrudadal til títtnefndrar kirkiu nnder felle. Ok saker þess greindur andres beidde mic ok krafde at giora sier ʀett ok sinne kirkiv um greint mal. af þeim sem þrattskrifada jord þrudadal ætte eda þeim sem fyrir hana ætte at suara at logum. beidde ek hans þar þǻ ok krafde. enn einginn kvnne mier þat at segia huerr hennar logligur eigande uere. eda hverr fyrir hana ætte at snara at logum. Þui at heilax anda nad til kalladri at sno profudu ok fyrir mic komnu sege ek jon prestur jonsson. profastur ok almennelegur domare j fyrsogdu tacmarke med fullv doms atkuæde ok lagavrskurde. fulla sekt ok alla æ uera fallna æ greindvm tollnm ok tinndum epter þui sem heilagrar kirkiu log þar vm gior fremzt utvisa. þriar merkur æ huorre tinnd hit fyrra aret. enn sek(s) merkur æ huorre adurskrifadri tivnd ed seinna ared. Suo ok eigi sidur dæmda ek adurgreindnr sira ion med sama dome. þriggia marka sekt æ optgreindum kirkiutollvm edur ɳskylldvm æ env fyrra arenu. enn aꝁara þriggia marka sekt æ enu seinna. enn tuigillda alla tolla ok tiunder npp æ huora tolf manvdn. Jtem med sama dome. dæmda ek þratt skrifadvr sira jon sno micit fallit uera upp j optnefnda iord þrvdadal sem þesser peningar reiknazt at framtoldu til hallz. halft kirkiubondanum. enn halft profastenvm. suo framt sem logligur eigande leysir eigi tittnefnda jord aftur jꝁan xij manada med fullum peningum ok ollvm sem ek hefe hier æ dæmt. ꝁema minum herra herra sueine med gnds nad biskupe j skalhollte litiz anad loglegra uera hier vm med beztu manna ʀade.

Var þesse minn domur af mier uppsagdnr ok inscriptes fram borenn. mier j domsæte sitianda. morgnm godum monnum lærdum sem leikum nærverndum. Og[1]) þennan minn dom med mier samþyckundum. Ok[1]) til sannenda hier um setta ek mitt jnsigli fyrir þetta domsbref skrifad a stad ǻ ʀeykianese. æ sama ari. ıx nǒttum sidar enn fyr seger.

[1]) Svo.

699. 29. Maí 1475. á Guðrúnarstöðum.

Gísli Þorgilsson og Steindór Sölvason leggja niðr fyrir kvitt öll þau skipti og peninga reikning, er þeirra hafði milli farið, á þann hátt, að Gísli fékk Oddfriði dóttur sinni fimm hundraða part í Hofi (í Vatnsdal), en Steindór skyldi gera Gisla tveggja hundraða sæmd innan tólf mánaða.

AM. Apogr. 4181 „Ex originali Haldoru Erlendzdottur i Bolstadahlid“ (AM.). Innsigli Ljóts var fyrir bréfinu. Hin bæði voru dottin frá.

Þath giornm vær þordr jonsson. liotur þorleifsson ok ormur einarsson godvm monnum vitvrligt med þessv vorv opnu brefe at vær vorum j hia sőm ok heyrdvm ő. ő hofe j vazsdől ord ok handaband þessara manna gisla þorgilssonar ok steindors sölvasonar at so firir skildv at þeir lögdu nidr firir kvitt avll þan skipte ok peninga reikning er þeirra hafdi j millvm farit fram til þess er þa var komit j svo máta ath adr greindr gisle þorgilsson fieck oddfride dottur sinne fimm hvndrada partt j hofe til æfinligrar eignar enn fyrnefndr steindor skyllde giora opt nefndum gisla sæmd ok skyllde fram koma jnnan .xij. manada. atte sæmdenn ath vera .ij. hvndrut ok hier epter vilium vær sveria ef þvrfa þikir.

Ok til saninda hier vm settvm vær fyr nefndir menn nor jncigle firir þetta bref er giortt var ő gudrvnarstodvm j vazdől mőnndagin næsta epter dyradag þa er lidit uar fra hingatbvrd vorss herra jehsu christe þusund fiogvr hundrut siotigir ok fimm őr.

---

700. 5. Júní 1475. á Espihóli.

Magnús Benediktsson selr Sigurði príor Jónssyni og klaustrinn á Möðruvöllum jörðina Skuggabjörg í Fnjóskadal með tilgreindum skógarmörkum og landamerkjum, en ábóti galt Magnúsi Sírelsstaði í Kræklingahlíð, og gaf Magnús fimm hundruð í milli.

AM. Fasc. XXI, 27, frumrit á skinni. Öll (9) innsiglin eru dottin frá, nema eitt. — AM. Apogr. 2983.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda stigur ingimundarson. brian olafsson. prestar. biarne olason. jon sigurdar(son). helge sigurdarson. are sigurdar(son). jon steinsson ok hallur erlendzson Q. Guds ok sina kuuigt gerandi ath þa lidid var fra hingatburd uors herra jhesu christi þvshund fiogur hundrud siautiger ok fim ar miduikudaginn næsta fyrir barnabe apostoli æ hespiholi j eyiafirde voru vier j hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna brodur sigurdar priors a maudruvollum ok magnus benedictssonar ath sua fyrir skildu ath magnus benedictsson seldi priornum ok klaustrinu a maudruvollum jordina skuggabiorg j fnioskadal er ligur j laufas kirkiu sokn med þessum vmmerkium. rædr gasagil fyrir vtan en melshornit fyrir sunnan er næst er skogi þeim er eignadr er þveræ. Sagdi magnus benedictsson ath hann hefdi heyrt sagt ath grytubacka kirkia ætti skog a skuggabiarga jord er kalladr væri þorlaks skogur. Suo ok skogrunna nockura fyrir nedan gautur vt fra skuggabiorgnm er hann hefdi heyrt eignada eyulfi arnfinzssyni en eigi uisse hann hier nauckur sanendi til. Skildi ok fyrnefndr magnus þat til ef nauckur skogar jtauck yrde eda profadizst med laugum j gre(i)nda jord þa skyllde hann þar aungu fyrir suara en hann sagdizts hier eingin til vita. ɧier j mot gaf adr nefndr priur sigurd med samþycki conventubrædra æ maudruvollum jordina Sirelstadi[1]) j kræklingahlid. er ligur j glæsibæiar kirkiu sokn med aullum gognum ok giædum sem greindre jordu hefer fylkt ath forno ok nyiu. gaf tittnefndr magnus j millum greindra jarda fim malnytukugillde ok fim hundrud j þarfligum peningum ok gialldazt ath næstvm fardavgum. Skilde huar þessara manna hallda þeirri jordu til laga sem keypte en huor suara lagariptingum sem selldi. Ok til sanenda hier vm setti eg magnus benedictsson mitt

---

[1]) Það mun vera sama jörð og í síðari jarðabókum heitir Sílastaðir.

jncigle med fyr nefndra manna jnciglum fyrir þetta jardakaups bref er skrifat var j sama stad degi ok ari sem fyr seger.

---

701. 8. Júní 1475. á Reynistað.

Jón Einarsson selr Þorsteini presti Jónssyni jörðina í Sólheimum í Glaumbæjarkirkju sókn með kirkjuskyld fyrir þrjátigi hundraða í fríðum peningum.

AM. Apogr. 351, eptir frumriti, sem sent var Jóni Magnússyni til Íslands 1731, eptir beiðni hans.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyrra señda magnus einarsson añdres jonson arñoddr einarsson prestar Oddi kolbeinsson sknli gunnlauxsson þorgils einarson ok biorñ sygurzss son kuedin gnds ok sina kunnigtt giorandi þa er lidit nar fra hingatburd uorss herra ihesu christi þusshundrod ara fiogor hundrot siotiger ok fimm ar a faustndagin nęsta fyrir huitt drottinss dag[1]) j solheimum j sæmundarhlid j skagafirdi vorum uęr þar j hia saum ok heyrdum æ ord ok hañdabañd þeira þorsteins prestzs joñssonar af einne alfno enn joñs einarssonar af annari. ath suo fyrir skildu kaupi ath adr nefndur jon einarsson seldi þorsteiñi prest jonsyni jordina halfua j solheimum j sęmundarhlid er liggur j glaumbęjar þingum med ollum þeim gognum ok gędum sem greindri jordu halfri hefer fyllgt ath fornu ok nyo ok adr nefndr jon uard fremzst eigandi ath ok hann tok j erfd epter einar magnusson faudur sinn. sagdi tittnefndur jon til kirkin skylldar ath syngia etti þar hnern dag helgan ok takazst heima liosstol(l)ar ok tinnder. hier j mott gaf þorsteinn prestnr joñson þratt nęfndum joni þriatigi hundratta j fridum peningum ok friduirdum. skylldi þorsteinn prestur hallda halfri jordunni til laga en jon suara lagaʀipttingum a fyr greindum jardar parti. vorv þetta jardarkaup samþyckiandi skilgetner brędur joñs einarssonar.

---

[1]) Þ. e. 12. Mai.

ok til sannenda hier nm settum nęr fyr nefnder men uor jnzsigli fyrir þetta jardarkaups bref er giortt uar a stad j Reýnissnesi fimtudagin næsta fyrir festum sancti barnabbi apostuli a sama aRi sem fýr seger.

---

702. 8. Júní 1475. á Reynistað.

Jón Einarsson gefr Þorsteini presti Jónssyni í prófentu með sér þrjátigi hundraða, er Þorsteinn prestr skuldaði fyrir hálfa jörðina í Sólheimum.

AM. Fasc. XXI, 22, frumrit á skinni. Öll (5) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 2166.

solheimabref[1]).

Þath gorum uer aṅdress prestur jonsoṅ. oddi kolbeiṅson. skuli gunnlauxsoṅ. gissli einarsson ok bioṙṅ sygurzsson leikmenn godum monnum viturligt med þessu uoru brefui a faustudaginn nęsta fýrir huittdrottinsdag[2]) j solheimum j sæmundarhlid j skagafirdi vorum ner j hia saum ok heyrdum a ord ok handabaṅd þorsteins prestzst joṅssonar af einne alfvo en joṅs einarssonar af annarri. faldizst ok skildizst þath vnder þeira haṅdabandi ath adr nefndr jon einarsson gaf j prouenṫu med sier fýr nefndum þorsteine prest jonssyni þriatigi hundratta j fridvm peningum ok friduirdum þeim somum sem þorstein prestur var skylldvgr adr greindum joni fyrir halfva jordina j solheimum. hier j moti skilde titt nefndr jon af optt nefndum þorsteiṅe presti kost ok ęfeṅligt fraṁfęri sem dandimanni bęrri ath hafua suo leingi sem hann lifdi ok hier med sęmiliga þionvstzo ok þar til xij alner vadmals a hverivm xij manodum. skylldv aller peningarner vera þorsteins prestz þegar jon vęri kominn a provęntvna skýldi[3]) jon ath eingibiorg kona sin hefdi hvss ok miolka kv j krinkvm vm arit medan jon uęri til ok hann

---

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. Árni ritar á bréfið: „Um Solheima". [2]) Þ. e. 12. Maí. [3]) = skildi.

lifdi ok hvn skýlldi þath reiknast vpp a þa peninga sem jon gaf sier til framfęris huer kostnadr þorsteine presti ýrdi þar af. kynne þath at skę ath þorsteinn prestur dęíj fýr enn jon þa skýlldi joñ fyllgia þeim peningum sem hann ętti epter. Ok til sannennda hier um settum vęr fýr nefnder menn uor jnzsigli fýrir þetta prouentubref er giortt var a stad j reýnissnessi þrim nottum fyrir fesstum barnabbi apostoli anno domini ꝺ.° cd.° septuagessimo quinto.

---

703. 12. Júní 1475. á Reyðarvatni.

Þorsteinn Árnason selr Guðmundi Jónssyni og Ingigerði dóttur hans jörðina Gunnarsholt á Rangárvöllum, með þeim atvikum sem bréfið skýrir frá, að tilgreindum máldaga og ítökum kirkjunnar, og tekr meðal annars í mót jörðina Lágafell í Eystri-Landeyjum.

AM. Apogr. Nr. 2158, með hendi Þórðar Þórðarsonar, og er afskriptin staðfest í Skálholti þann 10. Julii 1711 af Þorleifi Arasyni, Gísla Bjarnasyni, Þorgilsi Sigurðssyni og Þórði Þórðarsyni, en hún er gerð eptir transskripti Guðbrands Björnssonar, Torfa Guðmundssonar, Eiríks Bjarnasonar, Eyjólfs Björnssonar, Ólafs Sveinssonar, Odds Jónssonar og Þorvalds Jónssonar gerðu á almennilegu manntalsþingi á Reyðarvatni á Rangárvöllum 10. Maí 1680, en Reyðarvatnstransskriptið var aptr gert eptir vidimus Sveins Árnasonar og Þórðar Bjarnasonar gerðu á Nesi í Selvogi þann 7. Aprilis 1640, og var það vidimus gort eptir frumritinu, sem þá var með fimm hangandi innsiglum.

Ollum mǫnnum sem þetta bref sią́ edur heýra senda Finnur Magnusson. Marteinn Einarsson. prestar. Eyolfur Einarsson. Hallur Jonsson. Haflide Jonsson. Helge Oddsson og Helge Teitsson leikmenn kvediu Gudz og sina kunnugt giǫrande þa lidid var frą́ hingadburd vors herra Jesu Christi. þusund .iiijc. siǫtiger og fimm betur[1]) j Gunnarshollte ą́ Rangą́rvǫllum mą́nudaginn j siǫundu viku sumars[2]). vorum vier i hią́ saum og heýrdum ą́ ord ok handaband

---

[1]) = vetur? [2]) = 29. Maí.

þessara manna. þorsteins arnasonar af annare álfu. enn Gudmundar Jonssonar og Jngegerdar dottur hans af annare. Skildist þad under þessu handabande. ad nefndur þorsteinn sellde greindum Gudmunde til eignar Jngegerdi dottur hans jördina Gunnarshollt med öllum þeim gögnum og giædum sem greindri jördn hefur fýlgt ad fornu og nyu og greindur þorsteinn vard fremst eigandi ad i erfd epter Lopt heitinn Loptsson sonarson sinn. med svo vordnum skilmála. ad greind Jngegerdur skyllde eignast .40c. i iördunne Gunnarshollte. greindust þar i. xxc. ad Loptur heitinn þorsteinsson bonde Jngegerdar hafde gefid henni j fiordungsgiöf. Enn fyrer onnur .xxc. i jordunne skyllde þorsteinn taka under sier alla þá peninga til eignar sem hann var henne skýlldugur epter son sinn látenn. og þá voru ogolldner. Enn fyrer önnur .40c. j jördunne Gunnarshollte gaf Gudmundur Jonsson og Jngegerdur dotter hans jordina alla Lagafell j Eystre landeyinm. sem liggur j Krosskirkiu sokn. med öllum þeim gögnum og giædum sem greindre jördu hefur fýlgt at fornn og nýn. og þau urdu fremst eigande ad. Og hier til skyllde þorsteinn arnason taka under sier [i] greint jardarverd allt þad lansagotz sem kirkiañ j gunnarshollte ætte. voru þad greind atian[1]) kngillde bnlæg. tolf kyr og sex ásandar kugillde. fiögra vetra gamallt naut. iij hestar. og .iijc. er golldin voru kirkiunne medann þorsteinn hiellt. og þad meira sem ʀeikningurinn til greiner. Skilde optnefndur þorsteinn arnason allan kirkiu ʀeikning af sier smáan og storan sem hönum bar ad luka fyrer sig og Snorra heitin Jonsson mág sinn. Enn optnefnder menn Jngegerdur og Gudmundur Jonsson underbnndust ad svara kirkiunne j Gunnarshollte þeim öllum ʀeikningskap sem tittnefndur þorsteinn skilde af sier. hier til skyllde Gudmundur Jonsson og Jngegerdur dotter hans giallda optnefndum þorsteine arnasyne .xc. vj bufiar kugillde. fimm med jördunne Lágafelle. enn eitt ad ödru vore. og þar til .iiijc. j þarflegum peningum. niu stikur klædis j hundrad. ef klædi

---

[1]) stendr: átta, en Árni segir: les atian.

er golldid. fiörutiu ásmunda annars hundradz ef jarn er golldid.

Sagdi greindur þorsteinn ad j Gunnarshollte ætte ad vera prestur og diakne. og kirkiañ ætte þar fiordung j heimalande. kotbreckur og Grákollsstade. og kirkian og jordin i Gunnarshollte ætte itök i annara manna jarder. áttrædar torfgrafer til moskurdar j Helluvadz jörd árlega. fiskveide j Hroadslæk tvo daga j hvorre viku fyrer hvors manns jörd. ofan ur vatne og ut i á. þá sem sá kys er j Gunnarshollte byr. og stinga torf til vatz upptöku j meire breckna jord a vetur sem þarfnast. Tveir skogar i Næfurholltz jördu. fiara med ummerkium fyrer Stackhollte og backa. eru þau örnefni hin eystri. Ellding i milli biarnareyiar og Ellidaeyiar uppe. Enn hin vestri ad Sudurey á ad brydda framm undan klett. Hellunam j Eystre kirkiubæiar jörd sem þarfnast. fimm hrossa beit j ytre kirkiubæiar jörd á sumar enn .x. á vetur og gefa alin til geymslu á hvort hross. Gunnarshollt á og ey i Rangá fyrer ofan bölversfoss honum hina næstu. aullu gelldfe beit ur Gunnarshollte j Nordurkinn. og hallda upp Nautgarde med ödrum þeim er þangad eiga rekstur. og fá mann i safn á haustid. Skylldu hvorer hallda til laga þeirre jordu er keypte. enn svara lagariptingnm ef á kynne falla. hvor fyrer sig á þeirre er sellde.

Og til sanninda hier um setium vier fyrrnefnder menn vor innsigle fyrer þetta bref. er giört var á ysta Reidarvatne j Averiahrepp. næsta mánudag epter festum Barnabé apostula á sama áre og fyrr seiger.

---

**704. 21. Júní 1475. í Viðey.**

Transskript nokkurra Viðeyjarklaustrsbréfa.

AM. 238. 4to, bl. 35b, Bessastaðabók, skr. c. 1570. Til eru allmargar aðrar afskriptir bréfsins, en þær eru allar komnar frá Bessastaðabók, og þeim ber ekki annað á milli en misskriptir.

Þat giorvm vier gvnnar prestvr magnvsson. gvnnsteinn

asgrímsson. arne jonsson. prestar skalholltz biskvpsdæmis. Skvle loptzson. Sygvrdvr jonsson og Eigill jonsson leikmenn godvm monnvm kvnnigtt med þessv opnv brefi at vær savm ok yfer lasvm ok heyrdvm yfer lesid opiñ bref tveggia biskvpa virdvligs herra jons med gudz nad biskvps j skalhollti ok herra arna med samre nad biskvp(s) j skalhollti ok jons abota j þyckabæ. med þeirra heilvm ok oskoddvm hangandi insigllvm. og þar med insiglle presta ok leikmanna svo latanda ord epter ord sem hier seiger. [Hér koma:

1, bréf Jóns Skálholtsbiskups 26. Júlí 1413, Dipl. Isl. III, Nr. 626;
2, bréf Árna biskups frá 6. Marts 1417, Dipl. Isl. IV, Nr. 311;
3, bréf Jóns ábóta frá 25. Júlí 1405, Dipl. Isl. III, Nr. 581;
4, bréf Gríms lögmanns frá 1346, Dipl. Isl. II, Nr. 514].

Og til sannenda hier vm settum vier fýrskrifader menn vor insiglle firir þetta transkriptabref er giort var j videý midvikudæginn næsta fýrer jonsmesso baptiste Año domini ꝏ⁰ cd⁰ lxxv ar.

---

## 705. 25. Júní 1475. í Ási.

Ingveldr Magnúsdóttir samþykkir sölu Ásgríms Hallssonar bónda síns, er hann hafði selt Finnboga Jónssyni hálfan Héðinshöfða.

AM. Apogr. 86 „Ex origin. fra Sr Skula Þorlakssyne".

Um halfañ Hedinshǒfda.

Þath giorum wier jon prestur skeggiason. magnus hallason oc helge gudmundzson godum monnum uiturligt med þessu uoru opnu brefe ath þa lidid uar fra hingadburd uors herra jhesu christi þushundrud fiogur hundrud siau tiger oc fimm vetur sunnudagin nęsta eptér jonsmessu baptistę i æsii j auxarfirde i kellduhuerfue woru wier i hia saum oc heýrdum æ ath jnguelldur magnusdotter eiginkonæ asgrims hallzsonar samþýckte med handæbande uid finnboga jonsson oc asgrim bonda sinn þath sama kaup oc jardar saulu fast oc staudaugt reitt oc laugligt oc obrigduligt uera

oc uera skylldn fýrir sier oc siunm erfinginm oc efterkomendum sem fýr nefndnr asgrimur hallzson bonde hennar hafde sellt adur nefndum finnboga jonssýne jordena halfan heidinshaufda[1]) er liggnr æ tiornesi j husauiknr kirkin sokn med aullum þeim skilmala oc greinnm er þath kaupbref utuisar sem þetta wort bref er med fest[2]). Oc til saunenda hier um settn vier fýr nefnder menn wor jncigli fyrir þetta bref skrifuad j sama stad æ deghe oc ari sem fýr seger.

---

706. 25. Júní 1475. á Skarði á Landi.

Bréf um landamerki Merkr og Merkihvols á Landi í Landmannahrepp. (*Viðsjárvert bréf*).

AM. 969. 4to, bl. 209, á pappír frá hér um bil 1850. — Landsbókasafn 112. 4to, bls. 334—335, með hendi Steingríms biskups eptir gömlu blaði austan af Landi 1843. — Þetta er tortryggilegt bréf, bæði um mart orðalag, og ekki siðr hitt, að það er dagsett að mánaðardagatali, en ekki messu, og ekki bætir vottorðið frá 1682 heldr mikið úr skák. Verðr því vandséð, hvað mikið sé hafandi af þessu bréfi.

Anno 1475 á Skarði í Landmannahrepp.

Það gerum vér kunnugt með þessum vorum vitnisburði: Oddur Ásmundsson, Björn Jónsson, Þorsteinn Þórðarson, Sigurður Eiríksson, Hafliði Sigurðsson, tilskikkaðir[3]) af sýslumanninum í Rangárþingi Erlindi Erlindssyni, sem hefur umboð yfir kongsjörðum Mörk og Merkihvoli liggjandi í Landmannahrepp, augljósa að gjöra vora sannleiksmeðkjenning og staðfestan vitnisburð með eiði um landamerki áðurgreindra jarða, hvað Merkurlandeign áhrærir, er vort sannferðugt vitni: fyrst[4]) í Gloppubotn, ræður svo lækur sá, er rennur i fult suðnr, og svo út yfir í Fögrubrekku, svo í þúfuna fyrir sunnan lækinn, þaðan og í Markagróf, svo í Markhól. Ræður svo garður sá, er stefnir í Markhól ytri, sem[5]) líka er kallaður Klofahóll. Svo í Skógtorfu. Ræður

[1]) Svo. [2]) „Þad kaupbref er nu slited fra þessu" (AM.). [3]) Svona stendr það í báðum afskriptunum, og er *það* varla frá 15. öld. [4]) 1, 969: 1. fyrst, 112. [5]) er 112.

svo Merkurlækur alt að Dyralæk[1]), er Prestskelda er kölluð. Sjónhending þaðan og i Markmel. Þaðan og í Markhryggi. Þaðan í Markhellu. Svo í gróf þá, sem liggur með Almenningsgötum[2]), alt fram í fyrrgreindan Gloppubotn.

Hafa og nokkrir af oss séð og lesið máldaga jarðarinnar Merkur, sem þá var kölluð .lx^c. jörð, og stóð þar sem nú er kölluð Fornamörk, og fylgir henni alt hið sama land innan áður greindra takmarka.

Þennan vorn vitnisburð staðfestum vér með eiði á Skarði í Landmannahrepp þann 25^ta Júní 1475.

Þetta áðurskrifað máldagagildi var útdregið úr gamli máldagabók á Hliði á Álptanesi[3]) þann 31^ta[4]) Mai 1682. Vitna rétt sé samhljóða sinum original

Sigurður Sigurðsson — Jón Jónsson

[Rett skrifad eptir gömlu bladi mer meddeildu i brefe af 17 Oct. 1843 fra bónda Joni Fimbogasyni i Mörk.

Steingrímur Jónsson[5]).

---

## 707. 4. Júlí 1475. í Bjarnarhöfn. 22. Maí 1476. í Snóksdal.

Loptr Ormsson fær Sigurði Daðasyni til fullrar eignar þrjátigi hundraða í Hamrendum í Dölum, og kvittar Sigurð fyrir andvirði jarðarinnar.

AM. Apogr. 1436, án efa eptir frumriti (= *a*). Til samanburðar er höfð önnur afskript stafrétt eptir frumritinu meðal Hamrendabréfa (i minni eigu) með hendi Magnúsar Einarssonar á Jörva c. 1730—40 (= *b*).

Þad geiorum[6]) uær þordur klemensson. bryniolfur sigurdsson. jon jonsson. jon magnosson[7]) ok gvdmvndur jonsson godum monnum uiturligt med þessv vorv brefe. at þá er lidit var fra hingatburd vors herra ihesu christi m cccc lxx ok fimm ár. þridivdaginn næsta efter visitacio sancte marie virginis j biarnarhavfn j helgafellzsueit. voro uær þar j hia sáum ok heyrdum á ord ok handaband þessarra manna

---

[1]) 112; diralækur(!) 969. [2]) -götunni 112. [3]) Altarnesi (Seltiarnarnese) 112(!) [4]) 3, 112. [5]) [Þessi staðfesting Steingríms biskups er tekin eptir 112. [6]) giorum *b*. [7]) Svo *a* og *b*.

lopz ormssonar ok signrdar dadasonar at svo fyrir skildv. at greindur loptur fieck adur nefndum signrde til fvllrar ok allrar æfenlegrar eignar þriatige hvndrada[1]) j iaurdunne hamrendvm er liggur j breidafiardardavlvm j savdafellz kirkiv sokn med aullum þeim gangnum ok gædnum er greindum jardarparte fylger ok fylgt hefer at fornv ok nyiv ok hann vard fremzt eigande at. jtem skyllde loptur suara laga Riptingvm ǻ fyrnefndre jaurdu hamrendnm en sigurdur hallda til laga. suo ok eigi sidnr medkendizt þrattnefndur loptur j sama handabande at hann hefde fulla ok alla peninga vpp borit af[2]) títtnefndum signrde dadasyne fyrir optnefndan iardarpart sem honum vel ǻnægde. ok suo[3]) gaf optnefndur loptur greindan sigurd aullunges kuittan ok akærvlavsan fyrir sier ok avllnm sinum riettvm epterkomendum um̃ fyrgreint jardarverd ok jaurd.

Ok til meire sanninda hier um settvm vær fyrnefnder menn uor jnsigle fyrir þetta bref skrifat j snoxdal j middavlvm midvikudagen næsta fyrir uppstigningardag ǻre sidar en fyr seiger.

---

708. 5. Júlí 1475. í Skálholti.

Sveinn biskup í Skálholti samþykkir og staðfestir úrskurð Jóns prófasts Jónssonar um tíunda og tollagjald úr Þrúðardal til Fells i Kollafirði frá 22. Mai 1475 (Nr. 698).

Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 16, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2476 „accurate" eptir frumritinu. — AM. 382. Fol. transskr. frá 2. Marts 1664, og afskript þar af meðal Apogr. 2478, sem borin er saman við trosnað transskript frá 20. Júní 1476, og er afskript af því meðal Apogr. 2362.

Vær svein med gvds nad biskup j skalhollte ok visitator ýfer allt skalhollz bisknpsdæme giorvm godvm monnum kvnnigt med þessv voro opnv brefe ath vær[4]) havfvm sied ok yferlesid ok giolla skodat þann dom ok vrskurd sem

---

[1]) hundrud, b. [2]) at, b. [3]) þui, b. [4]) Apogr. 2476 og frbr. bætir hér við v' (= ver), sem er ofaukið.

sira jon jonsson vor profastur mille geirholms ok hrvtafiardaræar hefer dæmt vm þa kirkivtivnd ok presttivnd sem lvkazt hefde att af jordvnne þrvdardal er liggr j fellz kirkivsokn j kollafirde. lizt os sem sa sami domur se skialigur ok uel hallande. þvi samþýckivm ver hann med avllvm sinvm greinvm ok articulis logligan. Ok til sanninda hier vm settvm vær uort innsigle fyrir þetta samþyctarbref vnder eins med adrgreindv domsbrefe skrifath j skalhollte midvikvdagin næsta epter translacionem beate martini episcopi confessoris. anno domini. ꝏ.º cd.º lxx.º quinto.

---

**709. 30. Júlí 1475. á Reyðarvatni.**

Finnr prestr Magnússon selr Þorsteini Árnasyni jörðina Hvalnes i Lóni fyrir jörðina Árbæ á Rangárvöllum. (*Athugavert bréf?*).

Bréf þetta er tekið hér eptir tveim afskriptum, báðum nýlegum: *a*, afskript staðfestri af tveim sýslumönnum i Skaptárþingi, Kristjáni Kristjánssyni og Jóni Guðmundssyni. Aptan við þessa afskript stendr: „Rétt afskrifað eftir gömlu skjali vitnar Christiansson.

Þessi Copia samhljóða eptirriti því sem þinglyst var á Stafafellsmanntalsþingi 1ta Mai 1850 vottar Jon Guðmundsson".

*b*, afskript með hendi Guðmundar Guðmundssonar á Miðskerjum gerð um 1860 og send hinu íslenzka Bókmentafélagi. Fyrirsögn i báðum afskriptunum er „Copia af því gamla Hvalnesbréfi dat. 1475". Bréf þetta var borið i lögréttu 2. Júlí 1592 og dæmt af Þórði lögmanni Guðmundssyni „i allan máta skjallegt, þó innsiglið væri þar frá". Sbr. lögfestu frá 2. Nóv. 1733 og 28. Mai 1772.

Þad giorum ver Guttormur Ögmundarson[1]). Steirn Þorgrijmsson og Jon Biörnsson godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefi. þa lidid var fra vors herra Jesu Christi hijngadburdi þusund fiögur hundrud siötygi og fimm vetur. á Breidabolstad i Fliotshlijd drottins daginn i fimtu viku sumars[2]) vorum ver i hia heyrdum og saum a ord og

---

[1]) Øgmundsson, *a*. [2]) Þ. e. 14. Mai, sem 1475 er hvitasunnudagr, og er hér því grunsamlega til orða tekið. Eptir séra Bjarna Sveinssyni

handaband sira Finns Magnussonar og Þorsteins Arnasonar ad svo fyrir skildu. ad sira Finnur seldi fyrgreindum Þorsteini Arnasyni jördina Hvalnes. er liggur i Loni i Stafafellsþinghá[1]) med [öllnm gögnnm og giædum[2]). sem greindri jördu Hvalnesi fylgir og fylgt hefur ad fornu og nyu og hann vard fremst eigandi ad af Oddi diakna Jonssyni med reknm sndur ad Höfda og nordnr i Hlaupgeira nndir Skordum og allt landid a fiörnnni og inn ad jardbruarlæk þeim sem fyrir jnnan Myrarstein er. enn anstnr ad Hlaupgeira. Jtem med skogum. veidum og eingium. Sagdi hann þessari jördu fylgia ætti tveir skogar á[3]) Hlijdardal. þeir Holmar heita á Hlijdardal. á tvö hross árlega vidar[4]) undir Þijngmannabrekku i vijknr jördn og lietorfna[5]) skurd á x. hesta. eingiteig i Svijnhola jördn med nmmerkium. fimm hrossa beit i Krossa landi og taki ei nndann[6]) folöld.

Her i mót seldi Þorsteinn Arnason sira Finni jördina alla Árbæ fyrir .xx. hundrud. er liggnr i Árveriahrepp á Rangárvöllum i Keldna kirkiu sokn. med öllnm þeim gögnum og giædum. sem greindri jörd Arbæ hefnr fylgt ad fornu og nyu. sem hann vard fremst eigandi ad. og þar til fiögur hundrud. tvö kugildi búlæg med leign ad ödru vori. og tvö hundrud ofrijd. hvort sem þan verda leyst ad hausti eda ödru vori. Her til skyldi sira Finnur taka undir ser tvö hundrud af þvi jardar verdi. er hann atti ad lnka Oddi diakna. skyldi hvor svara lagariptingnm á jörd er seldi. enn kaupandi halda til laga. [Og] til sanninda her um setium ver fyrnefndir menn vor nöfn undir þetta jardar kaupsbref skrifad a eystra Reydarvatni i Árveriahrepp næsta daginn eptir olafsmessn sama ar sem fyrr seigir.

Guttormur Ögmnndarson. Steirn Þorgrijmsson.
Jon Biörnsson[7]).

---

i Stafafelli (d. 1889) sagði mér og Jón prófastr Jónsson á alþingi 1893 og aptr 1. Okt. 1898, að bréf þetta mundi vera „interpólerað“ og ekki alstaðar falslaust; einkum hafði séra Bjarni talið ítakið í Svínhólaland til þess, er falsað væri.

[1]) þingi, *a*; [2]) [gögnum og gjædum öllum, *a*; [3]) í, *a*; [4]) viður, *a*; [5]) létorfa, *a*; [6]) sl. *a*; [7]) Undirskriptirnar vantar í *a*; það er og mjög

710. 15. September 1475. Í Hafrafellstungu.

Óli Oddsson selr Jóni Ólasyni fjögur ágildi hins þrettánda hundraðs upp í jörðina Ærlæk í Öxarfirði fyrir jafnvirði í fríðvirðum peningum.

AM. Fasc. XXI, 35, frumritið á skinni, og er faldrinn saumaðr á bréfið. Fyrra innsiglið er fyrir því; hitt er týnt. — AM. Apogr. 3013.

vm ærlæk[1]).

Þat giorvm vid einar prestr halldorsson. jon finnbogason godum monnum vitanligt med þessv ockru brefi at þa er lidit var fra hingadburd vors herra jesv christi þushundrud fiögr hundrud siautiger ok fim ær a þridiadaginn næsta fyrir mariumesso hina sidari[2]) æ ærlæk j öxarfirdi voro vid j hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna ola odzsonar ok jons olasonar at suo fyrir skildu at fyr nefndr oli selldi adr nefndum joni til fullrar eignar fiogr agilldi hins þrettanda hundrads vpp j jordina ærlæk

---

bugavert, að hér í niðrlagi bréfsins er komizt svo að orði, að þeir sem útgefa bréfið, seti „nöfn“ sín undir það, því að það var ekki tízka orðin fyrr en laungu eptir að þetta bréf á að vera gert, svo að annaðhvort er bréfið falsbréf, eða þá að þeir, sem einhvern tíma hafa gert þá kopíu, sem legið hefir til grundvallar fyrir þeim afskriptum, sem hér eru notaðar, hafa breytt orðinu „innsigli“ í „nöfn“, og svo bætt sömu nöfnum undir bréfið, sem þeir sán að stóðu í upphafi þess. Í öðrum löndum finnast þess dæmi á 15. öld, að menn undirskrifuðu skjöl, en þó er það mjög fátítt á Norðrlöndum, nema um konunga eða sekretera. Þorsteinn Árnason í Gunnarsholti þekkist frá öðrum bréfum (Nr. 703); sömuleiðis séra Finnr (Nr. 703; sbr. Nr. 611). Afskriptin *b* setr að lyktum þessa klausu: „Þessa kopíu af Hvalness jarðarbréfi vitnar prófastur sera Högni Sigurðsson á Stafafelli af 13. Mai 1748 samkvæma og samhljóðandi því kalfskinns originalbréfi er á Hvalnesi hjá ábúendum legið hefur og þeir hafi honum léð. Að þetta sé rett samanlesið og útskrifað og samhljóða sinum originali vitnar undirskrifaðr

Sra Magnús Ólafsson.

Framanskrifuð lögfesta [frá 1733 og 1772] var upplesin þann 3. Mai 1808. Testerar

Borgur Benidiktsson
p. t. sýslumaðr“.

[1]) Utan á bréfinu með fornri hendi. [2]) Þ. e. 5. Sept.

er stendur j öxarfirdi med öllum þeim gögnum ok giædum sem greindum jardarpart til ber ok hann vard fremz eigandi at. hier j mot gaf jon titt nefndum ola fiögr agilldi hins þrettanda hvndrads j fridum peningvm ok fridvirdum. skylldi oli svara laga riptingum a greindri iordu en jon hallda til laga. Ok til sanenda hier vm settum vid ockr jnnsigli fyrir þetta bref skrifat j hafrafellztvngv j oxarfirdi föstudaginn næsta epter krossmessu vm haustid a sama ari sem fyr seiger.

---

711. 22. September 1475. á Hofi.
10. Apríl 1483. í Laxárnesi.

Guðmundr Magnússon selr Margrétu Vigfúsdóttur tíu hundruð í jörðunni Flekkudal í Kjós fyrir Straum í Hraunum, tíu hundruð að dýrleika.

AM. 238. 4to, bl. 7 b, skr. c. 1570. JSig. 143. 4to; AM. 65. 8vo; AM. Apogr. 1802.

Bref vm Stravm.

Þat giorum vid Halldor Hakonarson [oc] Felix Þorarensson godvm monnvm vitrligt med þessv ockrv opnv brefi at vid vorvm þar j hia savm oc heyrdvm æ æ Hofi æ Kialarnesi fostvdeiginn[1]) j imbrvvikv vm havstid þa er lidit var fra gvdz byrd ꝏ. cd. lxxv ar: ord oc handaband þessara manna Margretar Vigfvsdottvr oc Gvdmvndar Magnvssonar. skilldizt þat vndir þeirra handabande at fyrgreindr Gvdmvndr seldi advrnefndri Margretv x^c j jordinne Fleckvdal er liggr j Kios j Reynivalla kirkiv sokn med ollvm þeim gognvm oc giædvm er greindre jordv fyllger oc fyllgtt hefir at fornv oc nyiv oc hvn vard fremst eigandi at.

Hier j moti gaf fyrnefnd Margret opt nefndvm Gvdmvndi jordina Stravm er liggr j Hravnvm j Alltaneshrepp j Bessastada kirkiv sokn fyrir .x^c. oc þar til eitt malnytv kvgilldi med avllvm þeim gognvm ok giædvm er þessari jordv fyllger ok fylgtt hefir at fornv ok nyiv ok hvn vard fremst eigandi at. Skyllde hvort fyrgreindra manna svara

---

[1]) Svo.

laga riptingvm æ þeirre jordv er sellde ok hvort hallda þeirre til laga er keypti.

Ok til sannenda hier vm settvm vid fyrnefndir menn ockvr innsigle fyrir þetta bref er skrifat var j Laxarnesi j Kios fimtvdagenn fyrstan j svmre viii arvm sidar enn fyr seiger.

---

**712. 24. September 1475. á Hólum.**

Vitnisburðarbréf, að Ormr Einarsson hafi lýst því, að Solveig Þorleifsdóttir hafi sagt, að þau sömu innsigli, sem hún sýndi honum, hefði hún tekið af síra Halli Jónssyni í kirkjunni í Flatatungu, og Ólafr Filippusson lýsti því, að hann hefði tekið af síra Halli liggjanda í sömu kirkju það bréf, sem hann fékk Solveigu.

AM. Fasc. XXI, 23, frumritið á skinni. Öll (4) innsiglin eru dottin frá.

lýsing orms einarssonar ok olafs philipussonar[1]).

Þad giörvm vier olafur klængsson. þorbergur stefansson. prestar. hola biskups dæmis. colle magnus(son) ok jon þordarson leikmenn. godvm monnvm viturligt med þessv voro brefe. þar vorvm vier j hia ok heyrdvm a ad ormur einarsson taladi þessi ord fyrir oss ok fleirvm monnum ödrvm vnder stvdddevm[2]) a holvm j hialltadal. lavgardagin[3]) næsta epter micelsmessv vm havstit. ad solveig þorleifsdotter hefdi sagtt sier ad þav savmv jncigle sem hon syndi honum. hefdi hon tekit af sira halle jonssyni j kirkivnne j flatatvngv. ok a savmv vættfangi medkenndizt olafur filiphusson fyrir oss. ad hann hefdi tekit af liggianda þrattnefndvm sira halle j greindre kirkiv. þat bref sem hann hafdi j hendinne ok feingit solveigv þorleifsdottur. Ok til sanninda hier vm settvm vier fyr nefndir menn vor jncigle

---

[1]) Utan á bréfinu með forni hendi. [2]) Svo = Studium. [3]) — dadin, frbr.

fyrir þetta bref. skrifat a holvm j hialltadal. svnnvdagin næsta epter micelsmessv. anno domini ꝏ⁰ cd⁰ lxx quinto.

---

**713. 11. Október 1475. Í Hereyjum á Sunnmæri.**

Þrír menn transskríbera bréf frá 15. Maí 1475 um eignir hústrú Margrétar Vigfúsdóttur, sem hún á á Rogalandi í Noregi.

AM. Dipl. orig. Norv. Fasc. XLVI, 2, frumtransskriptið á skinni. Innsiglin eru fyrir. Bréfið er prentað í Dipl. Norv. IV, 979. Transskript þetta er með íslenzku handarlagi og víst ekki norsku, nema það, sem ritað er aptan á það, og gert er síðar. Auk þess þekkjast tveir af mönnum þeim, er útgefa bréfið, sem Íslendingar. Loptr Ormsson er sonr Orms Loptssonar ens ríka og kvæntist hann á Hálogalandi 1470 Gunnhildi Pétrsdóttur (Nr. 501). Hrafn Brandsson er án alls efa sá, er síðar varð lögmaðr á Íslandi (1479—83) og var nafnkunnr maðr á sinni tíð.

Þat giorum vær jon olaffsson prestur loftur ormsson og hrafn brandzson leikmenn godum monnum viturlegt med þessv vorv opnu brefe ath vær hofum siet og yfirleset opeth bref med heilum og oskôddum hanganda insiglvm svo latanda ord eftir ord sem her segir.

[Hér kemr bréf frá 15. Maí 1475, Nr. 697].

Og til meire sanninda hier vm settum vier fyrskrifader menn vor insigle firir þetta transkriftar bref skrifath i Hereyium midvikudagenn næsta firir festum reliquiarum arum eftir gvdz bvrd þvshvnd fiogur c siötigir og fimm ær.

---

**714. 23. Október 1475. á Kirkjulæk.**

Dómr útnefndr af Erlendi Erlendssyni sýslumanni í Rangárþingi um mál þeirra Þorleifs Björnssonar og Helga Teitssonar um Efra-Dal undir Eyjafjöllum; dæma þeir Helga Dal, en Þorleifi aðgang að Kollabæ í Fljótshlíð.

AM. Fasc. XXI, 20, transskript á skinni frá 1. August 1480. —

Fasc. XXI, 21, forn pappírsafskript af transscripto frá 1480. — AM. Apogr. 2897.

Dalsdomur[1]).

Ollnm monnnm þeim sem þetta bref sia edr heyra senda oddnr asmundzson. helge oddzson. ornolfur oddzson. gudmundr ionsou. þorsteinn palsson. einar branzson. eyuindr thumasson. hafidi jonsson. jon magnusson ok arnfinnnr jonsson knedin gnds ok sina knnnigt gerandi. ath anno domini. ꝺ.° cd.° lxx.° quinto. á manudagenn næsta fyrir tueggia postula messu simonis et jude á kirkiulæk j fliozhlíjd á þingstad rettvm vornm vær j dom nefndir af ærlignm manni ellindi elleńzsyne er þa hafdi kongsins syslu j Rangærþinge ath dæma j millum Þorleifs biornssonar ok helga teitzsonar vm jordina efra dal vnder eyiafiollum. ok þau bref er þeir haufdu fyrir ædr greindre jaurdu er þeir badir þottuzt eiga sem þeirra bref þar vm giord vtvíjsa. kom þar fyst fram af hendi fyr nefndz þorleifs bref sumarlida eireikssonar[2]) med hans heiln ok oskauddu hanganda jnnsigle. ath hann hefdi sellt optnefndum þorleife ádur greinda jord efra dal til æfinligrar eignar. Sno ok liet þorleifur lesa þath bref ath gudrun harallzdotter fieck lopte guttormssyne til fullrar eignar efra dal vnder eyiafiollum j sin þionuztn laun. kynne fyr nefnd jord af ath ganga med langum af adur nefndnm lopte. þa skylldi hann eignazt þa peningana sem fyrir jordina kiæme.

hier j mote tiedi helgi teitzson sin transkriptarbref fyrir oss. tolf manna dom þann ath helga styrssyne hafdi verit dæmd opt nefnd jord efri dalur til fullrar eignar af gudrnnn harallzdottnr. enn luka fulla peninga fyrir jnnan siav natta epter godra manna virdingn ok þar med orsknrd jons[2]) asmundzsonar logmannz þann ath hann hafdi orskurda(t) þenna sama dom laugligań med aullum sinum greinnm ok artikulnss[2]). epter þni sem hann hafdi dæmdr verit. J þridiu grein las helgi virdingarbref sex manna ath þeir haufdn virt j iardar verdit j efra dal janrdina kollabæ fyrir

---

[1]) Utan á XXI, 21, með fornri hendi. [2]) Svo.

fimtigi hundrada ok þar thil[1]) tiu bufiar kuilldi ath tiundar lage. Nu saker þess ath þessir fẏrr nefndir menn þorleifur biornsson ok helgi teitzson laugdu vnder med handabande þann dom sem ellendur ellenzson þar ẏfer stefnde huors þeirra bref skẏlldu meira afl hafa vm tíjtt nefnda jaurd efra dal Eda huar þorleifur biornsson skylldi athgang eiga ef jordin dælur geingi af med laugum. Ok ath þessum fẏrr skrifudum brefum aullum skodudum ok fleirum audrum er þar fram kuomu af beggia hende. leizt oss þau bref fyrir eiga ath ganga sem helgi teizson bar þar fram suo framt sem þau bref er hann vændizt hafa j sinni geẏmslu med heilum ok oskauddum hangandi jnnsiglum (eru) suo latandi ord fyrir ord sem j þeim transkriptarbrefum stod er fyrir oss kuomu. Þui dæmdum uær fẏr nefndir domsmenn helga teitzsyne jaurdina efra dal vnder eẏiafiollum til fullrar eignar ok frials forrædiss. Enn þorleifur biornsson eiga athgang med lavgum ath jordunne kollabæ ok þeim tiu kuilldum er þar voru til vird fyrir jordina efradal. En ef nauckvt fals kẏnne j ath metazt þeim brefum er helgi atte fram ath leggia vnder dandi manna skodan þa dæmdum vær þorleife biornssyne þrattnefnda jord efra dal vnder eẏiafiollum til æfinligrar eignar epter þui sem hans bref þar vm giord vt visa. Ok til sanninda ok fullrar samþẏcktar hier vm sette ellendr ellenzson sẏslumadur j Rangarþinge sitt jnnsigle med vorum fẏrr nefndra manna jnnsiglum fyrir þetta domsbref skrifat j yztu Maurk vnder eẏiafiollum á sama are deige síjdar enn fẏrr seigir[2]).

---

**715. 30. Október 1475. í Fíflholti.**

Dómr útnefndr af Erlendi Erlendssyni sýslumanni í Rangárþingi um Dals og Kollabæjarmál Þorleifs Björnssonar, og hafði umboðsmaðr Þorleifs stefnt Guðmundi Eiríkssyni um hald á Kollabæ.

---

[1]) XXI, 21; sl. XXI, 20. [2]) 24. Okt.

AM. Fasc. XXI, 20, transskript á skinni frá 1. Aug. 1480. — AM. Fasc. XXI, 21, afskript forn á pappír af transscripto frá 1480. — AM. Apogr. 2896.

Dalsbref ok um kollabæ[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda einar oddzson. aurnolfur oddzson. arnfinnur jonsson. eyuindr tumasson. arne jonson. hreinn hallzson. brandr jonson. biarne þosteinsson. þorlakur hreinson. helge sigurdzson. brodde þorlaksson ok halldor audunarson kuediu guds ok sina kunnigt giorandi ath anno domini. ꝏ.⁰ cd.⁰ lxx.⁰ quinto. á manudagenn næsta fyrir allra heilagra messu j fiflhollte j uestra[2]) landeyium á þingstad riettum vorum vær j dom nefndir af ærligum manne ellinde ellinzsyne er þa hafdi kongsins syslu j Rángærþinge. ath dæma j millum þorleifs biornssonar ok gudmundar eireikssonar[2]) er þar var þa stefndr af vmbodsmanne þorleifs biornssonar fyrir þa sauk ath þorleifur kíærdi þat til adr greinz gudmundar ath hann hiellde jaurdina kollabæ j fliozhlid er liggur j breidabolsstadar kirkiu sokn. enn þorleifur þottizt eiga. Nu fyrir sakir þess ath oss leizt gudmundr eireiksson[2]) þar riettliga fyrir kalladr ok þess anars ath fyr nefndr þorleifur liet lesa þar þau bref. ath sumarlide eireiksson[2]) hefde sellt honum jaurdina efra dal vndir eyiafiollum til fullrar eignar epter þui sem þeirra bref þar vm gert vtvíjsar ok þat annat bref ath gudrun harallzdotter hefdi feingit lopte bonda guttormssyne til fullrar eignar fy(r)nefnda jaurd efra dal j sin þionuztu laun. kynne dalr af ath ganga med laugum þa skylldi loptur eignazt þá pe(n)inga sem fyrir jaurdina kiæme. Þat hid þridia bref ath jordin kollabær var virttur[3]) af sex dandi monnum j iardar verdit fyrir efradal undir eyiafiollum fyrir fimtigi hundrada ok þar til tiu bufiar kuilldi. hier med kom þar fyrir oss tolf manna domur suo látande ath þeir hefdi dæmt helga teitzsyne opt nefnda jord efradal til fullrar eignar epter þui sem hans bref vtvisudu. Enn þor-

---

[1]) Utan á transscripto (XXI, 20) með fornri hendi. [2]) Svo. [3]) virth XXI, 21.

leife biornssyne riettan athgang ath kollabæ. hier[1]) j moti þessum brefum ok fleirum audrum er þorleifur bar þar fram. beidduzt vær af gudmundi eireikssyne ath hann legdi þar fram þat skial sem hann hefdi fyrir jaurdunne kollabæ. Enn hann sagdi nei til ok sagdizt ok ecke hafa. ok þui dæmdum vær fýrr nefndir domsmenn jorduna kollabæ erfingium eireks heitins loptzsonar til æfinligrar eignar ok frials forrædiss. Enn þorleif biörnsson laugligan medtaukumann epter þui sem hans bref þar vm giord vt visa enn gudmund eireiksson skýlldugañ ath afenda fýrr nefnda jord kollabæ jnnan mắnadar þorleife biornssyne eda hans vmbodsmanne. Enn hafa ắbud ắ jordvnne til næstu fardaga ok giallda þæ[2]) þar med jordvnne suo maurg kugillde sem hann tok af þeim tiu kvilldum sem virt vorv j fýrr greint jardar verd. skýlldi þrattnefndr gudmundr lata vj menn meta tíjttnefnda jord kollabæ. ok ef jordin virtizt betre enn fimtiger hundrada þa skýlldi hann hafa lika fyrir af þeim sem þắ eignadizt jordina. Ok til sanninda ok fullrar samþýcktar hier vm ſſette ellendr ellenzson syslumadur j Rangắrþingi sitt jnnsigle med vorum fýrr nefndra manna jnnsiglum fyrir þetta domsbref er skrifat var j ýztu maurk vndir eyiafiollum ắ sama ắre deigi sidar en fýr seiger[3]).

---

716. 4. December 1475. í Holti.

Sveinn Þorgilsson fær með samþykki Steinunar Jónsdóttur konu sinnar síra Jóni Gíslasyni jörðina Vatnadal í Súgandafirði til fullrar eignar gegn því, að síra Jón hjálpi honum að borga skuldir sínar og byggi honum jörð og kúgildi.

AM. Fasc. XXXVII, 7, transskript á skinni frá 1504.

Þath giorvm vid olafur prestur teizson. aurnolfur einarsson godvm monnum vitvrligt med þessu woru opnv brefi ath vid worum j hia savm og heyrdvm ắ ord og handa-

---

[1]) sl. XXI, 21. [2]) XXI, 21; moltnað úr XXI, 20. [3]) Þ. e. 31. Okt.

band þessara manna af eine alfv sera jons gislasonar. af anari sueins þorgilssonar. ath suo fyrir skildv ath fyrgreindr suein fek adr nefndum sera joni jordina vattnadal til fullrar eignar er lig(g)ur j svgandafirdi j dalstadar kirkiv sokn med jaẏrdi og samþẏcki og handabandi steinvnar jonsdottur kuinnu hans. hier j moti lofadi tittnefndr sera jon þrattgreindum sveine ath hialpa honum til ath giallda sinar skullder og bẏggia honum jord og kugilldi. Og til sanninda hier wm settv vid fyrnefnder menn ockar jnncigli fyrir þetta jarda kaups bref er giort var j hollti j aunundarfirdi manudagin næsta fyrir nichulas messu. arum eptter gudz burd ꝏ° cccc.° lxx og v ar.

---

**717. 28. December 1475. á Ökrum.**

Finnbogi bóndi Jónsson selr Egli Grímssyni jörðina Brúsastaði í Vatnsdal fyrir Hafralæk í Aðaldal og nokkurt lausafé, og er bænhússkyld á báðum jörðunum.

AM. Apogr. 388 „Ex originali Sr Olafs Stefanssonar, accurate. Skriftarlaged á þessu brefi er nylegra enn þeirre tid sambiode á hverre þad er daterad. þo eru eingar notæ falsitatis á þvi, hverki rasa membrana nie neitt þvilikt. annars er þad sierlegt ad þesse giörningur er rett hinn same sem giördur var árenu fyrr um þessar bier nefndar iarder, á mille sömu manna“ (AM.). Sbr. bréf frá 22. Aug. 1474, Nr. 675.

Um Brusastade i Vatzdal og Hafralæk.

Ollum monnum þeim sem þetta bréf sia edr heẏra Senda hallur gudmundzsson magnus hallason helgi gudmundzsson oc sẏgurdr broddason. Q. G. oc sina kunnigt giorande. ath þa er lided uar fra hingathburd uors herra ihesu christi. þushund fiogur hundrud siautiger oc fimm ar. mariumessu enu fẏrre um sumarid æ skarde j langadal voru uier hia saum oc heẏrdum æ ord oc handaband finboga jonssonar oc egels grimssonar ath suo fẏrir skildu ath nefndr finboge sellde saugdum egle grimssẏni til fullrar eignar jordena brusastade er liggur j undenfellzs kirkiu sokn j uatzsdal med aullum þeim gaugnum oc gędum sem greindre jordu

hefer fylgt ath fornu oc nyu oc hann hafdi fremzst eigande. ath ordeth. Hier j moti gaf oc sellde adrnefndr egell fyrsaugdnm finboga jonssyne til fullrar eignar jordena hafralęk er liggnr j nes kirkiu sokn j adaldal fyrer fimm hundrud oc tuttugu j fyr sagt jardar uerd med aullnm þeim gaugnum oc gędum sem greindre jordu fylger oc fylgt hefer ath fornu oc nyn oc egell hafde fremzst eigande ath ordeth oc þar til .x. kugillde oc tuo hesta fyrer þriu hundrud. skyllde egell oc suara fyrer bęnhns skylld er nidr hafde fallid a tittnefndre jordn brusastandum. sagde egell oc til bęnhu(s)skylldar a hafralęk. Skyllde hnor nm sig hallda til fullra laga þeirre jordu sem keypt hafde en sa þeirra skyllde snara lagariptingnm sem sellt hafde. Oc til sannenda hier um settum uier fyr nefnder menn uor jncigli fyrer þetta jardakaupsbref giort a ankrnm j skagafirde en fiorda dag jola a sama ari sem fyr seiger.

---

718. 1475.

Heydala máldagi (ágrip).

AM. Apogr. Nr. 4425, ágrip með hendi Árna Magnússonar, sbr. ár 1382, 1388, (Dipl. Isl. III, Nr. 309 og 355), 1538.

Ur Heydala maldaga de anno 1475.
kaplar pro utriusqve generis eqvis.
krossar ij. smellter oc ij. rodukrossar.
ij. merke.

---

719. [1475].

Loptr Ormsson stefnir Solveign Þorleifsdóttur móður sinni um hald á Víðidalstungn, er hann taldi sér til erfðar fallið hafa eptir Einar Ormsson bróður sinn.

ÍBfél. 309. 8vo, bl. 159. Öxnafellsbók með hendi Ara Magnússonar i Ögri, skr. c. 1620. Þessi stefna mun vera frá 1475 (sbr. M Ketilss. Lagasafn I, 341).

Steffnna Lofftts Ormssonar wid modur sijna
Solueigu Þolleiffsdotter.

Eg Lopttur Ormmsson steffnne þier solueig þolleiffsdotter stundarsteffnu til seilu j skagafirde æ þingstad riettann æ fostudaginn fyrir Magnusdag firir brand jonsson logman nordann og vestann æ Jslandi vnder þann dom sem hann þar yffer neffnner. edur þann wrskurd sem hann þar yffer seiger. hnörra suaræ edur seckta þu werdur mier þar skylldug firir þessa mijna akiæru. ad jeg kiære þad til þijn. ad þu heffur og helldur jordina wıȷdedal(s)tungu. er jeg re(i)ck(n)a mier til Erffda haffæ falldítt Epter Einar Ormsson brodnr minn[1]) og slijktt bu sem þar var æ ȷordinne. Sno og eij sijdur kiære ieg þad til þijn ad þu hefur lagtt mier j valld þig og alla þijna peninga fasta og lausa og hallditt þar ecki af. Hier med helld jeg þijna peninga suo fara og farid haffa med skada og spiöllum aff [þijnum framferdnm[2]) ad mier þycker þn ecki þar firir þitt vmmbod haffa meiga og werttu komin firir hædeige æ fyrrgreindann dag og stad med oll þijn proff og skilrijke sem þier mæ til bata verda j greindu mæle. suo og eij sidur verttn þar logliga steffnnd fyrer allar þær greiner sem ieg mæ med logum til þijn talæ j greindu mæle. Sittu suo leinge steffnuna sem endiligur vegur verdur æ malnm med domi eda vrsknrdi ockar æ mille.

steffnne jeg þier ad ordfulln og logfullu og logmale riettn ad vitne þijnu ꜧ ꜧ son og þijnu ꜧ og allra þeirra sem ord mijn heyra.

---

**720. 1. Febrúar 1476. á Skarði á Skarðsströnd.**
Haldór Þorgeirsson selr hústrú Ólöfu Loptsdóttur alla jörðina á Snorrastöðum í Kolbeinsstaðahrepp, að fráteknum skóginum í Árkinnargeilum, og lýsir landamerkjum, en Ólöf leggr í mót Mela á Skarðsströnd og Hafnareyjar.

---

[1]) Einar dó 1470. [2]) [þijngū | tvanferdum, hdr.

Eptir afskript staðfestri 15. Maí 1704 á Reykhólum af Gísla Jónssyni og Steindóri Helgasyni eptir transskr. frá 13. Dec. 1612.

Þad Giorum vær þoraren ǻronsson. Steinþor Jonsson. Pietnr narfason. Jon asmundsson og Jon Jonsson Godum mȯnnum vitnrlegt med þessn voru opnn briefe ad þar vorum̄ vær i hia ǻ Skarde ǻ Skardsstrond fijmtndægen fyrer Purificacio Mariæ þǻ lided var fra Gnds bnrd M. iiij^c Lxx og vj ǻr saum̄ og heirdnm̄ ǻ ord og handaband þessara manna. Hustrn Olofar Loptsdottnr af eirne ǻlfu. Enn Halldors Þorgeirssonar af annare. ad so fyrer skilldu. ad Greindnr Halldor Þorgeirsson sellde fyrnefndre Hustru Olufu Loptsdottur Jȯrdena alla Snorrastade i Kolbeinsstada kirkiusokn til fullrar eignar ad frateknnm skogenum i ǻrkinnar Geijlum. med øllum þeyjm gȯgnum og giædnm sem greindre Jordu fillger og fillgt hefur ad fornn og nýu og hann vard fremst eigande ad. sellde hann Jordena Jtakalansa. nema firgreindañ skogarpart. med þessnm Landamerkium̄. ad Borgargata rædur fyrer nordañ og sndur i Borgarlæk. Enn fyrer snnnañ Kalldǻ. er sionhending ur Grasteijne og sndnr i Gȯtu þǻ er þar er næst. Rædnr þǻ gatañ ofañ giegnt Tottavatnsenda enum̄ nedra. Þadan sionhending utj Margrofarlæk og svo til siofar. Enn þadañ ǻ Osflȯgu ur ǻrkinnahamre firer ofañ Salltness ǻl. og so nordur i Borgargȯtn. Hier i mote gaf offtnefnd Hnstru Olof Jordena alla ǻ Melum ǻ Skardsstrȯnd er liggnr i Skards kirkin sokn. og þar til Eyiar er heita Hafnarejar er liggia i sȯmu kirkiu sokn. med øllnm þeim Gøgnum og giædum̄ sem Greindre Jordu og Eynm̄ fillger og fillgt hefnr ad fornu og nýn og hun vard fremst eigande ad. Skillde hvortt um̄ sig svara laga Riptingum ǻ þvi sem sellde. enn hallda til laga sijnu kaupe. Og til sannenda hier nm̄ setinm̄ vier firnefnder menn vor Jnnsigle fyrer þetta Jardakanps brief er skrifad var i sama stad og are deige sijdar enn fir seiger.

**721.** **3. Febrúar 1476.** **á Skarði.**

Húsfrú Ólöf Loptsdóttir gefr og geldr Jóni Erlingssyni í sin þjónustulaun jörðina Múla í Kollafirði og þar til tuttugu kúgildi.

AM. Fasc. XXII, 6, frumrit á skinni. Innsiglin öll (4) eru dottin frá.

Þath giorum vær þorarin áronsson. jon asmundzson. jon jonsson og[1]) biorn helgason godum monnum kunnigt med þessu uóru opnu brefi at þar vorum vær j hia a skarde a skardzstrond upp á blasiusmessudag þa er lidit var fra hingatburd vors herra jhesu christi þusund fiogr hundrut siotigir og sex ár. saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna hustru olofar loptzdottur af einne halfu en jons erlingssonar af annare at suo fyrir skildu at fyrr nefnd hustru olof loptzdotter gaf og gallt adrnefndum jone erlingssyne j sin þionustulaun jordina alla mula j kollafirde er liggur j gufudals kirkiu sokn til fullrar eignar og frials forrædis med ollum þeim gognum og[1]) gædum sem greindre jordu mula fylger og fylgt hefer at fornu og nýu og hun vard fremst eigande vndan sier ok[1]) sinum erfingium en vnder hann og hans erfinga. hier med gaf optnefnd hvstru olof tit nefndum jone tutugu kugillde j sama handabande til fullrar eiguar. skyllde þratt nefnd hustru olof suara lagariptingum á greindri jordu enn tíjt nefndur jon hallda til laga. Ok[1]) til sanninnda hier vm settum vær fyr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta bref er skrifat var j sama stad dege og áre sem fyr seiger.

---

**722.** **7. Febrúar 1476.** **í Geldingaholti.**

Transskriptarbréf fimm manna.

AM. Apogr. 3584, með hendi séra Snorra Jónssonar eptir frumtransskriptinu, er þá var meðal bréfa Hólastóls, en nú er ekki í Biskups-

---

[1]) Svo hér.

skjalasafni. „Originalbrefed liggr i Stiftskistunne a Holum. Copian kom til min 1721 frá Sra Snorra Jonssyne“ (AM.).

Þad giorvm vier gvnnar jonsson. andres jonsson. þordr jngemundarson prestar hola biskupsdæmis. jon þordarson oc vilhialmur thomasson leikmenn godvm monnum viturligt med þessv voru brefe. ad vier sævm oc yferlasvm med heilv oc oskavddv hangandi jncigle vrskurdarbref vors nadvga herra med gvds nad biskups olafs a holvm svo latanda ord epter ord sem hier seger.

[Hér kemr afsetningardómr Ólafs biskups yfir séra Sigmundi Steindórssyni geinginn á Laugalandi 27. Júní 1474, en bréfaðr 28. Júní á Möðruvöllum = Fasc. XXI, 8 i frumriti, Nr. 668].

Og til sanninnda hier vm settum vier fyrnefnder menn vor jncigle fyrer þetta transkriptabref er skrifat var J gelldingahollti j skagafirdi midvikvdagin næsta epter purificacio sancte marie anno domini ᴍ.° cd.° lxx. sexto.

---

## 723. 14. Febrúar 1476. á Hólum.

Vitnisburðarbréf um ránið í Miklabæ og um peninga staðarins.

AM. Apogr. 3595, eptir transskripti frá 13. Júní 1480. — Afskriptir af þessu bréfi i kopiubókum (Landsb. 115. 4to, II, 183; ÍBfél. 126. 4to, bls. 259; MSteph. 78. Fol. 180—181; Biskupsskjalasafn 3. Fol.) eru athugaverðar, því þær hætta í miðju kafi við bréfið, og skeyta aptan við það niðrlagi af bréfi frá 9. April 1476.

Þad giorum vid halldor þorgrimsson ok sigurdr olafsson godum monnum uiturligt med þessv ockrv brefi ath þar vorum uit j hia sævm ok heÿrdum æ favstudaghinn næsta fÿrer nivvikna föstv[1]. a flvgvmÿri j skagafirde. j stofvnne ath þorolfur þorfinnzson ok alridr gvnnlavgsdotter sórv fullan bokareid fyrir sira jone broddasyni. officalis holabiskupsdæmis. ath æ affaranot(t)ina lavgardagsens næsta epter kyndilmesso nu næst er var[2]). vissv þav fyrir fvll sann-

---

[1]) Þ. e. 9. Febr. [2]) Þ. e. 3. Febr.

inndi. ath þessir peningar voro j kirkivnne æ myklabæ [j] skagafirdi j blavndvhlid[1]) v. vætta kista med smior ok lavsasmiðr ath avki. navta slatvr. savdaslatur. fiskar. rikling. hakall ok rafabellti. verk bvssgögn. katlar. pottar. mvnlavg. vazkall. sængarklæde. kista læst. önur olæst. avrk. net. kvern. pallklæde. med þui fleira sem þar var. sav ok vissv adrnefndir menn þorolfur ok alridr. ath þessir sömv peningar voro brut borner vr greindri kirkiv. af fylgdarmonnum sira sigmvndar steinþorssonar. lagde ok fÿr nefnd alridur þat j sinn eidstaf. ath hun sæ vpp æ. ath drottin fyrir ofan hvrdina j kirkivnne æ mÿklabæ var nidrslegin. ok greindr sira sigmundr for þar fÿst inn. Ok til sanninnda hier vm settvm vid fÿr nefndir menn ockur incigle fyrir þetta bréf. skrifat æ holvm j hiallta[dal] midvikvdaghin fÿrstan j nivvikna föstv. þa lidit var fra hingatbvrd vors herra jesv christi þvshvnd fiögur hvndravd. siavtiger ok sex ár.

---

## 724. 17. Febrúar 1476. á Hólum.

Lýsing Jóns Jússasonar um þá peninga, er hann lét bera í kirkjuna í Miklabæ áðr síra Sigmundr Steinþórsson og hans fylgjarar gripu staðinn og ræntu þar.

AM. Apogr. 3596, eptir transskripti frá 13. Júní 1480. — Afskriptir af bréfinu eru í nokkrum kopíubókum: Biskupsskjalasafni 3. Fol.; Landsbókasafni 115. 4to, II, 162; ÍBfél. 126. 4to, bls. 257—59; MSteph. 78. Fol. bls. 179—180.

Þat giorer ek jon iussason godum monnum uiturligt med þessu minv brefi ath æ affaranottina lavgardagsins næsta epter kyndilmesso nv næst er var. let ek bera sua ordna peninga j kirkivna æ mÿklabæ j skagafirdi j blaunduhlid. adr en sigmundr prestur steinþorsson med sinvm fÿlgiorum. gripu nefndan stad ok rænti fyrir sira jone broddasÿni. sem hier seger.

---

[1]) Hér hætta kopíubækrnar við bréfið, og taka niðrlagið af bréfinu frá 9. Apríl 1476.

j fýrstu kista ok var vegnar j fimm vætter smiors ok lausasmior at auk.

vxa ath aullum limum næma vantadi til skamrifen.

kýrþio .ij.

halft vij[a] saudarkrof med bogum ok .ij. skamrif.

mor. smalka matur. bivgv ok sperdlar ok vndermorvar.

fiskar halft annat hundrat harder ok .xx. blauter. hakals lýkiur .xij. riklingur ok rafabellti. skautvbavrd.

sængr .iij. ok eitt aklædi.

huder .ij. heilar. €n þridia ristnar af .ij. leingur.

klýppingar .v. ok uar a einum vllen af þeim.

selskinn .iij.

reip a .iiij. hesta. vantade til eitt.

katlar .v. med tveimur hola stadar kavtlvm.

pottar .iij.

halfkavnnur .ij. munlavg ok vazskall.

vlldvkur ok vllhañklæde.

pallklæde.

vondr er olafur bondi atti.

net. kvorn.

kvotra ok skak.

altvnnur .ij. fra holastad ok halftvnna.

kvartel .ij. ok avnnur halftvnna er olafur bondi atti.

avrk. matarlok ok læst kista.

halftvnna malz.

miol j stampi.

sma bvsgagn oreiknad. trog. kerolld. diskar. skaler. askar. spæner. smiorjarn.

liaer .iiij. avx.

nafrar iij.

hardsteinar .ij.

þverfare. ok svdþvare[1]).

beinasavg. hornasavg. þuersagarefne.

hialltahnifs brot.

kolskara brotin.

---

[1]) Svo hér.

tangarbrot.
vefer .ij. kastader.
hnodn med garñ iiij.
vindvr xxx.
var þetta gamallt verk. enn tætt j vetvr garn af vij. fiordvngvm vllar ok vindnr smar ok storar .xl. var svmt j kirkiunne af þessv adr.

Ok til sanninda hier um setti ek mitt incigle fyrir þetta bref skrifat æ holum j hialltadal fanstndaghinn næsta fyrir cathedra petri apostoli. anno domini ɱ.º cd.º lxx.º sexto.

---

725. **20. Febrúar 1476.** **á Reynistað.**

Þorgils Einarsson selr Eyjólfi Teitssyni tíu hundruð í jörðunni í Sólheimum í Sæmundarhlíð fyrir lansafé, og kvittar um andvirðið.

AM. Apogr. 352, tvær afskriptir eptir frumriti, sem var sent Jóni Magnússyni til Íslands 1731 eptir beiðni hans.

Þat giorer ek þorgils einarson godnm monnnm uiturligt med þessn minu opnu brefi. ath ek medkenumz ath ek hefi selt eyolfi teizsyne tiu hnndrud npp j jordena j soleymum j sæmnndarhlid er stendur j skagafirdi ok liggur j klaumbæiar[1]) kirkinsonk[2]) med ollum þeim gaugnnm ok gædnm sem greindum iardarparte til heýrer ok ek uar fremz eigandi ath. hier j moti gaf adr nef(n)dur eyolfnr mier suo ordna peninga sio malnytn kngilldi ok þriu hundrud j ollum peningum ok þar til leigur ok abata af þessum peningum um eitt ar er ek nar honum skyllngnr. hefi ek þessa peninga ath mier tekit ok nppborid fýrer greindan jardar part. suo mier uel anægir. þui giorer ek fyr nefndan eyolf teiztson[3]) kuittan ok akærulausan fyrer mier ok ollum minum erfingium um adr greint iardar partz nerd.

---

[1]) klaumbædiar, hin afskr. [2]) Þ. e. kirkjusókn. [3]) teizson, hin afskr.

fyrerbiodandi huerium manni at kilia edur kæra ok omaka. [skylldi fẏr nef(n)dur eyolfur hallda adr greindri jordu til laga en þorgils uera forsuarsmadr fyrer henni[1]). Ok til sanenda hier um setta ek mitt insigli fyrer þetta bref giort a stad j reynisnesi tueim nottum fyrir Petrusmesso a uetrin. anno domini. ꝏ.⁰ cd.⁰ septuagessimo sexto.

[1]) [sl. hin afskr.

# Lagfæringar og viðaukar.

## II. bindi.

Bls. 138. Bréfin Nr. 62 og 63 munu öllu heldr vera frá vorinu eða fyrra hluta sumarsins 1276 heldr en 1277 (sbr. Bps. I, 705—706).

— 238. Ártal bréfsins Nr. 111 er ef til vill réttara sett 1283 heldr en 1282, því að svo er að sjá sem Loptr Helgason hafi farið utan með bréfið sama sumar, sem útlegð Jóns erkibiskups og fleiri biskupa fréttist til Íslands, sem sýnist hafa verið 1283 (sbr. Bps. I, 727—729).

— 241. Árfærsla Brautarholtssamnings (Nr. 114) um Staðamál sýnist og réttari 1284 en 1283 (sbr. Bps. I, 730—734; Annálar ár 1284).

— 451.[8] Gunnar sá, sem hér er nefndr, mun án efa vera sami maðr og Gunnar[1] Pétrsson (lögmanns Haldórssonar) í Auðbrekku, og mun því klausan: kyrckia ä eina ku &c. vera yngri viðbót (frá c. 1370) við Auðunarmáldaga.

— 451.[10] Stulli Geirsson mun að vísu vera sonr Geirs á Seylu (1340—50) Þorsteinssonar úr Auðbrekku, og mun hálfbróðir samfeðra Árna og Jóns, og faðir Arnórs, Magnúsar, Runólfs og Þórðar.

## III. bindi.

Bls. 12[10]: „Modvr Ingibiargar"; þótt svo standi í handriti ættartölunnar (AM. 748 4to), mun það tæplega vera rétt, heldr mundi hér eiga að standa: „oc Ingibiargar", því ekki getr það staðizt tímans vegna, að Ingibjörg föðurmóðir þeirra Jónssona, Pétrs og herra Sturlu — sem kominn er á legg 1289, og er litlu síðar gerðr skutilsveinn Eiríks konungs Magnússonar, og riddari fyrir 1296 (Bps. I, 784—785; Annálar) — hafi verið

1) Jón og Ólafr hafa verið bræðr hans.

dótturdóttir Þórdísar Snorradóttur, Sturlusonar. Börn Þórdísar, þau er nú þekkjast, eru, eptir Sturlungu, fædd á árunum 1226–1232, og væri Sturla riddari fæddr svo sem 1270—1275 (en síðar getr hann naumast verið fæddr), þá verða aðeins rúm 40 ár frá fæðingu dætra Þórdísar Snorradóttur (c. 1230) til fæðingar Sturlu riddara (c. 1270—1275), og kemr þá nokkurn veginn heim við þann reikning, að Jón prestr faðir Sturlu væri dóttursonr Þórdísar, þó að ekki komi þá nema svo sem 20 ár niðr á hvert þeirra mæðgina, Ingibjargar og Jóns (Ingibjörg f. c. 1230, — Jón prestr f. c. 1250). Er því líkast, að þær *Steinunn*, er fyrgreind ættartala nefnir, og *Ingibjörg*, er þar virðist vera talin dóttir Steinunar, hafi verið systr, og dætur Þórdísar Snorradóttur. En hvernig sem á þeim ruglingi stendr, þá gæti hvorki móðir eða amma Jóns prests, er átti Hallkötlu Hrafnsdóttur, Oddssonar af Söndum (d. 1234), hafa verið dóttir Odds (og Þórdísar), því að þá hefðu þau hjónin, Jón prestr og Hallkatla, verið of skyld í augum klerkavaldsins: annaðhvort systkinabörn, eða þá að 2. og 3.:

Oddr { Hrafn — Hallkatla<br>[Steinunn] — Ingibjörg — Jón prestr.

Er því einmitt líklegt, að þessi dóttir Þórdísar sé dóttir Ólafs Æðeyings; hann átti barn við Þórdísi árið 1232 (Sturl.[1] II, 142).

Bls. 494[27]: Nr. 320, les: Nr. 340.

— 497: Ártalið efst á spázíu, yfir bréfinu Nr. 408, hefir misprentazt: 1389, fyrir: 1394.

— 784, á fyrra dálki (registr): Ártalið milli sviga við nafn Andrésar prests Arnórssonar, sem mun vera faðir Steinþórs, hefir misprentazt 1392 fyrir 1412.

Bls. 842, á fyrra dálki (registr): Hallr Kolbeinsson. Jósafat Jónasson ættfræðingr telr hann fæddan um 1280, og farast svo orð um hann:

„Það er án efa þessi Hallr (Kolbeinsson), sem Gottskálks-annáll telr að andazt hafi 1363, og nefnir hann „Hall karl í Hvammi"; hefir „karl" líklega verið kenninafn Halls, enda hefir hann víst verið orðinn gamall 1363, því að hann sýnist, eptir ýmsum atvikum, sem nú eru ljós orðin, vera faðir Brands Hallssonar, er bjó í Kalmanstungu um 1330—c. 1360 (f. c. 1300—1305); en með því að þeir feðgar hafa átt Kalmanstungu, getr ekki verið mikill vafi á um kyn þeirra, að þeir eru komnir af Sturlungum, er áttu Kalmanstungu á 13. öld. Mun því Hallr í Hvammi (d. 1363), er hefir verið merkr maðr og kunnr vel á sínum tíma, vera sonr Kolbeins Auðkýlings, með fyrri konu Kolbeins, Hallberu dóttur Egils bónda Sölmundarsonar úr Reyk-

holti (sbr. Bps. I, 696, Árna bisk. s., 12 k.). Hallr Kolbeinsson mun vera fæddr um 1280. Hallr Svarthöfðason frá Kalmanstungu (Brandssonar, Hallssonar) bjó og í Hvammi (um 1400) og má Hvammr hafa verið eign þeirra langfeðga".

Bls. 973, 2. dálkr í registrinu, lína 31 (ofan frá): Húnakappi, Snorri Böðvarsson, les: Húnakappi: Böðvar Snorrason.

-- 979, 1. dálkr í registrinu: Þorbjörg Guðmundardóttir, Arasonar, kona Guðna Oddssonar, ætti að vera: Þorbjörg Guðmundardóttir, Ormssonar (ɔ: Orms frá Skarði, Snorrasonar), því að þótt ættfræðingar hafi talið Þorbjörgu konu Guðna systur þeirra bræðra Ara og Hrafns lögmanns (Guðmundarsona), þá er það með öllu heimildarlaust, og þegar betr er aðgætt, sést að þessi ættfærsla fær ekki staðizt, því að ef Þorbjörg kona og barnamóðir Guðna bónda Oddssonar hefði verið systir þeirra Ara og Hrafns, þá hefðu þau Hrafn lögmaðr Brandsson og Margrét Eyjólfsdóttir kona hans verið þrímenningar:

Guðmundr { Hrafn lögm., d. 1432 — Ragna — Hrafn lögmaðr yngri.<br>[Þorbjörg] — Snælaug — Margrét, kona Hrafns Brandssonar.

Enn fremr er hitt einnig getgáta yngri sagnaritara og ættfræðinga, að Guðmundr faðir þeirra Hrafns lögmanns og Ara hafi verið Arason, eins og það er bersýnilega misskilningr þeirra, að hann hafi búið á Reykhólum og verið þaðan kynjaðr, því að vitnisburðr þeirra Gunnlaugs Teitssonar og Sigurðar Þorbjarnarsonar frá 24. Apríl 1424 (DI. IV. Nr. 372) sýnir án allra tvímæla, að Guðmundr faðir þeirra hefir búið á Skriðu (Rauðuskriðu) í Aðaldal, og er sú jörð í vitnisburðinum talin „föðurleifð þeirra" Hrafns og Ara og Snjólfs (d. 1403). Sýnist einmitt líklegast, að Guðmundr í Skriðu hafi andazt 1402—1403, í svartadauða, og kynni hann helzt að vera *Guðmundr Stígsson* (frá Ljósavatni, Jónssonar), er Skinnastaða-ártíðarskrá nefndir við 28. Maí („Árt." 172. bls.; sbr. s. r. 174—175. bls. og ættskrá XX); væri það þá að þakka frændsemi Hrafns Guðmundarsonar við Loga officialis Stígsson, að Logi veitir Hrafni Grenjaðarstað við brottför Þorleifs Árnasonar þaðan 1406 (DI. III. Nr. 587). Í bréfum 15. aldar kemr það og í ljós, að Hrafn hefir átt fasteignir miklar í Þingeyjarþingi, einkum um ættstöðvar þeirra Ljósvetninga. Ari Guðmundarson kvæntist Ólöfu dóttur Þórðar undan Gnúpi í Dýrafirði (og Solveigar frá Reykhólum [systur Gísla Svartssonar]) 1394 (Flateyjarann.), og hefir auðsjáanlega feingið með henni jörðina Reykhóla, höfuðból þeirra Svartanna á 14. öld. Hefir kvonfang þetta líklega farið fram að

ráði Bjarnar Jórsalafara, því að Ari mun þá hafa verið í vestrförinni með Birni. Að Þorbjörg kona Guðna bónda Oddssonar hefir verið dóttir Guðmundar Ormssonar, af Skarðverjaætt vestra, sést ljósast af eignum Guðna, er hann átti í Dalasýslu, á stöðvum Skarðverja; voru það t. d. jarðirnar Þykkviskógr, Miðskógr og Harrastaðir (DI. IV, Nr. 394). Guðmundr Ormsson frá Skarði, Snorrasonar, er fyrst nefndr 1385 (Flateyjarannáll); 1386 rænir Guðmundr um Sunnlendinga- og Vestfirðingafjórðung, og fer utan það ár (Annálar). 1388 hvarf Guðmundr í Færeyjum „um nátt með undarligum hætti“ (Annálar). Sytskin hans voru þau Guttormr faðir Lopts ríka (veginn 1381) og Þorbjörg Ormsdóttir á Staðarhóli (enn á lífi 1394; Ann.), kona Ólafs tóna (d. 1393). Hefir Þorbjörg Guðmundardóttir borið nafn Þorbjargar Ormsdóttur (föðursystur sinnar).

---

## IV. bindi.

Bls. 395. „Þórðar Þorleifssonar“ (í fyrirsögn bréfsins Nr. 434) og „Þórði Þorleifssyni“ (í fyrirsögn bréfsins Nr. 435) les: Þorleifs Þórðarsonar (á fyrra staðnum) og Þorleifi Þórðarsyni (á síðari staðnum).

— 492. Af bréfinu í V. bindi Nr. 182 (ár 1459) er það nú komið í ljós, sem ekki var jafnljóst, þegar IV. bindi var prentað, að Sigurðr Þórðarson í Haga hefir dáið 1448; eru því vitnisburðirnir Nr. 531 og 532 réttara ársfærðir „1448 eða síðar“ heldr en „eptir 1431“, þó að það sé í sjálfu sér ekki rangt.

— 573 (í fyrirsögninni fyrir bréfinu Nr. 613): Skálholtsbiskups, les: Skálholtsbiskup.

— 658[14]. Skúli, les: Hallsteinn.

— 781, fyrri dálkr (registr). Við nafn Bergs Þorvaldssonar hefir fallið niðr að geta þess, að hann var prestr.

— 818, í 2. dálki registrsins; þar er Haldóra Helgadóttir, sem í bréfi 19. Maí 1442 telst kona Ara Bessasonar, haldin vera sama kona og Haldóra Helgadóttir (Guttormssonar), systir Þórðar bónda á Staðarfelli, sú er selr honum erfðahluta sinn í Staðarfellsjörðu 1449; getr það naumast verið rétt, heldr hafa Haldórurnar Helgadætr verið tvær, og hefir önnur þeirra verið kona Ara (DI. IV, Nr. 672). Er hún enn á lífi 19. Maí 1442, og samþykkir þá kaup þeirra Ara bónda síns og Bjarnar bónda Þorleifssonar, þá er Ari selr Birni Kleifar í Gilsfirði; en þá jörð hefir Ari fengið með Haldóru, sem þess vegna hefir verið kynjuð af Vestfjörðum eða úr Dalasýslu. Þó er óvíst, að hún

hafi verið af Staðarfellsætt. Reyndar áttu þeir Skarðverjar og Staðarfellsmenn jarðir í Gilsfirði. — Haldóra þessi hefir að líkindum andazt 1442, eða 1443 í síðasta lagi; því í gerningi frá 6. og 28. Febr. 1444 er getið Margrétar konu Ara Bessasonar (DI. IV, Nr. 692). Hefir Margrét þessi verið síðari kona Ara, og munu þau hafa gipzt seint á árinu 1443. Er því annaðhvort, að Ari hefir áðr skilið við Haldóru Helgadóttur, eða hún hefir, — eins og fyr var getið, — verið önduð, þegar Ari giptist Margréti, og er hið síðara líklegra; en þar af leiðir, að Haldóra Helgadóttir, systir Þórðar á Staðarfelli, sem er við gerning 14. Júní 1449, verðr að vera önnur kona; en vel gat hún verið systir Haldóru konu Ara, þótt það verði nú ekki sýnt með fullum rökum. Þess skal getið, að svo virðist sem þeir Þórðr Helgason og Gunnar Jónsson í Sælingsdalstungu hafi verið mágar, og að Haldóra Helgadóttir (1449) systir Þórðar hafi verið kona Gunnars; enda er hann (ɔ: Gunnar) fyrstr vottr að því, er Haldóra selr Þórði hluta sinn í Staðarfellsjörðu (1449; DI. IV, Nr. 786). — Helgi „bóndi“ Guttormsson[1] leiðir ýms vitni um landamerki Sælingsdalstungu (um 1410; DI. III, Nr. 606—607), og er af því að ráða, að hann hafi þá búið í Sælingsdalstungu eða átt þá jörð. Síðar afhendir Úlfrún Þorsteinsdóttir Gunnari Jónssyni Sælingsdalstungu, og hefir það verið eptir 1427 (DI. IV, Nr. 334). Úlfrún hefir auðsjáanlega verið ekkja eptir Helga Guttormsson, er andaðist 1427, og hefir hann fyrst, meðan faðir hans lifði, búið að Sælingsdalstungu, en síðar á Staðarfelli, og er því líklegt, að hann hafi verið eigandi beggja jarðanna. Verðr þá skiljanlegt, hvernig á því stóð, að Ulfrún Þorsteinsdóttir átti að svara reikningum beggja kirknanna eptir fráfall Helga, og svo hitt, að Gunnar Jónsson tók Sælingsdalstungu við brottför Úlfrúnar þaðan. Ketill bóndi Ásgrímsson (Snorrasonar), er bjó í Sælingsdalstungu fyrir og um 1400, má hafa verið móðurfaðir Helga Guttormssonar.

Um forfeðr Ulfrúnar verðr fátt með vissu sagt, en nafnið sjálft er mjög fátitt, og finst varla í ættum vestra, er nú þekkjast, nema í Seldælaætt.

---

## V. bindi.

Bls. 26 (í fyrirsögn að Nr. 27) Brandr, l. Haldór. — $28^{26}$ (í fyrirsögn að Nr. 29) sex presta og sex leikmenn, l. þrjá

---

1) Í bréfi frá 19. Júní 1427 er Helgi nefndr „bóndi“ (DI. IV, Nr. 394), og bendir það á, að hann hafi verið auðugr maðr.

presta og þrjá leikmenn. — $30^{10}$ „mill“ í orðinu *milli* hefir í sumum eintökum fallið framan af línunni. — 34 (í fyrirsögn að Nr. 34) Björn Jónsson l. Björn Sveinsson. — $52^{24}$ eccesiasticis l. ecclesiasticis. — $53^{21}$ episcus l. episcopus. — $58^{16}$ vnder l. vader. — $60^{11}$ disputatus l. deputatus; $60^{12}$ konoka l. kanoka. — $63^{2}$ rue l. eru. — 94 nm. henda l. hendi. — $97^{25}$ briosta, l. briost. — $98^{16}$ skyrkivm l. styrkivm. — $103^{21}$ recipmus l. recipimus. — $121^{12}$ „mitt“ falli niðr; $121^{17}$ Apopr. l. Apogr. — $136^{13}$ (í fyrirsögn að Nr. 123) Kaldbak l. Harðbak. — $143^{13}$ biskup l. biskups. — $183_{5}$ „n“ (í sumum eint.) l. En. — $187_{9}$ pappírsskriptir l. pappírsafskriptir. — $189_{14}$ mm. þui[1]) þui l. þui[1]). — $200^{5}$ (í fyrirsögn að Nr. 185) tveggja l. þriggja. — $206_{16}$ Barðasrönd l. Barðaströnd. — $211_{9-10}$ gagndagwiku l. gagndagawiku. — $215^{12}$ Eriki, réttara væri: Ercki; 215 nmgr. 1. besögiliz l. besögilsiz. — $222_{2}$ mm. Landshókasafn l. Landsbókasafn. — $223^{15}$ Lýsetallar l. Lýsetollar. — $228_{13}$ þessa l. þess. — 230, Nr. 216: Dagsetning þessa bréfa í fyrirsögn á að vera 1. Júní. — 233. Reistará á syðri, l. Reistará syðri á. — 235, 1. nmgr. Þórðarson, l. Þórðarsonar. — $245^{18}$ domsmenn l. domsbref. — 247 (undir árinu *1480* neðst til hægri) bætist inn III, á undan IV. — $248^{1}$ (efst undir árinu 1491) III falli niðr; $248^{3}$ (ár 1485) III bætist inn í fyrir framan VIII. — $271^{10}$ cx⁰ l. xc⁰. — $295_{10}$ æfinglirar l. æfinligrar. — $305^{5}$ skep l. skip. — 306—307: Þau Gunnsteinn, Þorljótr, Jóreiðr og Þórey, er koma við rekaskrá Munkaþverárklaustrs (hér, og í DI. II. Nr. 35), munu vera börn Halls Gunnarssonar, sem þar er nefndr, og getr hann verið sami maðr og Hallr kvistr, er Sturlunga nefnir, og sem hefir verið merkr maðr, og haft goðorð í Þingeyjarþingi (að líkindum Ljósvetningagoðorð), því að hann var einu þeirra, er játtu skatti á alþingi 1262 (Sturl[1]. III 298, 312, 319). Hverrar ættar Hallr Gunnarsson hefir verið[1]), er nú bágt að segja með vissu, en sé hann faðir þeirra systkina (Gunnsteins, Þorljóts, Jóreiðar og Þóreyjar), þá má það ráða af rekaskránni, að hann hafi búið á Ljósavatni, og verið Ljósvetningr að ætt, og eins og bent hefir verið á í athugagrein fyrir rekaskránni í II. bindi Fornbréfasafnsins eru þau systkyn sjálfsagt af kyni Gunnsteins Þórissonar á Einarsstöðum (1160), er átti Hallberu dóttur Þorgils Oddasonar. En ekki þykir mér líklegt að þetta séu börn Halls prests Gunnsteinssonar (d. 1228), er farið hefir vestr ásamt þeim bræðrum sínum, Þorgilsi og

---

1) Hann getr naumast verið Hallr prestr Gunnarsson (d. 1201), því bæði virðist þessi Hallr vera uppi um og eptir miðja 13. öld, og ekki getr rekaskráin þess, að hann hafi verið prestr.

Lambkári, og hafa þeir aukið þar ættir sínar. Hitt sýnist sennilegra, að einhver grein þessarar ættar, líklega einhver sonr Gunnsteins, hafi orðið eptir þar nyrðra og búið á Ljósavatni, eða á Einarsstöðum, þar sem Gunnsteinn bjó. Ég tel vafalaust, að þessi sonr Gunnsteins sé einmitt Ögmundr prestr, sá er bjó á hálfum Einarsstöðum í Reykjadal, til móts við Höskuld Gunnarsson árið 1220 (Bisk.s. I, 511—512; Sturl.[2] I. 240—241), og átti hann tvo sonu, sem nefndir eru: Gunnstein (er heitinn hefir verið eptir Gunnsteini Þórissyni) og Odda skeiðkoll, er borið hefir nafn Odda prests Þorgilssonar (d. 1150). Odda er getið 1220 (Bps. II. 511—512; Sturl.[2] I. 241), en Gunnsteinn Ögmundarson var veginn, ásamt föður sínum, af Höskuldi Gunnarssyni árið eptir 1221 (Bisk.s. I. 523; Sturl.[2] I. 254). Resensannáll getr, við ár 1221, um „víg þeirra Ögmundar“, en Konungsannáll og Flateyjarannáll geta um „víg Liosvetninga“ sama ár (sbr. Flateyjarbók III. 525), og eiga þessir staðir allir vafalaust við sama atburð, er hefir þótt merkilegr. Að annálar kalla þá feðga Ögmund prest og Gunnstein „Ljósvetninga“, tekr af öll tvímæli um ætt þeirra, þar sem vér vitum, að þeir bjuggu þó ekki á Ljósavatni, heldr á Einarsstöðum, og Ögmundr prestr, er verið hefir roskinn 1221, hefir því án alls efa verið sonr Gunnsteins á Einarsstöðum, Þórissonar. Með þessu staðfesta og annálar þá ætlun manna, að Gunnsteinn Þórisson hafi sjálfr verið Ljósvetningr (sbr. DI. II. 90, 861—862 bls.), og það hlýtr hann að hafa verið, því Hallbera kona hans var ættuð að vestan (Sturl.[2] I. 40), og er ætt hennar alkunn. Skal ég við þetta tækifæri geta þess að mér þykir ekki ósennilegt, að Þórir prestr Símonarson, er annálar telja að veginn hafi verið 1128, sé faðir Gunnsteins, og sýnist ekki fjarri sanni að ætla, að þeir væri að öðrum og þriðja að frændsemi Þórir prestr og Símon Þorgrímsson, Özurarsonar, Oddbjarnarsonar, Þorkelssonar háks (Ísl. sögur[2] I. 354. bls.). Sámr prestr, sonr Símonar Þorgrímssonar, átti Guðrúnu systur Hrafns Sveinbjarnarsonar, og hefir hann því lifað (fulltíða) um 1200 (d. fyrir 1211). Þorgrímr assi, er veginn var (samkvæmt annálum) 1146, og hefir verið norðlenzkr (Bps. I. 441), mun einmitt vera sami maðr og Þorgrímr Özurarson, og er þá kenninafnið „assi“ komið af föðurnafni Þorgríms. Hefir það leingi leigið í ætt Ljósvetninga, að þeir hafa verið óeirðamenn og miklir fyrir sér. Getr naumast verið efamál, að þau Gunnsteinn, Þorljótr, Jóreiðr og Þórey sé af þessum ættlegg Ljósvetninga, og gætu þau verið dótturbörn,

eða svo, annarshvors þeirra, Gunnsteins eða Odda[1]) skeiðkolls, Ögmundarsona. Þess skal getið, að Þorljótr sá, er rekaskráin nefnir, getr með eingu móti verið Þorljótr sá, er bjó á Helgastöðum (ekki Einarsstöðum) 1220, og var þá í bardaga með Guðmundi biskupi, því sonr þess Þorljóts (Sigurðr) er þá fulltíða, og hefir Þorljótr bóndi því verið roskinn um 1220 (sbr. Sturl.[1] II. 53; [2]I. 241; Bps. I. $512^1$). — $308_9$ guluofin l. gulu ofin. — 322 í yfirskript á blaðsíðunni: Ljósavatn l. Hvammr. —325 neðst. Þó að það standi: haganda í máldagabókinni mun það vera misskript fyrir hanganda. — $334_2$ Vestuaa. l. Vesturaa. — $348^{11}$. Á eptir „nedrum[4]) fitium“ bætist inn *holi*. — $351^{12}$ aspicienskok l. aspiciensbok.— $357^9$ hænhús l. bænhús. — 386 (í fyrirsögn að Nr. 335) Brunnáreyum l. Brunnáreyrum. — 388. Artalið yfir fyrirsögn bréfsins Nr. 337 hefir misprentazt 1464 fyrir 1463. — $394_5$ innsiglum[2]). l. innsiglum[1]). — $397^{14}$ stod l. stad. — 400 (í fyrirsögn að Nr. 348) Maríukirkju l. Þorlákskirkju. — $412_{13}$ prestursson l. petursson. —$415^6$ sapenciam l. sapienciam.— $423_{12}$, 18. Sept. l. 25. Sept.— $431^{16}$ (í fyrirsögn að Nr. 378) Ásgeirssonar l. Asgrímssonar; $431^{18}$ Þorgrimssyne l. Þorgeirssyne.— $440_8$ egyphania l. epyphania.—$441^3$ „Biarna“ stendr svo, en er í sjálfu sér rangt fyrir „Helga Bjarnarsonar“. —$449_5$ snorra l. snorri. —467. Fyrirsögnin að Nr. 415 hefir farið öfugt saman svo, að Einar Erlendsson selji Brynjólfi Jónssyni Oddgeirshóla í Flóa, í stað þess að Brynjólfr selr Einari. — $489^{24}$ „giore“ stendr svo í frumbr.; mun misskrifað fyrir „giorde“. — $509_5$ Þorteinsdotter l. Þorsteinsdotter. — 519 í fyrirsögn að Nr. 458 Þorvarðssonar l. Þórðarsonar. — $540_{10}$ ef l. af. — 560 síðasta orð í neðstu línu textans „og“ l. *eda*. — $569_7$ Vijdedalstunga l. Vijdedalstungu. — 589. Nr. 528 mætti ef til vill eins vel árfæra til c. 1460 (Sbr. Nr. 196). — $596_{12}$ sequunciubok l. sequenciubok. — $654^1$ í fyrirsögn að Nr. 584 hefir ártalið misprentazt 1471 fyrir *1472*. — $754_{15}$ 31. Janúar l. 7. Febrúar. — $769^3$ „han“ mun eiga að vera *hun*. — $777_{16}$ móðir l. móðurmóðir. — $783^{16}$ 13. Okt. l. 11. Okt. — $800_7$ „hvn“ mun að réttu lagi eiga að vera *hann*. — $812^{11}$ Langalandi l. Eyrarlandi.

*Um ættfærslu Brands lögmanns Jónssonar*

(eptir Jósafat ættfræðing Jónasson; sbr. registrið hér á eptir).

Um ættfærslu Brands lögmanns Jónssonar, í registri þessa

1) Hér (í Guðmundarsögu 72. k. Bps. I. 512) er Sigurðr sagðr „bróðir“ Þorljóts, en það mun vera rangt, fyrir „sonr“. „Oddr“ skeiðkollr (Bps. I. 511) mun og rangt fyrir Oddi, sem hann er nefndr þar litlu fyr.

bindis, er þess að geta, að við nánari athuganir hefi ég fundið góð rök fyrir því, að Brandr hafi, eins og þar er bent á, verið sonr Jóns Ketilssonar, en ekki sonr Jóns prests Maríuskálds (d. 1471), Pálssonar, eins og Björn á Skarðsá hefir, eptir einhverjum óljósum sögnum, ritað (Annálar Björns I. 66; sbr. Esp. árb. II. 33,49,59 og víðar; Safn II. 88; Sýslum. æfir A. 170—171), enda hefir Espólín efazt um þá ættfærslu, og enn fremr Jón háyfirdómari Pétrsson (Sýsl. æfir A. 170; Tímarit J. Pét. III. 52—53). Enn fremr sýna það rit þeirra tíma, einkum bréf og annálar, að þeirra Jóns prests og Brands er naumast meiri aldrsmunr en svo sem 10—15 ára. Jón prestr er skipaðr ráðsmaðr Hólastóls 1423 (Nýi annáll), og er hans þá getið í fyrsta sinn; er hann því varla fæddr fyr en um 1390— c. 1395; hefir hann að líkindum verið hér um bil áttræðr að aldri 1471, þegar hann andaðist, en víst eigi eldri. Brandr Jónsson (sem án efa er Brandr, sá er síðar var lögmaðr) kemr fyrst við bréf 1426 (DI. IV. Nr. 389), en þá er hann heldr ungr, því að hann er þar talinn síðastr gerningsvottanna. Þó mun hann ekki síðar fæddr enn um 1405—6. Er því allólíklegt, að Brandr geti verið sonr Jóns prests Pálssonar; en ýmislegt, bendir til þess, að þeir hafi verið náskyldir (sbr. einkum DI. IV. Nr. 625; V. Nr. 464). Í Tímariti sínu (III. 52) hefir Jón Pétrsson eftir Árna Magnússyni, að Brandr lögmaðr muni hafa verið sonr Jóns Arnfinnssonar (hans getr í dómi frá 21. okt. 1454; DI. V. Nr. 114); en bæði efast hann um það síðar (Sýslum. æfir A. 170, ath. 1), enda hefi ég eingin rök fundið fyrir þeirri ættfærslu, og munu þau trauðla finnast hér eptir, því flest bréf frá þeim tímum, sem að nokkru eru nýt, eru nú þegar orðin kunn. Brandr lögmaðr bjó — eins og kunnugt er — á Hofi á Höfðaströnd 1432—1465 (DI. V. 251. bls.), og mun sú jörð hafa verið höfuðból hinna fyrri ættmanna hans, og eign þeirra. 1433, eða næsta ár eptir að Brandr tók Hof, hefir hann átt í deilum við Magnús Benediktsson (frá Ökrum) út af kirkjufjám á Hofi, er Magnús átti að lúka Brandi í umboði Margrétar Eiríksdóttur, móður sinnar (DI. IV. nr. 568). Má af því ráða, að Margrét hefir haldið Hof, næst fyrir Brand, og líklega vegna einhverra venzla við foreldri hans; eða hún hefir þózt eiga eignartilkall til Hofs eptir þau Steinmóð prest Þorsteinsson (d. 1403) og Ingileifu Eiríksdóttur systur sína, sem var fylgikona Steinmóðar prests. En Steinmóðr prestr tók við Hofi 1395 af Jóni nokkrum, er þar hafði áðr verið prestr, (DI. III. 528. bls.). Í vitnisburði frá 23. Apríl 1414 er þess getið, að Steinmóðr prestr hafi feingið Eiríki Bjarnarsyni, Þorleifssonar, 20 hundruð í jörðinni Brúarlandi í Deildardal (í Hofskirkjusókn) í móðurarf Eiríks, og hafi hann leyst þar með 20 hundruð úr jörðinni Hofi (DI. III. Nr. 631). Samþykti þetta Björn Þorleifsson faðir Eiríks, Björn Bjarnarson bróðir Eiríks, og Ketill Pálsson, er átti systur Eiríks, dóttur Bjarnar Þorleifssonar. Hélt Ketill síðar Brúarland í ómagaeyri Eiríks, er hefir verið ungr, þegar gerningr þessi fór fram; en það hefir verið um, eða litlu fyrir, 1400. Hefir Steinmóðr prestr auðsjáanlega verið skyldr þeim Bjarnarson-

um eða teingdr þeim í móðrætt þeirra, og því haft fjárhald Eiríks á hendi. Hefir hann ekki viljað láta jörðina Hof ganga upp í ómagaeyri Eiríks, og þess vegna hefir hann lukt Eiríki jörðina Brúarland, en að líkindum sjálfr haldið partinn í Hofi, er hann leysti, og líklega ætlað hann sonum sínum, sem síðan önduðust ungir. Þeir Bjarnarsynir hafa og andazt barnlausir, líklega í Svartadauða (1402—1404), og hefir þá Ketill Pálsson mágr þeirra, eða erfingjar hans, kallað til Hofseigna í hendr örfum Steinmóðar prests. Var Margrét Eiríksdóttir þar til svara eptir systursonu sína (sonu Steinmóðar prests og Ingileifar). Jón Ketilsson, er kemr við bréf á Hofi 25. Dec. 1416 (DI. IV. Nr. 309), hefir án efa verið sonr Ketils Pálssonar, og dóttarsonr Bjarnar Þorleifssonar á Hofi (1395). Jón hefir einmitt búið á Hofi um þessar mundir (1416—1417), og hefir verið merkr maðr. Hann kemr og við bréf gert á Höfða á Höfðaströnd 30. Ágúst 1417 (DI. IV. Nr. 319), og er hann fyrri vottr beggja þessara bréfa. Það getr naumast verið efamál, að þetta sé faðir Brands lögmanns. Hitt er dálítið vafasamt, hvort þetta er sami maðr og sá Jón Ketilsson, er heldr Nes í Aðaldal 1429—1431, og hefir áðr verið sveinn Jóns biskups Vilhjálmssonar (DI. IV. 376. bls. og Nr. 432). Systkin þess Jóns Ketilssonar voru Þorsteinn, Teitr prestr og Úlfhildr, sem, eptir því sem séð verðr af bréfum, hafa naumast verið fædd fyrir 1390. En Jón Ketilsson faðir Brands lögmanns sýnist vera eldri en svo, að hann geti verið bróðir þessara systkina, og naumast er hann á þeim aldri, að hann geti verið einn maðr og Jón Ketilsson biskupssveinn (1429), sem í fyrsta lagi er fæddr um 1390[1].

Bræðr Brands lögmanns Jónssonar, sem nú þekkjast með vissu, voru þeir Björn, er ásamt Brandi kemr við bréf á Hólum í Hjaltadal 3. Febr. 1439 (DI. IV. Nr. 622), og Steinþór Jónsson[2], er 1429 fær veitingu fyrir Miklabæjarstað í Blönduhlíð, fyrir bænastað Lopts ríka, til fardaga 1430 (DI. IV. Nr. 416). Steinþór bjó síðar á Þverá í Skagafirði; hann var tvíkvæntr, og voru börn hans (að líkindum öll með fyrri konu): Arnór Steinþórsson, kemr við bréf 1432, og síðar (DI. Nr. 534 og 536); Ásgrímr Steinþórsson, er orðinn djákni 1423 (DI. IV. 307. bls.), og heldr hann þá staðinn í Miklabæ, og enn 1429, enn sýnist þá hafa verið erlendis; Haldór Steinþórsson, selr Nýlendi á Höfðaströnd 1435 (DI. IV. Nr. 591); Jón Steinþórsson kemr við bréf, er snertir Sigmund prest (bróður hans) 1449 (DI. IV. Nr. 782); Sigmundr Steinþórsson prestr í Miklabæ í Blönduhlíð (d. 1502) hefir og verið sonr Steinþórs Jónssonar. Sigmundr prestr selr part úr jörðunni Ási í Vatnsdal 1449, og

1) Hann mun vera faðir Ketils Jónssonar, er kemr við bréf í Þingeyjarþingi 17. Mai 1446 (DI. IV. Nr. 726).

2) Að Steinþór Jónsson hafi verið bróðir Brands má einkum ráða af DI. IV. Nr 647 og 724, og af ýmsu fleira má sjá frændsemi þeirra.

er hans þá fyrst getið (DI. IV. Nr. 782). Brigit Steinþórsdóttir var fulltíða 1445 (DI. IV. Nr. 713).

Sonr Brands lögmanns hét og Sigmundr, og hefir það nafn því verið algeingt í ætt þeirri.

Nafnið Páll á syni Brands lögmanns bendir á föðurnafn Ketils Pálssonar; en Björn bróðir Brands mun hafa borið nafn Bjarnar Þorleifssonar á Hofi.

Þess skal hér getið, að Eiríkr á Marðargnúpi Þorleifsson, sá er kemr við bréf nyrðra 1369—1409[1]), hefir án efa verið bróðir Bjarnar á Hofi (1395). Kynni þeir bræðr að vera í ætt við Brodda Þorleifsson (mág Kolbeins unga), er bjó á Hofi á 13. öld.

Þeir Brandr lögmaðr og Steinþór á Þverá hafa tæplega verið sammæðra, því Steinþór hefir, samkvæmt aldri Ásgríms djákna, er hefir verið elztr sona hans, verið fæddr um, eða litlu eptir, 1380. Jón faðir þeirra Brands er því fæddr um 1360. Hefir því móðir Jóns, — fædd um 1340, — verið dóttir fyrri konu Bjarnar bónda á Hofi. Enda má, af bréfinu frá 1414, er fyr var getið, sjá að kona Ketils Pálssonar var fulltíða og gipt, þegar þeir Björn og Eiríkr synir Bjarnar Þorleifssonar voru enn á ómagaaldri.

Björn Þorleifsson á Hofi hefir því verið gamall maðr 1395 (f. um 1320).

Bræðr Ketils Pálssonar kynni þeir Brandr og Narfi Pálssynir, er koma við bréf fyrir og um 1400, að hafa verið.

Páll Grímsson, er kemr við bréf 1377, í Skagafirði, og Ketill Grímsson í Hvammi á Vatnsnesi (1372), munu að einhverju leyti eiga skylt við Ketil Pálsson; en að svo stöddu verðr naumast með vissu séð hvernig frændsemi þeirra hefir verið háttað.

En mart er það, sem sýnir að forfeðri Brands lögmanns hefir verið göfugt, og einkum sýnast nöfnin: Grímr, Ketill, Narfi og Páll, benda á ættir þeirra Hítdæla, Kolbeinsstaðamanna og Skarðverja, og enn fremur Ásgríms nafnið og Sigmundar. Í þeim ættum voru og allmargir lögmenn á 14. öld.

---

1) Eiríks er og getið í Flateyjarannál við árið 1394, og hefir hann verið merkr maðr. Í registri III. bindis er þeim Eiríki í Vík blandað saman; en þar, á 718. bls., sést að Eiríkr í Vík er annar maðr en Eiríkr Þorleifsson.

# Registr.

---

[1]) Mun hvorttveggja einn maðr.
[2]) Sýnist vera alt einn maðr.

[1]) Gæti þó verið einn maðr.

[1]) Kynni að vera sami maðr og sá, er Hannes biskup telr lögmann sunnan og austan (Safn II, 83), og væri hann þá líklega sonr Pétrs, er gaf Kálfholtskirkju 1439 fjöru fyrir Þykkvabæ eða Bryggju og Krossi í Landeyjum (DI, IV, Nr. 623). En sá Pétr var sonr Þorsteins Styrkárssonar (líkl. Gizurarsonar frá Nesi).



²) Gæti þó, ef til vill, átt við Ásgrím Þorkelsson, ef það feingi staðizt tímans vegna.

[1]) Svo réttara færðr til ættar en í registri III. bindis.

[1]) En ekki Upsum, eins og stendr af vangá í registri IV. bindis.

[2]) Prestr þessi er ranglega kallaðr „Bárðr" í Prestatali séra Sveins, sem án efa er mislestr úr „Berdor" (sbr. IV, 465).

---

[1]) Af þessum stöðum verðr það nokkuð óvist, hvort faðir Bjarna prests sé Sigurðr Þórðarson i Haga.

---

[1]) Björn á Brimnesi og Björn bóndi á Myrká mun vera einn maðr (sbr. IV, Nr. 350, 461, 662).

---

[1]) Þessi úrgreiðsla hér um þessa tvo Birni kemr fyrir það, sem sagt er í registri IV. bindis um þrjá fyrstu Birni Jónssyni, er í því registri standa.

---

[1]) Brigit gæti verið dóttir Erlends á Eyri (um 1390—1395, DI, IV, 165), en hann mun sami maðr og Erlendr Þórðarson, bróðir Odds lepps; mun Brigit laundóttir Erlends, og Oddr, sem erfði Erlend, hefir því gefið henni jarðir í Álptafirði. Þórðr Erlendsson vestra 1462 gæti verið bróðir Brigitar.

[1]) Hefir verið bróðir Torfa hirðstjóra, og munu þeir komnir af Torfa Koðranssyni á Ökrum (d. 1394).

1) Þessi staðr gæti þó átt við Egil Magnússon, sem kynni að hafa búið á Mælifellsá fyrir 1467.

[1]) Mun alt einn maðr.



[1]) Mun vera einn maðr hvortveggja.

[2]) Gottskálksannáll og ýms yngri rit telja r a n g l e g a dánarár Einars 1473.

---

[1]) Mun alt einn maðr; hefir farið norðan með Magnúsi á Draflastöðum, er hann fékk Sigríðar úr Ögri (1467).

[1]) Virðist alt vera einn maðr.

[1]) Er alt án efa sami maðr.

———

[1]) Getr hvorttveggja verið einn maðr.

---

[1]) Skúli Loptsson kallar Guðna „systurson sinn" í bréfi 30. Maí 1456, en það er ekki svo að skilja, að Kristín móðir Guðna væri systir Skúla, heldr að þau Skúli væri systkinabörn.

---

[1]) Ásbjarnarson í yngri afskript dómsins virðist afbakan ein. Bjarni (rétt: Björn?) Óttarsson, sem kemr fyrir ásamt Gunnari í bréfi 1417, gæti verið faðir hans, og má hafa verið sonr Óttars Bjarnarsonar og (Sigríðar?) dóttur Torfa Koðránssonar (d. 1394).

---

[1]) Svo er hann færðr til ættar í ættartölubók séra Jóns á Lambavatni (frá 1681), og reynist það með öllu rétt, en Þorkell prestr og Árni biskup hafa verið synir Ólafs tóna Þorleifssonar (d. 1393). Sbr. Dagskrá III, Nr. 49—50.

[1]) Sýnist alt einn maðr.

---

[1]) Þetta orð hefir misprentazt (í III.): Bessastöðum, og því er nafnið hér tekið upp aptr.

---

[1]) Guttormr kemr við bréf 24. Jan. 1420 ásamt Helga bróður sínum (DI, IV, Nr. 335).

[2]) Helgi þessi mun vera hinn

---

sami „Helgi Bjarnarson“, sem kemr við kaupmálabréf Vigfúsar Hólms (1397) og kynni að vera sonr Bjarnar Ólafssonar á Hvalsnesi, en Margrét kona Hrafns lögmanns, er af nokkrum talin dóttir þess Bjarnar.

[1]) Guðni Sæmundarson, sem gæti verið faðir Helga lögmanns, kemr við bréf 1399 í Skagafirði, og mun vera bróðir Ingibjargar á Silfrastöðum.

[2]) Mun alt einn maðr.

[1]) Hefir orðið hirðstjóri eptir Arnfinn Þorsteinsson 1420, en Arnfinnr hafði hirðstjórn um alt land 1419; munu þeir Arnfinnr hafa verið mágar, og hafa þau Páll á Víðimýri og Sigríðr kona Helga líklega verið börn Þorsteins lögmanns, er margir ætla, að hafi búið á Víðimýri.

---

[1]) Er að líkindum sonr Guðmundar Stigssonar (Ártíðaskrár bls. 172) frá Ljósavatni, og þá

---

bróðursonr Loga officialis, er veitir Hrafni umboð yfir Grenjaðarstað 1406.

[1]) Gæti þó verið einn maðr.

[1]) Gæti verið sama kona og næsta á undan.



[2]) Kynni að vera faðir Einars prests á Breiðabólstað og Þorbjarnar prests föður Ólafs lögréttumanns, föður Einars prests í Görðum.

---

[1]) Það sýnist naumast efamál, að þessir menn sé af Akrætt á Mýrum og synir Jóns Styrssonar (1447); en Ingimundr mun vera sá hinn sami og veginn var 1480 (DI, VI, Nr. 256—257).

[2]) Úþyrmir í Dali kemr við norsk bréf um 1330 og er án efa faðir Ingimundar.

---

[1]) Þenna Jón Arnfinnsson kvað Árni Magnússon hafa haldið föður Brands lögmanns (sbr. Tímarit J. Pét. III, 52), en við nánari athugun reynist Brandr sonr Jóns Ketilssonar.

[2]) Jón getr eins vel verið rétt eins og Árni í þessum leshætti.

[3]) Gæti verið sami maðr og Jón lögmaðr.

[1]) Gæti verið einn maðr.

¹) Eignir Jóns ábóta í Suðrþingeyjarþingi benda á, að hann sé sonr Gamla Marteinssonar á Ljósavatni (sjá DI, IV, Nr. 579).

²) Í Nýja annál er getið láts Jóns „Gíslasonar", og mun það án efa villa fyrir „Gilssonar".

[1]) Ísleifsson stendr í afskript, en það mun misskript fyrir Ísleiksson.



[2]) Þetta mun alt einn maðr, þó að ekki verði það með öllu ábyrgzt.

[3]) Sumt af þessum stöðum gæti þó eins vel átt við næsta mann á undan.

[1]) Jón þessi mun vafalaust vera faðir þeirra Bjarnar, Brands lögmanns, Ketils og Steinþórs, því að Brandr átti Hof á Höfðaströnd.

[1]) Getr verið sami maðr og næsti á undan.

---

[1] Gæti verið einn maðr.

¹) Ekki er með öllu víst, að þetta sé alt einn maðr.

²) Þetta virðist alt vera einn maðr.

[1]) Þeir voru tveir bræðrnir Jónar Þorlákssynir, og er óvíst, nema eitthvað af þessum stöðum kunni að eiga við hinn.

---

[1]) Dagr Ívarsson kemr við bréf í Deildartungu og í Ási í Borgarfirði 24. Mai 1384 og 15. Janúar 1385 (DI, III, Nr. 320); mun hann vera faðir Ketils og Snorra. Bróðir Dags mun og vera Ketill Ívarsson á Varmá í Mosfellssveit (um

———

1890; DI, IV, bls. 112); eru þeir auðsjáanlega bræðr Vigfúsar hirðstjóra Hólms, synir Ívars hirðstjóra Hólms (d. 1371), Vigfússonar hirðstjóra 1371 (d. 1371), Jónssonar frá Ferjubakka (1310—1329), Erlendssonar sterka. Ætt þessari, *sem áðr hefir verið skakt rakin*, verðr að eins komið heim við tímatal og önnur atvik á þennan hátt. Hefir Jón á Ferjubakka átt dóttur Vigfúsar á Hlíðarenda (líkl. Hallberu, d. 1326) Magnússonar agnars, Andréssonar, og er svo Vigfúsarnafnið og eignin Hlíðarendi komin í þessa ætt. En Vigfús Jónsson (d. 1371) hefir átt dóttur Ívars Hólms Jónssonar (1312) og Ástu Klængsdóttur, Teitssonar.



———

[1] Ólafr faðir Þorvarðs er án efa Ólafr Skeggjason, bróðir Ketils Skeggjasonar; Ólafr átti Reyki (sbr. DI. IV, Nr. 714).

---

[1]) Sbr. DI, VI, Nr. 460. Kolbeinn sýnist fæddr nær 1400 (—1405).

---

[1]) Sbr. DI. IV, Nr. 317, 695.

[1]) Sbr. DI, IV, Nr. 349.
[2]) Líklega alt einn maðr.
[3]) Sbr. DI, V, Nr. 434.
[4]) Gæti verið sami maðr og Magnús á Grund.



[5]) Þetta er réttara heldr en á Tjörn, sem stendr í registri IV. bindis.

[1]) Sbr. DI, V, Nr. 380, 703, og bls. 292.

[1]) Þessir staðir munu allir eiga við sama mann. Röð Árskógspresta og ártöl reynast röng um þetta leyti í Prestatali sira Sveins Níelssonar, og hefir Jón Helgason tekið staðinn 1472, en ekki 1480, eins og þar segir.

---

[1]) Svo er rétt talið (sbr. Gottskálksannál), en síðr hitt, sem talið er í registri III. bindis, að þetta sé sami maðr og Njáll prestr Þorsteinsson.

[2]) Kona Halls í Dal hefir verið dóttir Þorsteins Skeggjasonar úr Skógum.

[1]) Sbr. DI, IV, bls. 682.

---

[1]) Þessi tilvitnan stendr við Odd lepp í registri IV. bindis, en á hér við.

[1]) Mun alt einn maðr, þótt ekki sé það með öllu víst.

[1]) Mun alt einn maðr, þó að ekki sé það með öllu víst.

---

[1]) Hér með leiðréttist ártalið „1401—1403“ í registri IV. bindis.

[2]) Mun vera sonr Sveins Bjarnarsonar og Þuríðar Ólafsdóttur hins staða Marteinssonar.

---

[1]) Sbr. DI, IV, Nr. 700.

[1]) Samkvæmt Víðidalstungumáldaga (bls. 349) 1472 hefir Solveig ekkja Orms haldið kirkjuna 21 ár, en þá Einar sonr þeirra 5 ár. Hefir því Ormr dáið 1446.

[1]) Þar misprentað „Jón“ fyrir Bjarni.

---

[1]) Sbr. DI, III, Nr. 532.

[2]) Þetta orð er fallið úr registri IV. bindis.

[3]) Mun hvortveggja staðr þessi eiga við þenna mann.

---

[1]) Pétr er án efa faðir Sigfúsar og Narfa, föður Guðmundar, Jóns, Ólofar og Pétrs.

[2]) Gæti þó verið einn maðr.

¹) Sbr. Safn I, 115—116; Sýslum.æfir I, 168, 306—308.

[1]) Sbr. DI. II, bls. 451.

[1]) Svo mun réttara fært til ættar en í registri III. bindis.

---

[1]) Nafn þetta er tekið hér upp eptir rannsóknum Jósafats á II.—IV. bindi, registrunum til leiðréttingar og eins lögmannatali í Safni (II, 62).

[1]) Sagnfræðingar og ættfræðingar hafa lengi talið, að Sigurðr hvítkollr væri sami maðr og Sigurðr í Ögri, og svo er gert í registri III. og IV. bindis. Af Flateyjarannál 1394 sést það ljóslega, að Sigurðr Þórðarson kolls (Sigurðr Kollsson) í Ögri er annar maðr en Sigurðr hvítkollr, sem óvíst er, hvar búið hefir og hvers son var.



[2]) Sbr. DI. IV, Nr. 10, og 676.

[1]) Sbr. DI. V, Nr. 179 og 182.
[2]) Sbr. Sigurðr hvítkollr.

[3]) Nafn þetta er á réttan hátt tekið upp í registr II. bindis, en þess þar ógetið, að það sé sami maðr og Sigurðr lögmaðr. Jóni Sigurðssyni hefir og sézt yfir Sigurð þenna lögmann í lögmannatali sínu í Safni (II).
[4]) Það getr einginn efi á því verið, að þetta sé Sigvaldi langalíf (sbr. Sunnanfara I, bls. 17), sem Jón Gizurarson segir að hafi

---

verið sveinn Björns Þorleifssonar og Ólöfar, og séra Jón á Lambavatni segir, að hafi verið úr Ísafirði og hafi (c. 1460—1470) smíðað kirkjuna í Vatnsfirði (Bps. II, 599). Hvorki séra Jón Egilsson, Jón Gizurarson né séra Jón á Lambavatni geta móðernis né faðernis Sigvalda, né virðast kunna neitt um það að segja, og var Jón Gizurarson þó beinn afkomandi hans. En einn af sonum Sigvalda langalifs hét einmitt Gunnar (Safn I, 674; Bps. II, 599), og kemr því vel heim, að hann hafi verið Gunnarsson. En á 18. öld hafa menn þózt kunna frá því að segja, að móðir Sigvalda hafi verið Ólöf Loptsdóttir, og hafi hún átt hann í föðurgarði með Illuga svarta, vinnumanni föður sins. En ekkert er til, sem bendir á, að sú sögn hafi við neitt að styðjast. En hitt er órækara, að Sigvaldi fíflaði Þuríði Einarsdóttur, bróðurdóttur Björns Þorleifssonar, flutti með hana austur á Síðu og átti hana að eiginkonu.

[1]) Sbr. DI. IV, Nr. 606.

[1]) Þorgrímr krókr hefir búið á Álptanesi á Mýrum litlu fyrir 1400 (DI. IV, 187) og hefir verið bróðir Ívars króks, og þeir bræðr Odds lepps og synir Þórðar Flosasonar, sem bjó á Álptanesi 1354. Skúli hét einmitt bróðir Þorgríms, Ívars og Odds, og hefir þessi Skúli orið nafn hans.

[1]) Sbr. DI. IV, Nr. 599.

[1]) Sbr. DI. IV, Nr. 353.

---

[1]) Sbr. Bps. II, 419.
[2]) Gæti þó verið sami maðr og næsti á undan.

---

[1]) Svo réttara en Oddssonar lepps, eins og talið er í registri IV. b.

[1]) Sbr. Flateyjarannál 1393—1394.

[2]) Kynni þó að vera sami og næsti maðr á eptir.

[1]) Fremr svo eða 1423, heldr en 1421, eins og talið er í registri IV. b.

[1]) Mun hvorttveggja eiga við sama mann.

[1]) Sbr. DI. IV, Nr. 639.

¹) Þessi staðr mun án efa eiga við Vermund Kolbeinsson, sem hefir legið sjúkr í Björgvin 1459 og dáið það ár.

[1]) Mun án efa einn maðr.

[1]) Ættfærsla þessi og aðgreining er réttari en í registri IV. bindis.

¹) Í registri IV. bindis er prentvilla „prestr“ fyrir „prests“.

---

[1]) Ekki Guðmundardóttir Arasonar, eins og alment hefir áðr verið talið.

[1]) Þessi tilvitnan stendr í registri IV. bindis undir nafni Jóns Hróðbjartssonar, en bæði nafnið og tilvitnanin á að falla þar burt.

[2]) Mun án efa alt einn maðr.

[3]) Ekki er alveg víst, að þetta eigi hvorttveggja við einn mann.

[1]) Sbr. DI. IV, Nr. 510.

[2]) Í registri IV. bindis er Þórðr talinn Sigurðarson (sbr. Flateyjarannál 1391, 1394), en hitt er þó varlegra að láta hann ófeðraðan. Hitt mun víst, að Þórðr kollr yngri var Sigurðarson, líklega Þórðarsonar kolls.

